# FORNMANNA SÖGUR,

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.

*Fjölsvinnsmál.*



FYRSTA BINDI.

Saga Ólafs konúngs Tryggvasonar.

Fyrri deild.

...mannah... 825,

...Harðvig... Popp.

# SAGA ÓLAFS KONÚNGS TRYGGVASONAR,

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

FYRRI DEILD.

Kaupmannahöfn, 1825,

Prentuð hjá *Harðvig Friðrek Popp.*

FRIDREKI HINUM SJÖTTA,

DANAKONÚNGI

OG

MARÍU SOFÍU FRIDERIKU,

DANADROTNÍNGU

allraundirgefnast

*hið norræna fornfræða fèlag.*

Hnígr Saga
huga bljúgum
konúnglig for knè;
færir sjálfa sig
seggja Drottni,
sjálfum eigu sjálfs.

Og einarðlig
aldna túngu
þylr munar máli;
láti eyru
Landastýrir
hneigð að helgum rúnum!

Ljúft hún minnist,
að und laufi friðar
þáði værð og vörn;
það ber hún fram
á fremstum öldum
lof að lýða minnum;

*Sig Saga böjer*
*bly og ydmyg,*
*Herskerthronen hilser;*
*selv hun sig förer*
*til Folkedrotten,*
*Guld, som alt han ejer.*

*Fri og frejdig,*
*fro i Sindet,*
*tolker hun Oldtids Tunge;*
*naadig lytte*
*Landestyreren*
*til den hellige Tale!*

*Fro hun mindes,*
*at i Fredens Skygge*
*nöd hun vældigt Værn;*
*den Roes hun förer*
*til Folkenes Minde*
*selv i sildigst Old;*

Hve und áttrunni
Aldinborgar
skugga blaut og skýli,
á höfuðból
Hilmis Dana
flutt úr feðra húsum,

Hve vegr hennar
um vaxa knátti
for Buðlúnga brjósti;
hve hana Friðrekr
og feðr hans
hófu á líknar lófum;

Og hana vörðu
með orku ríkri
í forlaga flaumi,
og henni vígðust
Vísa dáðum
friðarstóli studdir.

*At under Ættræ*
*Oldenborgernes*
*nöd hun skjærmende Skygge;*
*til Dane-Herskerens*
*Hovedbolig*
*fört fra Fædres Hjem;*

*At hendes Hæder*
*herligt voxte*
*i Skjoldungers Skjöd;*
*at hende Fredrik*
*og Fædre hans*
*hæved ved hjælpsom Haand;*

*Og værned om hende*
*ved vældig Styrke*
*i Skjæbnens Skifte;*
*og til hende sig vied*
*ved herligt Storværk*
*fromt paa Fredens Throne.*

Svo hana eftir
öðlínga beztr,
Dana ást og afl;
og henni ann
öllum huga
Drottníng Danabót.

Svó *leita* tvö,
það er sjálf eiga,
miðla manni hveim:
skilfenginn
Skjöldúnga arf,
forna dygð og dáð.

Slíkan fár
á fjalli lítr
ræsir reistan varða,
sem þanns góðr konúngr
gnæfa sèr
ýta brjóstum í.

---

*Saa hende fremmer*
*Fyrsteædlingen,*
*Daners Liv og Lyst;*
*og hende elsker*
*af Hjertets Fylde*
*Drotningen, Daners Pryd.*

*Saa söge de begge,*
*hvad Selv de eje*
*Áskurs Æt at række:*
*hin skjellige*
*Skjoldunge-Arv,*
*Fortids Dyd og Daad.*

*Ingen Fyrste*
*paa Fjeld skuer*
*sligt et Mindesmærke,*
*som det goden Konning*
*knejse seer*
*frit i Folkets Hjerte.*

---

# Formáli.

Hið norræna fornfræða fèlag hefir ætlað sèr, eins og aðalaugnamið sinna atgerða, at útgefa frumrit allra á norrænu ritaðra sögubóka í samfellu. Eru þar fyrstar í röð sögur Noregs konúnga, að fráskildri Heimskrínglu Snorra; þarnæst sögur og þættir af viðburðum í Danmörk og Svíþjóðu; en loksins sá inn mikli sagnaflokkr, er Íslandi viðkemr. Eptir þessu undirlagi gengr hèr þá í broddi fylkíngar Saga Ólafs konúngs Tryggvasonar, af hvörri fèlagið hèrmeð leggr fyrri hlutann fyrir almenníngs sjónir, tilbúinn með þeim hætti, er hèr skal greiniligar frásegja.

Þau hjálparmeðöl, sem fèlagið þartil notað hefir, eru:

1) Skinnbókin Nr. 61 í arkarformi af Árna Magnússonar nefndarinnar handritasafni. Eptir henni er útgáfa þessi nærri orðrètt prentuð, en þar sem frá er vikið, er hennar orðamunr merktr *A.* I þessa bók vantar einúngis eitt blað í síðari partinum, og er það tekið úr næstfylgjandi bók, *B.* Það er annars um skinnbók þessa að segja, að hún er, bæði hvað letrgjörð snertir og niðrskipun efnis, hin snotrasta og bezta af öllum þeim handritum, sem hèr eru til af Ólafssögu Tryggvasonar, og heyrir því at öllum líkindum til hinna elztu ritgjörða um Ólaf konúng. At vísu er hún nokkut frábrugðin þeirri, sem prentuð er í Skálholti 1689, sumstaðar er hún styttri í frásögninni, og fellir undan fátt eitt, er eigi viðkemr Ólafi konúngi, en annarsstaðar er hún aptr orðfyllri og efnisríkari. Við þá útskrift af henni, sem prent-

að er eptir, eru samanbornar allar aðrar skinnbækr, sem hèr finnast af sögunni í fornfræðasafni Árna Magnússonar og Konúngsins stóru bókahirzlu; þykir það af samburðinum ráða mega, að þær geta niðurráðazt þannig:

2) Skinnbókin Nr. 54 í arkarformi, merkt *B.*, ber at mestu saman við *A.* og því er hún, sem nákvæmast varð, samanborin og hagnýtt, og öll þau orð, sem standa í sögunni innan þessara strika [ ], og ekki er getið hvaðan sèu, éru úr henni tekin. Annars vanta mörg blöð í þessa bók.

3) Skinnbókin Nr. 53 í arkarformi, merkt *C.*, líkist mikið *A.* og *B.* en er þó í orðfæri sumstaðar frábrugðin. I tilliti til niðurraðanar efnis og viðburða eru báðar þessar skinnbækr *B.* og *C.* samhljóða með *A.* og sleppa sömu þáttum sem hún; mörg blöð vanta einnig í þessa bók.

4) Ólafssaga í Flateyarbók, merkt *F.*, hún er á mörgum stöðum fjölorðari, og bætir inní sumstaðar nokkrum atriðum og viðburðum, þarámót er *A.* annarsstaðar orðfyllri og getr margra smáatvika, er viðkoma sögunni, sem ekki finnast í *F.* Hèrtil heyrir Skálholtsútgáfan, merkt *Sk.* og skinnbókin Nr. 309 í fjögrablaðaformi, merkt Þ., í hvörja vantar mörg stykki, og víða hvar er ólesandi.

5) Skinnbókin Nr. 62 í arkarformi, merkt *S.* líkist mest *F.*, en sleppir mörgu og segir styttra frá mörgum atburðum; þaraðauki vantar mikið í þessa bók.

Heimskríngla, merkt *Hk.* hefir og, hvar þurfa þótti, verið hagnýtt; þartil sýnist heyra sögubrotin Nr. 325, 8 og 9.

Skinnbókin Nr. 310 í fjögrablaðaformi, eptir hvörri hin svenska útgáfa er prentuð að Uppsölum, 1691, hefir hvorug verið hagnýtt, af því frásögnin er þar styttri og mjög frábrugðin.

Af áðurtèðum skinnbókum er þó ekki tekið nema það, sem þótti máli skipta. Meðlimir fèlagsins fornfræðanefndar hafa þannig skipt starfinu á milli sín: *Sveinbjörn Egilsson*, kennari við Bessastaðaskóla, hefir skrifað út skinnbókina *A.*, sem fylgt hefir verið, vetrinn 1818 - 19, þá hann dvaldist hèr í Kaupmannahöfn. Löjtenant *Rafn* og Candid. Theol. Þ. *Gudmundsson* hafa nákvæmliga samanborið þessa útskrift við hinar áðurnefndu skinnbækr ok valið þann orðamun, er þurfa þótti. Prófarkirnar eru leiðrèttar eptir sjálfri skinnbókinni *A.*, og hefir Cand. *Gudmundsson* lesið þá fyrstu, Löjtenant *Rafn* þá aðra, og Próf. *Rask*, fèlagsins forseti, þá þriðju og eptirsjónarörkina; en tileinkunarkvæðið hefir *Sv. Egilsson* ort.

Þótt nú skinnbókinni *A.* sè fylgt mest alstaðar í tilliti til orða og meiníngar, þá er þó víða breytt hennar stafasetníngu, höfum við því síðr í það horfið, sem hún er hinum öðrum og jafnvel sjálfri sèr ólík i mörgu. Þarum er helzt aðgætandi:

1) Er sett uppyfir áherzluteikn, þar sem framburðrinn það útheimtir; en *á* aðgreint frá *á*, svo að *á* er skrifað þar sem hljóðið var áðr *á* en er nú *o*, svosem: v å r, h å n u m; en *á* þar sem það hefir jafnan verið tvíhljóðið *á*: *è* er sett þar sem lesið verðr *je*, en skrifað var *e* tómt; d. t. k n è, l è t.

2) Er aðgreint *j* og *v* frá *i* og *ú* fyrir framan

hljóðstafi alla; t. d. jafn, mjök, herjuðu, eins og var, sveinn, kvæði.

3) Er aðgreint *au* frá *av*; svo að *av* er sett þar sem lesa *á ö*, en skinnbókin hafði *au*; en *au* er skrifað eins og venjuliga fyrir tvíhljóðið *au*, sem heyrir til *ö*; t. d. Guðravðr þ. e. Guðröðr (í eigandanum: Guðraðar) — Haukr o. s. fr.

4) Fyrir framan samhljóðendr og í niðurlagi orða er ekki haft *ll*, *nn*, nema þar sem framburðr, uppruni eðr aðgreiníng orða það útheimtir; t. d. manns af maðr en mans af man; annann fyrir annarn af annarr, en allan af allr, eins og góðan, vænan, síðan; sveinn-inn, og svein-inn af því orðið er karlkent, en orðin, ferðin o. s. fr.

5) Fyrir *c* og *q* er hèr skrifað *k*, og fyrir *ck*, *kk*, sem skinnbókin sjálf hefir víðast hvar.

6) *Z* er í *A.* notað svo margvísliga og gagnstæðiliga, að ófært þótti að bjóða það framandi þjóðum; er því hèr alstaðar sett *st* í staðinn þar sem þannig á að lesa, og *s* þar sem *s* er lesið og ekkert undanfelt; t. d. dvaldist, kunnasta, Haralds, sverðs, en haldið *z*, þar sem hljóðið er að sönnu *s*, en *t*, *d*, og stundum *n*, *r*, er slept fyrir framan, t. d. bezt af betr, helzt af heldr, gjörzt af gjört, tekizt af tekit, eins og síðazt, optazt af síðar, optar. Vonum við að þannig verði rèttr lestur bókarinnar bæði íslenzkum og útlendum greiðari og þægiligri, sem hefir verið vor tilgángr með þessum breytíngum.

## Hèr hefr upp Sögu
# Ólafs konúngs Tryggvasonar.

Haraldr hinn hárfagri var konúngr yfir öllum Noregi lánga æfi, en áðr voru þar margir konúngar, sumir höfðu eitt fylki til forráða, en sumir nökkuru meir, en alla þá rak Haraldr konúngr af ríki; sumir fèllu, sumir flýðu land, en sumir fyrirlètu konúngdóminn; ok náði engi maðr at bera konúngsnafn nema hann einn; jarl setti hann í hverju fylki til lands stjórnar ok lögh at dæma. Haraldr konúngr var son Hálfdánar svarta Upplendínga konúngs; faþir Hálfdánar svarta var Guðröðr veiðikonúngr, son Hálfdánar konúngs, er kallaðr var hinn mildi ok hinn matarilli; þvíat hann gaf í mála mönnum sínum jafnmikla gullpenínga sem aðrir konúngar silfrpenínga, en hann svelti menn at mat. Móðir Hálfdánar svarta var Ása, dóttir Haralds hins granrauða konúngs af Ögðum. Móðir Haralds hárfagra var Ragnhildr, dóttir Sigurðar hjartar; hans móðir var Áslaug, dóttir Sigurðar orms í

auga, Ragnarssonar Loðbrókar; móðir Sigurðar orms í auga var Áslaug, dóttir Sigurðar Fofnisbana. Sigurðr hjörtr átti Þyrni [1]), dóttur Klakk-Haralds af Jótlandi, systur Þyri Danmarkarbótar, er átti Gormr hinn gamli Dana konúngr. Þyrni var móðir Ragnhildar, móður Haralds hárfagra. Haraldr tók konúngdóm eptir föður sinn, þá er hann var 10 vetra gamall; hann var allra manna mestr ok sterkaztr ok fríðaztr sýnum, vitr maðr ok skörúngr mikill. Guthormr, son Sigurðar hjartar, móðurbróðir hans, var forstjóri fur hirðinni ok fyrir öllum landráðum, hann var hertogi fur liðinu. [Í firstu vann [2]) Haraldr konúngr Upplönd, [ok tók af lífi alla þá höfðíngja sem þar gengu á ríkit [2]); þvínæst sendi hann menn sína eptir meyju þeirri, er Gyða er nefnd, dóttir Eiríks konúngs af Hörðalandi, er hann vildi taka til frillu sèr, þvíat hún var allfríð mær ok heldr stórlát; hún var at fóstri á Valdresi með ríkum bónda; en er sendimenn komu þar, báru þeir fram sín erendi fyrir meyna; hún svarar svâ: at hún vill eigi spilla meydómi sínum til þess at eiga þann konúng, er eigi hefir meira enn nökkur [3]) fylki til forráða, ok þat þikki mèr undarligt, segir hún, at engi er sá konúngr, er svâ vildi eignast Noreg ok vera einvaldi yfir, sem Gormr konúngr at Danmerk eðr Eiríkr at Uppsölum. Sendimönnum þótti

---

[1]) Þyri, *F.* [2]) *Þetta sèst ekki í A, en er tekið úr C.* [3]) eitt, *B.*

hün svara heldr stórliga, ok spurja hana máls um, hvartil þessi svör skulu koma, segja at Haraldr er svâ ríkr konúngr at henni er fullræði í. En þó at hún svaraði annann veg þeirra erendum enn þeir vildi, þá sá þeir engan sinn kost til þess at sinni at hafa hana brottu nema hennar vili væri til; búast þeir þá ferðar sinnar. Sem þeir ero farar búnir leiða menn þá út; þá mælti Gyða til sendimanna: berit þau orð mín Haraldi konúngi, at ek mún því at eins játa at gerast hans eiginkona, ef hann vill þat áðr gera fyrir mína skyld at leggja undir sik allan Noreg, ok ráða því ríki jafn frjálsliga sem Eiríkr konúngr Svíaveldi eðr Gormr gamli Danmörk, þvíat þá þikkir mèr hann heita mega þjóðkonúngr. Sendimenn fara aptr til Haralds, ok segja honum öll þessi orð meyjarinnar, ok telja at hún [sè furðu [1]) djavrf ok úvita, kalla þat makligt at konúngr sendi lið eptir henni, ok tæki hana með úsæmd. Haraldr konúngr sagði, at þessi mær hefði eigi illa mælt, eðr gert þat er hefnda væri fyrir vert; heldr hafi hún, sagði hann, mikla þökk fyrir sín orð, þvíat hún hefir mint mik þeirra luta, er mèr þikkir nú undarligt er ek hefir eigi furr hugleidt; nú strengi ek þess heit, ok því skýt ek til guðs þess er mik skóp ok öllu ræðr, at aldrei skal hár mitt skera nè kemba, furr enn ek hefir eignazt allan Noregh með sköttum ok

[1]) þannig B, C; sèst ekki í A.

skyldum ok forræði, eðr ella skal ek deyja. Þessa heitstrengíngh þakkaði honum Guthormr hertogi, ok kallaði konúngligt at efna vel orð sín. Þaðan af vann Haraldr konúngr og lagði undir sik allan Noregh, sem segir í sögu hans. Nú sem hann var vorþinn einvaldskonúngr yfir öllu landi, þá mintist hann þess, er mærin sú en mikilláta hafði til hans mælt; sendi hann þá menn sína eptir henni, ok lèt hana til sín fara, ok lagði hana í sæng hjá sèr.

*Frá sonum Haralds konúngs.*

2. Haraldr konúngr átti margar konur ok mörg börn; hann átti 20 syni eðr fleiri, ok voru allir gerviligir menn. Göfug móðerni áttu þeir, ok fæddust þeir margir upp með móðurfrændum sínum: Haraldr konúngr fèkk þeirrar konu er Ragnhildr hèt, hún var dóttir Eiríks konúngs af Jótlandi; hún var köllut Ragnhildr hin ríka; þeirra son var Eiríkr blóðöx, hann var uppfæddr í Fjörðum með Þóri hersi Hróhallasyni [1]: Guthormr, Hrærekr [2]), Gunnravðr er sumir menn kalla Guðravð; þeirra móðir var Gyða, dóttir Eiríks konúngs af Hörðalandi sem fyrr var ritat; voro þeir þar uppfæddir í barnæsku: Hálfdán svarti ok Hálfdán hvíti voro tvíburar synir Ásu, dóttur Hákonar Hlaðajarls Grjótgarðssonar, Sigravðr [3]) hèt hinn þriði; þeir fæddust upp allir í Þrándheimi; Hálfdán svarti var fyrir þeim bræðrum: Ólafr, Björn, Sigtryggr er

[1]) Hróalzsyni, F. [2]) Hárekr, F. [3]) Sigurðr, F.

sumir menn kalla Tryggva, Fróði [1]), Þorgils; móþir þeirra var Hildr eðr Svanhildr, dóttir Eysteins jarls af Heiðmörk; Haraldr konúngr setti Eystein jarl yfir Vestfold, ok seldi honum syni sína til fóstrs: Sigröðr hrísi, Hálfdán háleggr, Guðravðr ljómi, Rögnvaldr rèttilbeini; þeir voru synir Snjófríðar finnsku: Dagr, Hríngr, Ragnar rykkill; þeirra móðir hèt Álfhildr, dóttir Hríngs Dagssonar af Hríngaríki; þeir fæddust á Upplöndum; Íngigerðr ok Álöf árbót voro ok Haralds [2]) dætr: Íngibjörg hèt enn dóttir Haralds konúngs, er átti Hálfdán jarl; þeirra dóttir var Gunnhildr, er átti Finnr hinn skjálgi; þeirra börn voro Eyvindr skáldaspillir, Njáll, Sigurðr [3]), Þóra; dóttir Njáls var Ástríðr, móðir Steinkels [4]) Svía konúngs: enn voro fleiri dætr Haralds konúngs; Álöfu dóttur hans átti Þórir jarl þegjandi, þeirra dóttir var Bergljót, móðir Hákonar ens ríka; Haraldr konúngr gipti dætr sínar innanlands jörlum sínum. Þá er Haraldr konúngr herjaði [5]) landit ok átti orustor, eignaðist hann vandliga alt landit ok öll óðul bæði bygðir ok sætr, úteyjar ok allar markir, svâ alla auðn landsins; voru allir bændr hans leigumenn eðr landbúar. Haraldr hárfagri tók konúngdóm 10 vetra gamall, sem áðr er sagt, ok rèði landi 3 vetr ok 70. Þá er hann var 60 [6]) at aldri, voro margir synir hans alrosknir, en sumir dauðir; þeir voro

[1]) fjórði, *C.* [2]) hennar, *C.* [3]) Sigríðr, *B.* [4]) Steinkola, *B.* [5]) friðaði, *F.* [6]) 70, *F.*

þá margir ofstopamenn innanlands, ok voro seálfir úsáttir sín ímilli; tóku þeir af eignum jarla konúngs en drápu suma; stefndi konúngr þá þíng fjölment austr í landi, ok bauð til Upplendíngum; þá skipaði hann lög, ok gaf sonum sínum öllum konúnganöfn, ok setti þat í lögum: at hans ættmenn skyldi hverr taka konúngdóm eptir sinn föður, en jarldóm sá er kvennsvipt [1]) væri af hans ætt kominn. Konúngr skipti landi með sonum sínum: Víngulmerk [2]), Raumaríki, Vestfold, Þelamerk, þat gaf hann Ólafi, Birni, Sigtryggi, Fróða, Þorgilsi; Heiðmerk ok Guþbrandsdali gaf hann Dag ok Hríng ok Ragnari; Snæfríðar sonum gaf hann Hríngaríki, Haðaland, Þotn ok þat er þar lá til; Guthorm son sinn setti hann til landvarnar austr við landsenda, ok gaf honum þar yfirsókn um Ránríki [3]) frá Elfi til Svínasunds. Haraldr konúngr var optazt seálfr um midt landit; Rærekr ok Guþröðr voro jafnan innan hirðar með konúngi ok höfðu veizlur stórar um Sogn ok um Hörðaland. Eiríkr var laungum með feðr sínum; honum unni konúngr mest, ok virði hann framazt allra sona sinna, þvíat hann var ríkbornaztr at móþerni; hann var son Ragnhildar drottníngar af Danmörku, sem furr var sagt. [Svâ] er sagt at Haraldr konúngr lèti af 9 konum sínum, þá er hann fèkk Ragnhildar ríku; þessa getr Þorbjörn hornklofi:

---

[1]) kvennsviftar, C; or kvennlegg, F. [2]) Bríngulmerk, C. [3]) Raumaríki, F.

Hafnaði Hólmrýgjum
ok Hörða meyjum,
hvârri enni heinversku [1])
ok Havlga ættar,
konúngr inn kynstóri,
er tók konuna davnsku.

Ragnhildr hin ríka drottníng lifði 3 vetr síþan hún kom í Noreg. Eiríki syni sínum gaf Haraldr konúngr Hálogaland ok Norðmæri ok Raumsdal. Norðr í Þrándheimi gaf hann yfirsókn [2]) Hálfdáni hvíta ok Hálfdáni svarta ok Sigravði. Gaf konúngr sonum sínum í hverju þessu fylki hálfar tekjur við sik, ok þat með at þeir skyldo sitja í hásæti skör lægra enn Haraldr konúngr, en skör hærra enn [synir Haralds konúngs aðrir [3]); en þat sæti eptir dag hans ætlaði sèr hverr sona hans, en konúngr seálfr ætlaði þat Eiríki, en Þrændir ætlaðu þat Hálfdáni svarta; en Víkverjar ok Upplendíngar unnu þeim bezt ríkis, er þeim voro undir hendi; af þessu varð mikit sundrþykki enn af nýju milli þeirra bræðra. En með því at þeir þóttust hafa lítit ríki til forráða, þá fóro þeir í hernað, svâ [sem] sögur ero til, at Guthormr fèll í Elfarkvíslum fyrir Sölvaklofa; tók þá Ólafr konúngr við því ríki sem hann hafði haft; Hálfdán hvíti féll á Eistlandi, en Hálfdán háleggr í Orkneyjum. Þeim Þorgilsi ok Fróða gaf Haraldr konúngr herskip ok

[1]) *kannske* heimversku *eðr* hvinversku; hæfersku, *F.*
[2]) *þannig C*; yfirsotir, *A*; ríki, *F.* [3]) jarlar, *C, F.*

fóro þeir í vestrvíking, ok herjuðu um Skotland, Bretland ok Írland; þeir eignuðust firstir Norðmanna Dýflina á Írlandi. Svâ er sagt at Fróða væri gefinn dauðadrykkr; en Þorgils var lengi konúngr yfir Dýflinni, ok var umsíðir svikinn af Írum ok fèll þar.

*Eiríkr fèkk Gunnhildar.*

3. Eiríkr ætlaði sèr at vera yfirkonúngr allra bræðra sinna, ok svâ vildi Haraldr konúngr faðir hans vera láta. Eiríkr var snemmendis hinn mesti hermaðr, því var hann kallaðr Eiríkr blóðöx; þá var hann 12 vetra, er Haraldr konúngr gaf honum 5 herskip, ok fór hann í hernað, first í Austrvegh ok þaðan suðr um Danmörk, um Frísland ok Saxland, ok dvaldist [í þessari ferð 4 vetr; eptir þat fór hann vestr um haf, ok herjaði um Skotland, Bretland, Írland ok Valland, ok dvaldist [1]) þar aðra 4 vetr. Eptir þat fór hann norðr á Finnmörk ok alt til Bjarmalands, ok átti þar orosto, ok hafði sigr; þá er hann kom aptr á Finnmörk, fundo menn hans í gamma einum konu þá er þeir höfðo enga sjeð jafn fríða; hún nefndist fyrir þeim Gunnhildr; en faðir minn, segir hún, býr á Hálogalandi, er heitir Özurr toti; ek hefir hèr verit at nema kunnastu at Finnum 2, þeim er hèr ero fróðaztir á mörkinni; þeir ero nú farnir á veiþar, en báðir þeir vilja eiga mik; þeir ero svâ vísir at þeir rekja spor sem hundar bæði á þá ok á hjarni, en

[1]) *bæta inn i C, F.*

þeir kunna svâ vel á skíðum, at ekki má forðast þá hvârki menn nè dýr; þeir hæfa ok alt þat er þeir skjóta til; svâ hafa þeir fyrirkomit hverjum manni, er hèr hefir komit í nánd; en ef þeir [illegible] jörðin um [1]) fyrir sjónum [illegible] nakkvat kvikt fyrir sjónum [illegible] daudt niðr; nú megut þèr [illegible] á veg þeirra. Ek mân [illegible] mínum; skulom vèr þá [illegible]it þá; þeir þekkjast þetta. [illegible] þá, tók hún línsekk einn, [illegible] væri í, ok seri [2]) því um s[illegible] innan. Litlu síðar komu F[illegible]ðu hvat þar væri komit; hú[illegible]ki komit; Finnum þótti þat [illegible]r höfðu rakit sporin alt at gam[illegible]ó ekki; gerðu þeir þá eld ok ma[illegible]ir voru mettir, bjó Gunnhildr [3]) [illegible] En svâ hafði áðr farit [4]) með þeim, at [illegible]err vakti yfir öðrum fyrir vandlætis [5]) sakir; þá mælti Gunnhildr: farit nú híngat ok liggi til sinnar handar mèr hvârr ykkar; þeir urðu þessu fegnir ok gerðu svâ; hún hèlt sinni hendi um háls hvârum þeirra; þeir sofna þegar, en hún vekr þá; þeir sofna skjótt [6]), svâ at hún gat valla vakit þá; ok hit þriðja sinn sofa þeir svâ fast, at hún fær með engo móti vakit þá, þó

[1]) springr jörðin, *F.* [2]) sáði, *C, F.* [3]) bjuggu þeir, *F.* [4]) þrjár nætr *bætir við F.* [5]) *gizkat*; vandlotu, *A*; afbrygðis, *C*; ástar, *F.* [6]) fast, *F.*

at hún reisi þá upp; tók hún þá selbelgi 2 mikla ok steypti yfir höfuð þeim ok batt rammliga at fyrir neðan hendr þeim; ok enn sváfu þeir. Gunnhildr görir þá bendíng konúngsmönnum; laupa þeir þá upp, [bera vopn á Finnana ok fá hlaðit þeim [1]), draga þá síðan út or gammanum; voro þá reiþar þrumur svâ stórar, at þeir máttu hvergi fara. En [at morni [2]) fóro þeir til skipa ok höfðu Gunnhildi með sèr ok færðo hana Eiríki; fór þá Eiríkr leiþar sinnar; èn er hann kom á Hálogaland, [stefndi hann til sín [3]) Özuri tota, ok sagði, at hann vildi fá dóttur hans. Özurr játaði því; fèkk Eiríkr þá Gunnhildar, ok hafði hana með sèr suðr í land.

*Eiríkr blóðöx brendi inni Rögnvald rèttilbeina.*

4. Rögnvaldr rèttilbeini átti Haðaland, hann nam fjölkýngi ok gerðist seiðmaðr. Haraldi konúngi þóttu illir seiðmenn; á Hörðalandi var sá seiðmaðr er Vitgeirr hèt; konúngr sendi honum orð ok bað hann hætta seiði; hann svarar ok kvað:

Þat er vâ lítil,
at vèr seiðim
karla börn
ok kerlínga,
er Rögnvaldr seiðir
rèttilbeini,
hróðmögr Haralds
á Haðalandi.

En er Haraldr konúngr heyrði þetta, þá fór Eiríkr blóðöx með hans ráði til Upplanda, ok er hann kom á Haðaland, brendi hann inni Rögn–

[1]) ok drápu Finnana, F. [2]) nokkuru síðar, F. [3]) fann hann, F.

vald með 80 seiðmanna, ok var þat verk mjök lofat. Guþröðr ljómi druknaði fyrir Jaðri.

*Fall Bjarnar kaupmanns.*

5. Björn son Haralds konúngs rèð fyrir Vestfold, ok sat optazt í Túnsbergi, en var lítt í hernaði. Til Túnsbergs sóttu mjök kaupmenn bæði þar um Víkina ok norþan or landi, sunnan or Danmerk ok af Saxlandi. Björn konúngr átti ok kaupskip í ferðum til ýmissa landa, ok aflaði sèr svâ dýrgripa eðr annara fánga, þeirra er hann þóttist þurfa; bræðr hans kölluðu hann kaupmann eðr farmann. Björn var vitr maðr ok stiltr vel, ok þótti vænn til höfþíngja; hann fèkk sèr gott kvânfáng ok makligt, hann gat son er Guðravðr hèt. Eiríkr blóðöx kom or Austrvegi með herskip ok lið mikit, hann beiddist af Birni bróður sínum at taka við sköttum ok skyldum þeim er Haraldr konúngr átti á Vestfold; en hinn var áðr vandi, at Björn færði seálfr konúngi eðr sendi menn með; vildi hann enn svâ, ok vildi eigi af höndum gjalda, en Eiríkr þóttist þurfa vistir ok drykk ok tjöld. Þeir bræðr þreyttu þetta með kappmælum, ok fèkk Eiríkr eigi at heldr, fór hann brottu or bænum; Björn reið ok or bænum um kveldit ok upp á Sæheim. Eiríkr [1]) hvarf aptr um nóttina ok fór upp á Sæheim eptir Birni, kom þar svâ at þeir Björn sátu enn ok drukku. Eiríkr tók hús á þeim; gengu þeir Björn út ok börðust; þar fèll Björn

[1]) Þannig C, F; Björn, A.

ok mart manna með honum; Eiríkr fèkk þar herfáng mikit, ok fór norðr í land. Þetta verk líkaði Víkverjum stórilla, ok var Eiríkr þar mjök úþokkaðr; fóro þau orð um, at Ólafr konúngr mundi hefna Bjarnar, ef honum gæfist færi á. Björn konúngr liggr í Farmannshaugi á Sæheimi. Eptir um vetrinn fór Eiríkr norðr [1]) á Mæri, ok tók veizlu í Sölva fyrir innan Agðanes. En er þat spurði Hálfdán svarti, fór hann með her mikinn, ok tók hús á þeim. Eiríkr svaf í útiskemmu, ok komst hann til skógar við 5ta mann; enn þeir Hálfdán brendo bæinn ok lið þat alt er inni var. Kom Eiríkr á fund Haralds konúngs með þessum tíðindum; konúngr varð þessu mjök reiðr, samnaði hann þegar her ok fór norðr á hendr Þrændum. En er þat spur Hálfðán svarti, bauð hann út leiðángri ok skipum, ok varð allfjölmennr, ok lagði út til Staðs fyrir innan Þórsbjörg; Haraldr konúngr lá liði sínu út fyrir [2]) Hreinssléttu; fóro þá menn [3]) milli þeirra. Guthormr sindri hèt göfugr maðr ok ættstór; hann var þá í liði með Hálfdáni svarta; en furr hafði hann verit með Haraldi konúngi, ok var hinn mesti vin beggja þeirra. Guthormr var skáld mikit; hann hafði ort sitt kvæði um hvârn þeirra feðga; þeir höfðo boþit honum laun, en hann neitti, ok beiddi at þeir skyldi veita honum eina bæn, ok því höfðu þeir heitið; hann fór þá á fund Haralds konúngs ok bar sættarboð ímilli þeirra, ok bað þá hvârn-

[1]) suðr, *F.* [2]) við, *C.* [3]) kennimenn, *F.*

tveggja þeirrar bænar, at þeir skyldi sættast; en konúngar gerðu svâ mikinn metnat hans, at af hans bæn sættust þeir. Margir aðrir göfgir menn fluttu þetta mál með honum; varð þat at sætt, at Hálfdán konúngr skyldi halda ríki síno öllu; hann skyldi ok láta úhætt við Eirík bróður sinn. Eptir þessi sögu orti Jórunn skáldmær [1]) vísu þessa [2]):

Harald frá ek Hálfdán spurja
herði [3]) brögð en lögðis
sýnist svartleitr reyni
seá bragr enn hárfagra.

*Andlát Hákonar jarls.*

6. Hákon Grjótgarðsson Hlaðajarl hafði alla yfirsókn um Þrándheim, þá er Haraldr konúngr var annarstaþar í landi; hafði Hákon mestan metnat í Þrændalögum af konúngi. Eptir hann tók Sigurðr sonr hans jarldóm í Þrándheimi; sat hann at Hlöðum sem faðir hans; með honum fæddust upp synir Haralds konúngs, þeir sem áðr höfðo verit undir hendi föþur hans, Hálfdán svarti ok Sigröðr; voro þeir mjök jafnaldra konúngs synir ok Sigurðr. Sigurðr jarl var manna vitraztr; hann fèkk Bergljótar, dóttur Þóris jarls þegjanda. Móðir Bergljótar var Ólöf árbót, dóttir Haralds konúngs hárfagra.

*Fæddr Hákon Aðalsteinsfóstri.*

7. Þá er Haraldr konúngr tók at eldast, sat hann at stórbúum sínum optliga, er hann átti á

[1]) skjaldmær, *F.* [2]) *Þannig F*; nökkur erendi ísendibit, *A.*
[3]) herðr, *C*; hreysti, *F.*

Hörðalandi, á Alreksstöðum [1]), á Sæheimi, eðr á Fitjum; stundum sat hann á Rogalandi at Útsteini, eðr á Ögvaldsnesi í Körmt [2]). Þá er Haraldr konúngr var nær sjavræðr, gat hann son við konu þeirri er nefnd er Þóra morstrstaung [3]), þvíat hún var ættuð or Mostr á Sunnhörðalandi; hún var kvenna vænst ok mest ok vel ættborin; hún var í frændsemis tölu við Hörða-Kára, en þó var hún köllut konúngs ambátt; voro þá margir konúngi lýðskyldir, þó at vel væri ættbornir, bæði karlar ok konur. Þat var þá mjök siðr um ríkra manna börn, at vanda mjök menn til at ausa vatni ok gefa nöfn; en er at þeirri stundo kom, er Þóro var von at hún mundi barn ala, þá vildi hún fara á fund Haralds konúngs; hann var þá norðr á Sæheimi en hún í Morstr; fór hún þá norðr á skipi með Sigurði jarli; þau lágu um nóttina við land, þar fæddi Þóra barn uppi á hellunni við bryggjusporðinn, þat var sveinbarn; Sigurðr jarl jós sveininn vatni ok kallaði Hákon eptir föður sínum Hákoni Hlaða jarli. Sá sveinn var snemma mikill ok fríðr sýnum ok mjök líkr föður sínum; konúngr lèt sveininn fylgja móður sinni meþan hann var allúngr, ok voro þau at konúngs búum; hæðiligt þótti öðrum sonum Haralds konúngs um Hákon ok kölluðu hann Mostrstángar [4]) son.

---

1) Ælreksstöðum, C.
2) í Körmt vantar í F.
3) mostrstaung, F.
4) Morstángar, C.

*Haukr hábrók færði Hákon Aðalsteini konúngi.*

8. Í þann tíma hafði tekit konúngdóm á Englandi Aðalsteinn, er kallaðr var hinn sigrsæli ok hinn trúfasti; hann sendi menn til Noregs með þesshátttar erindum, at sendimaðrinn gekk inn fyrir Harald konúng ok færði honum sverð með gulligum hjöltum ok meðalkafla, ok öll umgjörðin var búin gulli ok silfri ok sett ágætum gimsteinum. Sendimaðrinn snèri hjöltum sverðsins at konúngi, ok mælti: hèr er sverð, þat er Aðalsteinn konúngr mælti, at þú skyldir meðtaka [1]. Konúngr tók meðalkaflann, ok þegar mælti sendimaðrinn: nú tóktu svâ við sverði þessu sem vârr konúngr vildi; skaltu nú vera þegn hans, er þú tókt við sverði hans at hjöltunum. Haraldr konúngr skildi þá, at þetta var með spotti gert til hans, þvíat hann vildi engis manns þegn vera; en þó mintist hann þess, sem háttr hans hafði verit, at hvert sinn er skjót æði eðr reiði ljóp á hann, at hann stilti sik fyrst ok lèt svâ renna af sér reiðina, en leit síþan á sakar úreiðr. Nú gerði hann enn svâ; ok berr þetta mál fyrir vini sína, ok sýndist þeim öllum samt at láta ráð ráði mæta; lèt Haraldr konúngr sendimenn Aþalsteins konúngs fara brottu frjálsa með bezta orlofi. Sá maðr var með Haraldi konúngi er Haukr hèt hábrók; hann var framkvæmdarmaðr mikill í sendiförum þó at torveldar væri, ok hinn kærazti konúngi. Á næsta

[1]) vidtaka, C. F.

sumri eptir þetta sem nú var getit, fèkk Haraldr konúngr Hákon son sinn í hendr Hauki, ok sendi hann vestr til Englands á fund Aþalsteins konúngs; fann Haukr hann í Lundúnum; þar var fyrir veizla virðulig. Haukr gekk til konúngshallarinnar með 30 manna; Haukr mælti til sinna manna: svâ skulu vèr haga inngöngu vârri, at sá skal furstr útgánga er síþarst gengr inn, ok standa allir jafn fram fyrir konúngs borðinu, ok hverr vâr skal hafa sverð [1]) á vinstri hlið, ok festa svâ yfirhöfnina, at ekki seái sverðin. Haukr tók þá sveininn Hákon ok setti á handlegg sèr; gengu síþan inn. Haukr heilsaði á konúng; konúngr bað hann velkominn. Haukr setti sveininn á knè Aþalsteini konúngi; konúngr sá á sveininn, ok spur, hví hann fór svâ; Haukr svarar: Haraldr Noregs konúngr bað þik fóstra sèr ambáttar barn þetta. Aþalsteinn konúngr varð reiðr mjök, ok greip til sverðs þess er stóð hjá honum, ok brá sem hann vildi drepa sveininn. Haukr mælti þá: knèsett hefir þú hann nú, konúngr! ok máttu nú myrða hann, ef þú vill, en ekki mântu með þessu eyða öllum sonum Haralds konúngs. Gekk Haukr þá út ok allir hans menn; fóro síþan leið sína til skips, lètu í haf þá er þeir voro búnir, ok komu aptr til Noregs á fund Haralds konúngs; ok lèt hann vel yfir þeirra erendi, þvíat þat er mælt, at sá sè útignari sem öðrum fóstrar barn. Í þvílíkum

[1]) skjöld, *B.*

skiptum konúnganna fanst þat á, at hvârr þeirra vildi vera avðrum meiri; en þó varð ekki gert misdeili tignar þeirra at heldr, því at hvârtveggi var yfirkonúngr síns ríkis alt til dauðadags.

*Frá Hákoni.*

9. Aðalsteinn konúngr lèt skíra Hákon, ok kenna honum rètta trú ok góða siðu ok allsháttar kurteisi; konúngr elskaði Hákon meirr en nokkurn mann annann skyldan eðr úskyldan, ok þar út í frá unni honum hvert barn er hann kunni; var hann síþan kallaðr Aðalsteinsfóstri; hann var hverjum manni meiri ok styrkari ok fríþari sýnum ok enn mesti íþróttamaðr, vitr ok orðsnjallr ok vel kristinn. Aðalsteinn konúngr gaf Hákoni sverð þat, er hjöltin voro af gulli ok meðalkaflinn, en brandrinn var þó betri; með því sverði hjó Hákon kvernstein til augans, því var þat síþan kallat kvernbítr; þat sverð hefir bezt komit til Noregs.

*Eiríkr blóðöx tók konúngdóm.*

10. Eptir fall Bjarnar kaupmanns tók Ólafr bróðir hans ríki yfir Vestfold, ok tók til fóstrs Guþröð son Bjarnar. Tryggvi hèt son Ólafs; voro þeir Guðravðr fóstbræðr ok mjök [1]) jafnaldrar ok hinir efniliguztu ok atgervimenn miklir; Tryggvi var hverjum manni meiri ok styrkari. Þá er Haraldr konúngr var áttræðr at aldri, gerðist hann þúngfær, svâ at hann þóttist eigi fær

[1]) nærr, C, F.

at fara yfir ríkit eðr stjórna konúngsmálum; þá leiddi hann Eirík son sinn í hásæti sitt, ok gaf honum vald yfir öllu landi. En er þat spyrja aðrir synir Haralds konúngs, þá settist Hálfdán svarti í konúngs hásæti; tók hann þá til forráða allan Þrándheim, hurfu at því ráði allir Þrændir með honum. En er þetta spurðu Víkverjar, þá tóko þeir Ólaf til yfirkonúngs um alla Víkina [1]). Þetta líkaði Eiríki stórilla; tveim vetrum síðan varð Hálfdán svarti bráðdauðr inn í Þrándheimi at veizlu nokkurri, ok var þat mál manna at Gunnhildr konúnga móþir hefði keypt at fjölkunnigri konu at gera honum banadrykk. Eptir þat tóko Þrændir Sigröð til konúngs.

*Andlát Haralds konúngs.*

11. Haraldr konúngr lifði 3 vetr síþan hann hafði gefit Eiríki einvald ríkis síns, var hann þá á Hörðalandi eðr Rogalandi at stórbúum sínum. Eiríkr konúngr ok Gunnhildr gátu son, er Haraldr konúngr jós vatni, ok gaf nafn sitt; sagði hann svâ, at sá skyldi konúngr vera eptir Eirík föðr sinn. Haraldr konúngr varð sóttdauðr á Rogalandi einum [2]) vetri síðarr enn Hálfdán svarti varð bráðdauðr sem áðr var sagt. Haraldr var heygðr á Haugum við Karmsund.

*Bardagi Eiríks konúngs við bræðr sína.*

12. Eiríkr konúngr tók allar konúngs tekjur ok lanzskyldir um midt landit enn næsta vetr eptir andlát Haralds konúngs; en Ólafr

[1]) ok hèlt hann því ríki *bæta við B, C, F.* [2]) tveim, *F.*

konúngr austr um Víkina, en Sigröðr bróðir þeirra alt um Þrændalög. Eiríki konúngi eirði þetta stórilla, ok fóro þau orð um, at hann mundi með styrk eptirleita við bræðr sína, at hann mætti fá einvaldsríki yfir öllu landi, sem faðir hans hafði gefit honum. En er Ólafr konúngr ok Sigröðr spyrja þetta, þa fóro menn ámilli þeirra; þvínæst gerðu þeir stefnulag sitt; ferr Sigröðr konúngr um vârit landveg austr til Víkr, ok finnast þeir Ólafr konúngr í Túnsbergi; dvöldust þeir þar um hríð. Þat sama vâr býðr Eiríkr útliði miklu [1]) ok skipum, ok snýr austr til Víkr; hann fèkk svâ mikit raðbyri, at hann sigldi dag ok nótt ok fór engi njósn firir honum; ok er hann kom til Túnsbergs, þa gengu þeir Ólafr ok Sigröðr austr or bænum á brekkuna, ok fylktu þar. Eiríkr hafði lið miklu meira, ok fèkk hann sigr. En þeir Ólafr ok Sigröðr fèllu þar báðir, ok er þar haugr hvârstveggja þeirra [2]), sem þeir lágu fallnir; fór Eiríkr þá um Víkina alla, ok lagði undir sik, ok dvaldist þar lengi sumars [3]). Tryggvi ok Guþröðr flýðu til Upplanda. Eiríkr var mikill maðr vexti ok fríðr, styrkr at afli, hreystimaðr mikill ok hermaðr, sigrsæll ok ákafamaðr mikill í skapi grimmr, úþýðr ok fálátr. Gunnhildr kona hans var kvenna vænst, vitr ok margkunnig, glaðmælt

[1]) leiðángri, C. [2]) á brekkuni, *bæta við B, F.* [3]) *vantar í C.*

ok undirhyggjumaðr mikill ok hin grimmazta. Þessi voro börn þeirra Eiríks ok Gunnhildar: Gamli var ellztr, Guthormr, Haraldr, Ragnfröðr [1]). Ragnhildr, Erlíngr, Sigurðr slefa, Guðröðr; öll voro börn Eiríks fríð ok mannvæn [2]).

*Upphaf ríkisstjórnar Hákonar Aðalsteinsfóstra.*

13. Hákon Aðalsteinsfóstri var vestr á Englandi, þá er hann spurði andlát Haralds konúngs föðr síns; bióst hann þá þegar til ferðar; fèkk Aðalsteinn konúngr honum lið ok góðan skipa kost, ok bjó hans ferð allvegliga; kom hann um haustit til Noregs; þá spurði hann fall bræðra sinna, ok þat at Eiríkr konúngr var í Víkinni. Sigldi Hákon þá norðr til Þrándheims, ok fór á fund Sigurþar Hlaða jarls, er allra spekínga var mestr í Noregi; fèkk hann þar góþar viðtökur; bundo þeir jarl lag sitt saman; hèt Hákon honum ef hann vyrði konúngr at auka virðíng hans; þá lètu þeir stefna þíng fjölment, ok á þínginu talaði jarl af hendi Hákonar, ok bauð bóndum hann til konúngs. Eptir þat stóð Hákon upp seálfr ok talaði. Mæltu þat sumir menn sín ímillum, at þar væri kominn Haraldr konúngr enn hárfagri, ok vorðinn úngr í annat sinn. Hákon hafði þat upphaf síns máls: at hann beiddi bændr gefa sèr konúngsnafn, ok þat með at veita sèr styrk ok fylgð at halda konúngdóminum; en þarímóti bauð hann þeim

[1]) Rögnvaldr. *F.* [2]) velment, *F.*

at gera alla bændr óðalborna, ok gefa þeim óðöl sín er á bjöggu. At þessu erendi varð rómr mikill, svâ at bôndamúginn æpti ok kallaði, at þeir vildi hann til konúngs taka; ok var svâ gert at Þrændir tóku Hákon til konúngs um allan Þrándheim; þá var hann 15 vetra, tók hann sèr þá hirð, ok fór yfir landit. Þessi tíþindi spurðust á Upplönd, at Þrændir höfðu sèr konúng tekit, slíkan at öllu sem Haraldr var hinn hárfagri, útan þat skildi, at hann hafði allan lýð í landi áþjáð ok þrælkat, en þessi Hákon vildi hverjum manni gott, ok bauð at gefa bóndum aptr óðöl sín öll, þau er Haraldr konúngr hafði af þeim tekit. Við þau tíþindi vurðu allir glaðir, ok sagði hverr aðrum; flaug þat sem sinueldr alt austr til landsenda; fóro þá margir menn af Upplöndum at hitta Hákon konúng: sumir sendo menn, sumir gerðo orð ok jartegnir, ok allir til þess at þeir vildo gerast hans menn; hann tók því þakksamliga.

*Hákon til konúngs tekinn.*

14. Hákon konúngr fór öndverðan vetr á Upplönd; stefndi hann þar þíng, ok dreif alt fólk á hanns fund [1]) þat er komast mátti; var hann til konúngs tekinn á öllum þíngum; fór hann svâ austr til Víkr; þar komu til hans Tryggvi ok Guðröðr bræðrasynir hans ok margir aðrir, þeir er upptöldo harma sína, er hlotit höfðo af Eiríki bróður hans. Eiríks úvinsæld

[1]) hönd, F.

vóx því meirr sem allir gerðo sèr kærra við Hákon, ok heldr höfðo sèr traust at mæla sem þótti. Hákon gaf konúngsnafn Tryggva ok Guðröði ok ríki þat, sem Haraldr konúngr hafði gefit feðrum þeirra; Tryggva gaf hann Ránríki ok Víngulmerk, en Guðröði Vestfold. En firir því at þeir voro úngir ok bernskir, þá setti hann til göfga menn ok vitra at ráða landi með þeim; gaf hann þeim land með þeim skildaga sem furr hafði verit, at þeir skyldu hafa helmíng skylda ok skatta við hann.

*Eiríkr konúngr blóðöx stökk or landi.*

15. Þá er våraði fór Hákon konúngr norðr til Þrándheims, hit efra um Upplönd, ok bauð út her miklum um allan Þrándheim, ok rèð til skipa. Víkverjar höfðu ok her mikinn úti ok ætlaðu til móts við Hákon konúng. Eiríkr dró her saman um midt landit ok varð honum ílt til liðs, þvíat ríkismenn margir skutust honum, ok fóro til móts við Hákon [1]); þá sigldi hann vestr um haf með þat lið er honum vildi fylgja; fór hann furst til Orkneyja, ok hafði þaðan með sèr lið mikit; þá sigldi hann suðr til Englands, ok tók at herja. En er þat spurði Aþalsteinn [2]) konúngr, þá sendi hann menn sína til Eiríks, ok bauð honum at taka af sèr land í lèn; lèzt þar vilja sína kosti til leggja, at þeir Hákon deildi enga úhæfu. Eiríkr konúngr þekktist

[1]) en er hann sá engi sín efni til viðrtöku móti Hákoni konúngi *bæta við* C, F. [2]) Aðalraðr, F.

þann kost, fóro þá menn ímilli konúnganna, ok samðist þat með einkamálum, at Eiríkr skyldi halda Norðimbraland af Aþalsteini [1]) konúngi ok verja þar landit firir Dönum ok öðrum víkíngum. Eiríkr skyldi láta skírast, kona hans ok börn ok alt lið, þat er honum hafði þángat fylgt. Var Eiríkr þá skírðr ok tók trú rètta. Norðimbraland er kallat fimtúngr [2]) Englands. Eiríkr hafði atsetu í Jórvík, þar sem menn segja at fyrr hafi setit Loðbrókar synir. Norðimbraland var mest byggt Norðmönnum, síþan [3]) Loðbrókar synir vunnu landit; herjuðo þar optliga síþan Danir ok Norðmenn, er vald landsíns hafði gengit undan þeim. Mörg heiti landsins ero þar gefin á norræna túngu sem Grímssker [4]) ok Hauksfljót ok mörg önnur. En þvíat Eiríkr konúngr hafði lönd lítil, en hèlt þar fjölda mikinn Norðmanna, er austan höfðu farit með honum, ok enn komo margir vinir hanns síþan af Noregi; þá fór hann jafnan í hernat á sumrum: hann herjaði um Skotland ok Suðreyjar, Írland ok Bretland, ok aflaði sèr svâ fjár.

16. Aðalsteinn konúngr varð sóttdauðr; þá hafði hann konúngr verit 14 ár ok 8 vikur ok 3 daga; tók þá ríki ok konúngdóm i Englandi Játmundr bróðir hanns; hann var ekki vin Norðmanna; var Eiríkr konúngr ekki í kær-

---

[1]) Aðalraði, *F.* [2]) þriðjúngr *F.* [3]) er kallat af Norðmönnum síðan þeir bygðu þat en, *F.* [4]) Grímsbær, *F.*

leikum viðhann; fóro þá þau orð um at Játmundr konúngr mundi annan höfþíngja setja yfir Norðimbraland. En er þat spurði Eiríkr konúngr, þá fór hann í vestrvíking; hann kom í Orkneyjar ok hafði þaðan með sèr Arnkel ok Erlend sono Torf-Einars [1]); fór hann þaðan í Suðreyjar, ok voro þar margir víkíngar ok herkonúngar, er rèðuz til liðs [2]) með Eiríki, hèlt hann þá furst öllu liðinu til Írlandz, ok hafði þaðan enn lið slíkt er hann fèkk. Síþan fór hann til Bretlands ok herjaði þar sem í öðrum stöðum, en alt mannfólk flýði undan þar sem hann fór; ok með því at Eiríkr var hreystimaðr mikill, ok hafði lið mikit, þá treysti hann svâ vel her sínum, at hann gekk lángt á land upp ok herjaði. En Ólafr hèt konúngr sá er Játmundr konúngr hafði þar sett til landvarnar, hann dró saman her úvígjan, ok fór á mót Eiríki konúngi; varð þar mikil orrosta er þeir fundust ok fèllu mjök í furstu enskir menn, en æ þar sem einn fèll, komu 3 í stadinn af landi ofan, ok hinn efra lut dagsins snèri mannfallinu á hendr Norðmönnum, ok at lyktum fèll þar Eiríkr konúngr ok 5 konúngar með honum; þar fèllu ok synir Torf-Einars [1]) jarls Arnkell ok Erlendr, varð þar allmikit mannfall af Norðmönnum; en þeir sem undan komust fóro til Norðimbralands, ok sögðo Gunnhildi ok sonum hennar þessi tíþindi. En er þau frèttu at Eiríkr konúngr var fallinn,

[1]) Torfu-Einars, *F.* [2]) ferðar. *C.*

ok hafði áðr herjat land Játmundar kónúngs, þá þikkjast þau vita at ecki mân þeim þar friðsamligt; bjöggust þau þá þegar brott af Norðimbralandi, ok höfðu öll skip þau er Eiríkr konúngr hafði átt, höfðu ok alt lið þat, er þeim vildi fylgja ok of lausa fjár, er dregizt hafði saman í sköttum þar á Englandi, en sumt hafði fengizt í hernaði. Hèldo þau síþan til Orkneyja, ok staðfestuz þar um hríð; þar var þá jarl yfir eyjunum Þórfinnr hausakljúfr sonr Torf Einars; tóko þá synir Eiríks undir sik Orkneyjar ok Hjaltland, ok höfðu skatta af; sátu þeir þar á vetrum, en fóro í vestr víkíng á sumrum, herjuðo um Skotland ok Írland; þess getr Glúmr Geirason í Gráfeldar drápu:

Hafði för til ferju
fróðr Skáneyjar góða
blakkrjóðandi [1]) bakka
barnúngr þatan farna;
rógeisu vann [2]) ræsir
rand ullr á Skotlandi
sendi seggja kindar
sverð bautinn her Gauti [3]).

Dólgeisu rak dísar
drótt kom mörg á flótta
gumna vinr af [4]) gamni
gjóðum írskrar [5]) þjóþar

[1]) blakk riðanda, F. [2]) rógreisir var, F. [3]) Gauta, F. [4]) at, F. [5]) Iskrar, F.

foldar rauð ok feldi
freyr í manna dreyra
sverð var sigr of vorðinn
seggi mækis eggjar [1]).

*Frá Hákoni.*

17. Hákon konúngr Aðalsteins fóstri lagði undir sik Noreg allan, þá er Eiríkr bróðir hans hafði brott flýit. Sat hann hinn fursta vetr norðr i Þrándheim. En firir því at ekki þótti friðvænligt, ef Eiríkr konúngr leitaði vestan um haf með her sinn, þá sat Hákon konúngr lengstum með lið sitt um midt landit, í Firðafylki, í Sogni, á Hörðalandi eðr Rogalandi; hann setti Sigurð Hlaða jarl yfir öll Þrænda lög svâ sem hann hafði furr haft ok Hákon faðir hans af Haraldi konúngi enum hárfagra. En er Hákon konúngr spurði fall Eiríks konúngs bróðr síns, ok þat at synir hans höfðo ekki traust í Englandi, þá þótti honum lítil ógn af þeim standa; fór hann þá með lið sitt á einu sumri austr í Vík. Í þann tíma herjuðu Danir mjök í Víkina ok gerðo þar opt mikinn skaða. En er Danir spurðu at Hákon konúngr var þar kominn með mikinn her, þá flýðu þeir undan, sumir suðr til Hallands [2]), en þeir er nærri voro Hákoni konúngi stefndu út á haf ok svâ suðr til Jótlands. En er Hákon konúngr varð þess varr, þá sigldi hann eptir þeim með allan her sinn, ok þegar er hann kom til Jótlands, herjaði hann þar; en

[1]) eggju, *F.* [2]) Hálogalandz, *F.*

þegar landsmenn vurðu við varir, þá drógu þeir her saman, ok vildo verja landit. Rèðu þeir til bardaga við Hákon konúng, ok varð þar mikil orrosta; Hákon konúngr barðist svâ djarfliga at hann var firir framan merki, ok hafði hvârki hjálm nè brynju. Hákon konúngr hafði sigr, ok rak flóttann lángt á land upp; svâ segir Guthormr sindri í Hákonar drápu:

Bifroknum trað bekkjar
blá ravst konúngr árum
mætr hlóð mildíngr ýtum [1])
Mistar nifs [2]) í drífu
svan gæðir [3]) rak síþan
sótt jálfaþar [4]) flótta
hrot gyljaþar [5]) hylja
hrafn víns at mun sínum.

18. Síþan hèlt Hákon konúngr sunnan her sínum til Sælunds, ok leitaði Víkínga; hann rèri með 2 snekkjur fram í Eyrarsund, þar hitti hann 11 víkinga snekkjur, ok lagði þegar til orrosto við þá, ok lauk svâ at hann hafði sigr, ok hrauð öll víkíngaskipin; svâ segir Guthormr sindri:

Álmdrósar fór eisu
el runnr mörum [6]) sunnan
trjónu tingls [7]) á græna
tveim einum sel meina

[1]) Jótum, *F.* [2]) vífs, *F.* [3]) bræðr *F.* [4]) álmveðrs, *F.* [5]) geljaðar, *F.* [6]) móins, *F.* [7]) tragls, *F.*

þá er ellifu allar
allreiðr Dana skeiðar
valsendir rauð vandar,
víðfrægr at þat síðan.

Eptir þat herjaði Hákon víða um Sælund, rænti fólk, en drap sumt, sumt hertók hann; hann tók gjöld stór af sumum, ok fékk þá enga viðstöðu; svâ segir Guthormr:

Sælund náði þá síþan
sókn heggr und sik leggja
vals ok vinda frelsi
við Skáneyjar síða.

Því næst fór Hákon konúngr austr firir Skáneyjar síðu, ok herjaði alt, tók skatta ok gjöld af landinu, en drap víkínga hvar sem hann fann, Dani ok Vindr. Hann fór alt austr firir Gautland ok herjaði, fékk hann þar stór gjöld af landinu; svâ segir Guthormr:

Skattgilda vann skyldir
skaut jálfaðar Gauta
gullskyflir vann [1]) gjöflaztr
geirveðr í för þeirri.

Hákon konúngr fór aptr um haustit með liði sínu í Víkina, ok hafði fengit ógrynni fjár; sat hann þar [2]) í Víkinni við áhlaupum Dana eðr Gauta. Þat sama haust kom Tryggvi Ólafsson or vestrvíkíng ok hafði hann þá áðr herjat um Írland ok Skotland. Um vârit fór Hákon konúngr norðr í land, en setti Tryggva konúng

[1]) skylfir fann, F. [2]) þann vetr, F.

bróðr sinn yfir Víkinni at verja firir úfriði, ok eignaz slíkt er hann mátti af þeim löndum í Danmörk er Hákon konúngr hafði skattgildt hit furra sumarit; svâ segir Guthormr sindri:

ok sókn hattar setti
svell[1]) rjóðr at því fljóði
Onars[2]) ekki seima[3])
austr geð bæti hraustum
þann er áðr fra Írum
íðvandr of kom skíðum
salbrigðandi sveigðis
svanfángs[4]) liði þángat.

*Gunnhildr fór til Danmerkr.*

19. Haraldr konúngr Gormsson rèð þann tíma firir Danmörk; honum líkadi stórilla er Hákon konúngr hafði herjat á land hans ok ríki, ok fóro þau orð um at Danakonúngr mundi þess hefnast; en þat varð þó ekki svâ bráðliga. Nú sem Gunnhildr ok synir hennar spurðo til Orkneyja at úfriðr var milli Danmerkr ok Noregs, þá byrjaðu þau ferð sína vestan, ok giptu áðr Ragnhildi dóttur Eiríks ok Gunnhildar Arnfinni syni Þórfinns jarls hausakljúfs; settiz þá enn Þórfinnr jarl at Orkneyjum er Eiríks synir fóro brott. Gamli Eiríks son var nokkuru þeirra elztr, ok var hann þó enn eigi þá roskinn maðr. En er Gunnhildr kom með sono sína til Danmerkr, fóro þau þegar á fund Haralds konúngs

[1]) svol, *F.* [2]) *þannig*: *F*; Einars *A.* [3]) grœnum, *F.*
[4]) Svanvángs, *Hk.*

og fengu þar góþar viðtökar, ok fèkk konúngr þeim veizlur í ríki síno svâ miklar, at þeir fengu vel haldit sik ok menn sína. En Haraldr konúngr tók til fóstrs Harald Eiríks son ok knèsetti hann, fæddist hann upp í hirð Danakonúngs. Eiríks synir voro í hernaði þegar þeir höfðo aldr til, ok afla ðu sèr svâ fjár, herjaðu um austrveg; allir voro þeir menn fríðir ok furr rosknir at afli ok atgervi enn vetra tali; þess getr Glúmr Geirason í Gráfeldar drápu:

Austr löndom fórsk [1]) undir
allvaldr sá er gaf skáldum
hann fèkk gagn at gunni
gunn hörga [2]) slög mörgum:
slíðr túngur [3]) lèt slyngja [4])
sverðleiks regin ferþar
sendi gramr at grundo
gullvarpaþar snarpar.

Eiríkssynir sem þeir lèttu af hernaði í Austrveg, snèrust þeir með lið sitt ofan í Víkina ok herjaðu þar. En Tryggvi konúngr hafði her úti, ok hèlt til móts við þá; þeir áttu margar orrostr, ok höfðu ýmsir sigr; herjaðu Eiríks synir stundum Víkina; en Tryggvi konúngr herjaði stundum um Halland ok Sjóland.

*Fæddr Hákon jarl.*

20. Þá er Hákon var konúngr í Noregi,

---

[1]) fórst, *F.* [2]) hörða, *F.* [3]) sidþúngr *F.* [4]) syngja, *F.*

var þar friðr góðr með bóndum ok kaupmönnum, svâ at engi grandaði öðrum nè annars fè; þá var ár mikit bæði á sjá ok á landi. Hákon konúngr var allra manna glaðaztr ok málsnjallaztr ok litillátaztr; hann var maðr stórvitr, ok lagði mikinn hug á lagasetníng; hann setti Gulaþíngs lög með ráði þorleifs spaka; hann setti ok Frostaþíngs lög með [ráði] Sigurðar jarls ok annara þránda þeirra er vitraztir voro; en Heiðsævis lög hafði furst sett Hálfdán svarti. Hákon konúngr þá jólaveizlu í þrándheimi er Sigurðr jarl hafði búit honum á Hlöðum. Enafurstu jóla nótt fæddi Bergljót kona jarls sveinbarn; en eptir um daginn jós Hákon konúngr þann svein vatni ok gaf nafn sitt. Sá sveinn vóx upp, ok varð síþan ríkr maðr ok göfugr, ok tók síþan ríki ok jarldóm eptir föður sinn. Sigurðr jarl var hinn kærazti vin Hákonar konúngs.

*Frá háttum Hákonar konúngs.*

21. Hákon konúngr var vel kristinn, er hann kom í Noreg; en firir því at þar var land alt heiðit ok blótskapr mikill, stórmenni mart, en hann þóttist mjök liðs þurfa ok alþýðu vinganar, þá tók hann þat ráð at fara leynilega með kristninni, hèlt heilagt drottins daga, en fastaði föstudaga, ok gerði minníng hinna stærstu hátíða; hann setti þat í lögum at hefja jólahald þann tíma sem kristnir menn, ok skyldi þá hver maðr eiga mælis avl, en gjalda fè elligar,

er þíngit var sett, þá talaði Hákon konúngr; hann hóf svâ: þat er boð mitt ok bæn við alla yðr bændr ok búþegna, ríka ok úríka, ok þar með alla alþýðu, únga menn ok gamla, sæla ok fátæka, konur sem karla, at allir menn skulu kristnast láta ok trúa á einn guþ Krist Mariu son, en hafna blótum öllum ok heiðnum goðum, halda heilagt enn 7da hvern dag við vinnum öllum, fasta ok hin 7da hvern dag. En þegar er konúngr hafði þetta uppborit firir alþýðu, þá varð þegar kurr mikill af bóndum um þat, er konúngr vildi taka vinnur af þeim; sögðu at við þat mátti landit eigi byggja; en vinnumenn ok þrælar kurruðu um þat, at þeir mætti eigi vinna ef þeir skyldi eigi mat hafa; sögðo ok at þat var skaplavstr Hákonar [1]) konúngs ok Haralds föður hans ok þeirra frænda ok forellra at þeir voro illir af mat, þó at þeir væri mildir af gulli.

*Viðtal Konúngs ok Sigurðar jarls.*

23. Ásbjörn hèt einn ríkr maðr, hann bjó at Meðalhúsum í Gaulardal. Ásbjörn stóð upp ok svaraði erendi konúngs með þessum hætti: þat hugþum vèr bændrnir, Hákon konúngr! þá er þú hafðir hit fursta sinn þíng átt hèr í Þrándheimi, ok vèr höfðum þik til konúngs tekit, ok þegit af þèr óðöl vâr, at vèr hefðim þá höndum himin tekit; en nú vitum vèr eigi hvârt heldr er at vèr munum frelsit þegit hafa, eðr mântu

[1]) Hálfðánar, F.

ok halda heilagt meðan jólin [1]) vynnist; en áðr var jólahald hafit havkunótt, þat er miðsvetrar nótt, ok voro þá haldin 3 nátta jól. Ætlaði konúngr þá er hann festist í landinu, ok hann hefði frjálsliga undir sik tekit alt ríkit, at hafa fram kristni boðit; Gjörði hann ok svâ at hann lokkaði þá menn furst er honum voro kæraztir til kristninnar; kom svâ með vinsæld hans ok umtölum, at margir menn lètu skírast, sumir lètu af blótum. Hákon konúngr sat laungum á Þrándheimi, því at þar var mestr styrkr landsins. Nú sem Hákon konúngr þóttist hafa styrk af nökkurum ríkismönnum at halda upp kristninni, þá sendi hann til Englands eptir biskupi og öðrum kennimönnum; ok er þeir komu í Noreg, þá gerði konúngr bert, at hann vill bjóða kristni um alt landit; en Mærir ok Raumdælir skutu þángat síno máli sem Þrændir voro. Hákon konúngr lèt þá vígja kirkjur nökkurar, ok setti þar presta til. En er hann kom norðr í Þrándheim, stefndi hann þíng við bændr, ok bauð þeim kristni; þeir svöruðo svâ: at þeir vildo þessu máli skjóta til Frostaþíngs; vilja þá at þar komi menn or öllum fylkjum þeim er í Þrændalögum ero, segja at þá mâno þeir svara þessu vandmæli.

*Viðtal Hákonar konúngs ok bónda.*

22. Hákon konúngr kom til Frostaþíngs, ok var þar komit allfjölmennt af bóndum. En

[1]) ölit, *F.*

er þíngit var sett, þá talaði Hákon konúngr; hann hóf svâ: þat er boð mitt ok bæn við alla yðr bændr ok búþegna, ríka ok úríka, ok þar með alla alþýðu, únga menn ok gamla, sæla ok fátæka, konur sem karla, at allir menn skulu kristnast láta ok trúa á einn guþ Krist Mariu son, en hafna blótum öllum ok heiðnum goðum, halda heilagt enn 7da hvern dag við vinnum öllum, fasta ok hin 7da hvern dag. En þegar er konúngr hafði þetta uppborit firir alþýðu, þá varð þegar kurr mikill af bóndum um þat, er konúngr vildi taka vinnur af þeim; sögðu at við þat mátti landit eigi byggja; en vinnumenn ok þrælar kurruðu um þat, at þeir mætti eigi vinna ef þeir skyldi eigi mat hafa; sögðo ok at þat var skaplavstr Hákonar [1]) konúngs ok Haralds föður hans ok þeirra frænda ok forellra at þeir voro illir af mat, þó at þeir væri mildir af gulli.

*Viðtal Konúngs ok Sigurðar jarls.*

23. Ásbjörn hèt einn ríkr maðr, hann bjó at Meðalhúsum í Gaulardal. Ásbjörn stóð upp ok svaraði erendi konúngs með þessum hætti: þat hugþum vèr bændrnir, Hákon konúngr! þá er þú hafðir hit fursta sinn þíng átt hèr í þrándheimi, ok vèr höfðum þik til konúngs tekit, ok þegit af þèr óðöl vâr, at vèr hefðim þá höndum himin tekit; en nú vitum vèr eigi hvârt heldr er at vèr munum frelsit þegit hafa, eðr mântu

[1]) Hálfðánar, *F.*

nú vilja þrælka oss at nýju, ok þó með und
ligum hætti, er þú vill at vèr hafnim átrún
þeim, er vârir feðr ok alt forellri hefir haldit f
oss, furst um brunaöld ok nú um haugaöld,
hafa þeir verit margir miklu göfgari en vèr,
hefir oss þó dugat þessi átrúnaðr. Vèr höf
lagt til þín mikinn ástarhug, svâ at vèr höf
látit þik ráða með oss öllum lögum ok landsrè
Nú er þat vili vârr bónda ok samþykki at h
ok halda þau lög er þú settir hèr á Frostaþín
ok vèr játaðum þèr þá; viljum vèr allir
fylgja ok þik til konúngs halda, meþan einnhv
vârr bóndanna er lífs, sem nú erum hèr á þíngi
ef þú, konúngr! vill nökkut hóf við hafa, at bei
oss þess eina at vèr megim veita þèr, ok oss
eigi ógeranda. En ef þú vill þetta mál taka m
svâ mikilli freku at deila afli ok ofríki við o
þá höfum vèr gert ráð vârt at skiljast allir
þik, ok taka oss annan höfþíngja, til þess at
haldim í frelsi þann átrúnat sem vèr vilju
skaltu nú, konúngr! kjósa um þessa kosti á
þínginu sè slitit. At erendi þessu gerðo bæn
róm mikinn, ok sögðo at þeir vildo svâ vera l
sem Ásbjörn hafði talat; varð at þessu mi
háreysti. En er hljóð fèkst mælti Sigurðr ja
þat er vili Hákonar konúngs at samþykkja alt
bændr, ok láta aldri skilja yðra vináttu. Bæn
segja at þeir vildi at konúngr blótaði til árs þe
ok friðar svâ sem faðir hans gerði; staðna
þá kurrinn ok slitu þeir við þetta þíngit. Síþ

talaði Sigurðr jarl við konúnginn ok bað hann eigi neita með öllu at gera sem bændr vildo, þvíat eigi mân annat hlýða, segir hann; er þetta sem þèr megit heyra sjálfir, konúngr, ákafi höfþíngja ok þar með alls fólks. Skulu vèr, segir jarl, finna hèr til nökkut gott ráð. Samðist þetta með þeim konúngi ok Sigurði jarli. Um haustit at vetrnóttum var blótveizla mikil at Hlöðum, ok sótti þar til konúngr; hann hafði jafnan vanr verit, ef hann var þar staddr sem blót voro, at matast í litlu húsi við fá menn. En bændr töldo at því er hann sat eigi í hásæti síno, þá er mestr var mannfundr ok fagnaðr; sagði jarl at hann skyldi þá eigi svâ gera, ok svâ var at konúngr sat í hásæti sino. En er hit fursta full var skenkt [1]), þá mælti Sigurðr jarl firir ok signaði Óðni; drakk hann af horninu til konúngs; konúngr tók við ok gerði krossmark yfir; þá mælti sá maðr er hèt Kárr af Grýtíngi: hví ferr konúngrinn nú svâ, vill hann enn eigi blóta? Sigurðr jarl svaraði: konúngr gerir sem allir aðrir, þeir sem trúa á mátt sinn ok megin, at signa full sin Þór [2]); hann gerði hamar yfir áðr hann drakk. Var þa kyrt um kveldit. Eptir um daginn er menn gengu til borða, þa þustu bændr at konúngi ok báðu hann eta kjöt [3]); konúngr vildi þat firir engan mun gera. Þá báðu þeir hann drekka soðit, hann vill þat víst eigi. Þá báðu þeir hann

[1]) öl var framborit, *F.* [2]) *fyrir* full sin Þór *hefir F* fyrir sik. [3]) rossakjöt, *F.*

eta flotit [1]), en konúngr vill þat ok eigi. Var þá ok búit við atgaungu. Sigurðr jarl gekk at ok vildi sætta þá, bað hann bændr hætta storminum; mælti hann þá at konúngr mundi gína yfir ketilhödduna, er soðreykinn hafði á lagt af rossakjötinu ok var haddan vorðin feit [1]). Konúngr gekk til ok brá líndúk um hödduna ok gein yfir. Gekk hann síþan til sætis síns, ok líkadi hvârigum vel. Um vetrinn eptir var búit til jólaveizlu konúngi inn á Mærinni. En er at leið jólunum, þá lögðu stefnu með sér 8 höfðingjar þeir er mest réðu firir blótum í öllum Þrændalögum; þessir voro 4 utan or Þrándheimi: Kárr af Grýtíngi, Ásbjörn af Meðalhúsum [2]), Þorbergr af Varnesi [3]), Ormr af Ljoxu [4]); en þessir af Innþrændum: Bóthólfr [5]) af Ölvishaugi, Narfi af Staf [6]) í Veradal, Þrándr haka af Eggju, Þórir skegg af Húsabæ [7]) í eynni Iðri [8]); Þessir 8 menn bundust í því, at þeir 4 af Útþrændum skyldu eyða kristninni, en hinir 4 af Innþrændum skyldu neyða konúnginn til blóta; fóro þá Útþrændir 4 skipum suðr á Mæri, ok drápu þar presta 3 ok brendo þar 3 kyrkjur, fóro aptr síþan. En er Hákon konúngr ok Sigurðr jarl komu inn á Mærina með hirðsveitir sínar, þá voro þar bændr komnir allfjölmennt hinn fyrsta dag veizlunnar; veittu þeir konúngi atgaungu

[1]) blóðit, F. [1]) heit, F. [2]) Miðhúsum, F.
[3]) Vasnesi, C; Vargnesi, F. [4]) Loxu, C; Lavxu, F.
[5]) Botólfr, C. [6]) Stað, F. [7]) Hróarsbæ, F.
[8]) vantar í F.

ok báðu hann blóta, en hètu honum ella afarkostum. Sigurðr jarl bar sáttmál milli þeirra; kom þá svâ um síðir, at konúngr át nökkura bita af hrosslifr ok drakk öll minni krossalaus, þau er bændr skenktu hönum. En er veizlu þeirri var lokit, fóro konúngr ok jarl þegar út á Hlaðir; konúngr var allúkátr, ok bjóst þegar með öllu liði síno á brott or Þrándheimi, ok segir svâ at hann skyldi fjölmennari þar koma í annat sinn, ok gjalda þá Þrændum þenna fjandskap, er þeir höfðo til hans gert. Sigurðr jarl bað konúng eigi gefa Þrændum þetta at savk; sagði jarl svâ, at konúngi mundi ekki þat duga at hatast eðr herja á innanlands fólk, ok þar einna síst sem mestr var styrkr landsins, sem í Þrándheimi var. Konúngr var svâ reiðr at ekki mátti orðum við hann koma; konúngr fór þá út eptir firði ok suðr á Mæri; dvaldist hann þar um vetrinn ok um vârit. En er sumraði dró hann lið at sèr, ok var þat orð á, at hann mundi fara með her þann á hendr Þrændum.

*Bardagi Hákonar konúngs ok Gunnhildar sona.*

24. Hákon konúngr var nú kominn á skip sín, ok hafði lið mikit ok frídt; þá komu honum þau tíþindi sunnan or landi, at synir Eiríks konúngs voro komnir af Danmerku í Víkina, ok höfðo elt af skipum Tryggva konúng Ólafsson austr til Sótaness; höfðo þeir þá herjat víða um Víkina, ok hafði fjöldi fólks gengit undir þá.

En er Hákon konúngr spurði þetta, þá þóttist hann liðs þurfa; sendi hann þá orð Sigurði jarli ok öðrum höfðíngjum, þeim er honum þótti liðs at vân. Sigurðr jarl kom til Hákonar konúngs með allmikit lið; voro þar þá með honum allir Þrændir, þeir er um vetrinn höfðo mest gengit at konúngi, at pynda [1]) hann til blóta; voro þeir þá allir í sætt teknir af fortölum Sigurðar jarls. Fór Hákon konúngr þá suðr med landi; en er hann kom suðr um Stað, þá spurði hann at Eiríks synir voro komnir á Norðr [2]) Agðir; fóro þa hvârir mót öðrum, varð fundr þeirra i Körmt; gengu þar hvârirtveggju af skipum ok börðust á Ögvaldsnesi; höfðo hvârirtveggju allmikinn her; þar varð orrosta allsnörp. Hákon konúngr sótti fast fram, þar sem firir var Guthormr konúngr ok sveit hans, ok áttust þeir höggvaskipti við konúngarnir; þar fèll Guthormr konúngr, ok var merki hans niðrhöggvit, fèll þar þá margt lið um hann; því næst kom flótti í lið Eiríks sona, flýðu þeir til skipanna ok rèro í brottu, höfðu þeir látit lið mikit; þessa getr Guthormr sindri í Hákonar [3]) drápu:

Valþögnar lèt vegnum
vígnestr saman bresta
handar vafs [4]) of höfðum
hlym mildíngum gildir
þar gekk njörðr af nirði

[1]) neyða, F. [2]) norðr á, C. [3]) Gráfeldar, F.
[4]) varps, F.

nadds hámána raddar
valbrands viðra [1]) landa
vopn unduðum sunda.

Hákon konúngr fór til skipa sinna; ok hèlt austr eptir Gunnhildar sonum; fóro þá hvârir sem mest máttu, þar til er þeir komu á Austr. Agðir; sigldu þá Eiríks synir á haf, ok suðr til Jótlands; svâ segir Guthormr sindri:

Almdraugar [2]) varð ægis
opt sinn en ek þess minnumst
barma ayld firir baldri
bensíks vita ríkis
bauð sækir hèlt brikar
bræðr síns ok rak flæðu
undan allar kindir
Eiríks á haf skeiðum.

Síþan fór Hákon konúngr norðr aptr í Noreg, en Eiríks synir dvöldust þá enn i Danmörk lánga hríð.

*Bardagi við Gamla.*

25. Þá er Hákon hafði konúngr verit yfir Noregi 20 vetr, þá var hann staddr á Sunnmæri [3]) í ey þeirri er Freiða [4]) hèt, þar sem heitir Birkiströnd, at búi síno; hann hafði med sèr ekki meira lið en hirð sína ok bændr þá er voro í boði hans; komu honum þá njósnir at Gunnhildar synir voro komnir norðr um Stað með allmikinn her; hèlt Hákon konúngr þegar til

[1]) viðr á, *Hk.* [2]) drógar, *Hk.* [3]) Norðmæri, *F.*
[4]) Froða, *F.*

móts við þá með slíkt lið sem hann fèkk; hann hafði 9 skip, en Eiríks synir meirr enn 20 skip; þeir fundust í Fèeyjar [1]) sundi við Freiþar berg [2]); gengu hvârirtveggju á land ok börðust á Rastarkálfi; þar fèll Gamli konúngr Eiríks son, en Hákon fèkk sigr. Hákon konúngr gekk svâ hart fram í orrosto þessari, at hann hjó til beggja handa en hlífði sèr ekki, sem segir Guthormr sindri:

Hræddr fór hjörva raddar
herr fur málma þverri
rógeisu gekk ræsir
ráðsterkr framarr merkjum:
gerra gramr í snerro
geir vífa sèr hlífa
hinn er yfrinn gat jöfra
Óðs kvânar byr mána

Flýðu Gunnhildar synir með sitt lið þat er undan komst enn suðr til Danmerkr.

*Ferð þeirra bræðra at Hákoni konúngi.*

26. Þá er Hákon Aðalsteinsfóstri hafði verit konúngr yfir Noregi 6 vetr ok 20, síþan Eiríkr bróðir hans fór or landi, tók konúngr veizlu á Hörðalandi í Storð á Fitjum; hafði hann þar hirð sína ok bændr marga í boði sínu; þar var þá með honum Eyvindr frændi hans, sonr Finns skjálga [3]), er kallaðr var skáldaspillir. Þá er Hákon konúngr sat at dagverþar borði,

---

[1]) Freyjar, *F.* Frekeyjar, *C. B.* [2]) Feyjarborg, *F.*
[3]) Skjálgs, *C. B.*

sá varðmenn er úti voro, at skip mörg sigldu sunnan, ok áttu eigi lángt til eyjarinnar; þá mælti hverr við annan, at segja skyldi konúngi, at þeir hugðo at herr færi at þeim; en engum þótti dælt at segja konúngi hersögu, þviat hann hafði mikit við lagt hverjum er þat gerði, ef eigi vissi víst; þeim þótti ok úhæfa at konúngr vyrði þessa eigi varr; gekk þá einn þeirra inn í stofuna, ok mælti til Eyvindar Finnssonar: Gakk út skjótt, þvíat hin mesta nauðsyn er á. Eyvindr gekk, ok þegar hann mátti seá seglin, kendi hann at herskip voro; hann snèri þegar aptr í stofuna, gekk firir konúng ok mælti: lítil [1]) er líðandi stund en laung matmáls stund. Konúngr leit móti honum ok mælti: hvat ferr? Eyvindr kvað:

Blóðöxar tjá [2]) beiða
brynþíngs fetil stínga
oss gjörist hnept ens hvassa
hefnendr setu efni:
heldr er vant en ek vilda [3])
veg þinn, konúngr! segja
fám [4]) til fornra vopna
fljótt hersögu drottni.

Konúngr svarar: Ert þú drengr svâ góðr, Eyvindr! at eigi muntu hersögu segja nema sönn sè. Þá svöruðo margir at sú hersaga var sönn; lèt þá konúngr taka upp borðin, gekk

[1]) heil, *B.* [2]) trú ek, *F.* [3]) vissa, *C.* [4]) fara, *F*; fram, *B.*

hann út ok sá til skipanna, kendi hann þegar at þat voro herskip. Konúngr mælti þa til sinna manna: hvârt skal nú ráð hafa at berjast með lið þat er vèr höfum, eðr skal gánga til skipa, ok sigla norðr undan; er oss þat auðsætt ef vèr berjumst, at vèr munum nú eiga at etja við liðsmun miklu meira enn nökkurt sinn fyrr, ok hefir oss þó opt þótt misjafnaðr liðs vârs, þá er vèr höfum átt við Gunnhildar sonu. Hèr veittu menn ekki skjótan orskurð; þá svarar Eyvindr:

Samira norðr [1]) en norðarr
naddregns hvötum þegni
vèr getum bili at bölva
borðmærar ske [2]) færa
nú er þat er ravkkr [3]) á rakna
rymleið flota breiðan
grípum vèr í greipum [4])
gunnbráðr Haraldr [5]) sunnan.

Konúngr svarar: hreystiliga er mælt, Eyvindr! ok nærr mínu skaplyndi, en þó vil ek heyra fleiri manna orskurð um þetta mál. En er menn þóttust skilja konúngs vilja, þá sögðu margir at heldr vildo falla með drengskap en flýja fur Dönum at úreyndo; sögðo ok svâ, at þeir höfðo opt sigrat [6]), þá er þeir höfðo barizt með minna liði en nú höfðo þeir. Konúngr þakkaði þeim orð sín ok bað menn vopnast, ok var svâ gert.

---

[1]) njörðr, *Hk*, [2]) blámærar, *C*. [3]) reykr, *B*; rykr, *F*. [4]) greipar, *B*, *F*. [5]) gunnbræðr Haralds, *B*. [6]) *þannig B*, sigrast, *A*. *Hk*.

Konúngr herklæddist, hann hafði hríngabrynju, ok var gyrðr sverðinu Kvernbít, hafði hjálm gullroðinn á höfði, kesju í hendi ok skjöld á hlið. Síþan fylkti hann hirð sinni ok bóndum, ok setti upp merki sitt.

27. Haraldr Eiríksson var höfþíngi firir liði þeirra bræðra eptir fall Gamla; þeir bræðr höfðu nú mikinn her; voro þar í liði með þeim móðurbræðr þeirra Eyvindr skreyja ok Álfr askmaðr; þeir voro menn styrkir ok enir mestu illgerða menn. Eiríks synir hèldo skipum sínum til eyjarinnar, gengu á land ok fylktu, ok er svâ kallat at eigi væri minni liðsmunr enn 6 mundi vera þeirra menn um Hákonar mann einn.

### *Bardagi í Storð.*

28. Hákon konúngr hafði þá fylkt liði síno, ok segja menn at hann steypti af sèr brynjunni áðr orrostan tækist; Hákon konúngr valdi mjök menn með sèr í hirð at afli ok hreysti, svâ sem gert hafði Haraldr konúngr faðir hans; þar var þá með konúngi Þórálfr hinn sterki Skólmsson [1]), ok gekk á aðra hlið konúngi; hann hafði hjálm ok skjöld, kesju ok sverð þat er kallat var Fetbreiðr; þat var mælt at þeir Hákon konúngr væri jafnsterkir; þessa getr Þórðr Sjáreksson í drápu þeirri er hann orti um Þórálf:

---

[1]) Skolpsson, *F.*

Þar er bavðharðir börðust
bands jó draugar landa
lystr gekk herr til hjörva
hnitz í Storð á Fitjum:
ok gimslöngvir gánga
gífrs hlèmána drífu
nausta blaks hit næsta
Norðmanna gram þorði.

En er fylkíngar gengu saman, var fyrst skotit spjótum, þvínæst brugðu menn sverðum; Gerðist þá orostan óð ok mannskjæd; Hákon konúngr ok Þórálfr gengu þá fram um merkin ok hjöggu til beggja handa; Hákon konúngr var auðkendr, meiri enn aðrir menn, lýsti ok mjök af hjálmi hans er sólin skein á; þá varð vopnaburðr mikill at konúngi; tók þá Eyvindr Finnsson hatt [1]) einn, ok setti yfir hjálm konúngsins; þá kallaði hátt Eyvindr skreyja: leynist hann nú Norðmanna konúngr, eðr hefir hann flýit, þvíat horfinn er nú gullhjálmrinn? Eyvindr ok Álfr bróðir hans gengu þá hart fram svâ sem óðir ok galnir væri, hjöggu til beggja handa; þá mælti Hákon konúngr hátt til Eyvindar: haltu svâ fram stefnunni ef þú vill finna hann Norðmanna konúng. Var þá skamt at bíða at Eyvindr kom þar, reiddi upp sverþit ok hjó til konúngs; Þórálfr skaut við honum Eyvindi skildinum, svâ at hann stakaði við; konúngr tók þá tveim höndum sverþit Kvernbít, ok hjó til

[1]) hettu, *B*; hött sinn, *F*.

Eyvindar, klauf hjálminn ok höfuðit alt í herþar niðr; í því bili drap Þórálfr Álf askmann. Svâ segir Eyvindr skáldaspillir:

Veit ek at beit enn bitri
byggvíng meðal dyggvan
búlka skíðs or báðum
benvöndr konúngs höndum:
úfælinn klauf ála
eldraugar [1]) skör hauga
gullhjaltaðum gâltar
grandráðr Dana brandi.

Eptir fall þeirra bræðra gekk Hákon konúngr svâ hart fram at alt hrøkk fur honum; sló þá felmt ok flótta á lið Eiríks sona, en Hákon konúngr var í öndverðri sinni fylkíng, ok fylgði fast flóttamönnum, ok hjó tídt ok hart; þá fló ör ein, er fleinn er kallaðr, ok kom í hönd Hákoni konúngi uppi í músina firir neþan öxl, ok er þat margra manna sögn at skósveinn Gunnhildar, sá er Kispíngr [2]) er nefndr, ljóp fram í þysinn [3]) ok kallaði: gefi rúm konúngs banamum, ok skaut þá fleinnum til konúngs; en sumir segja at engi vissi hverr skaut; má þat ok vel vera, firir því at örvar ok spjót ok önnur skotvâpn flugu svâ þykkt sem drífa; fjöldi manns fèll þar af Eiríks sonum, en konúngarnir allir komust á skipin, ok rèro þegar undan, en Hákonar menn eptir þeim; svâ segir Þórðr Sjáreksson:

[1]) eldraugr af, F. [2]) Kisprigr, F. [3]) þannig B, F; þysinum, A.

kallaðir. Allir Gunnhildar synir voro menn sínkir, ok var þat mælt, at þeir fæli fè sitt í jörðu; þess getr Eyvindr skáldaspillir:

Bárum ullr of alla
ímun lauks á hauka
fjöllum Fýrisvalla
fræ Hákonar æfi:
nú hefir fólkstríðir Fróða
fjölglýjaðra [1]) þýja
meldr í móður holdi
mellu dólgs of fólgit.

Fullar skein á fjöllum
fallsól [bráa [2]] vallar
ullar kjöls of allan
aldr Hákonar skáldum:
nú er álfröðull elfar
jötna dólgs of fólginn,
ráð ero rammrar þjóþar
rík, í móþur líki.

Þá er Haraldr konúngr spurði vísur þessar, sendi hann orð Eyvindi, at hann kvæmi á hans [illegible], ok er hann kom, mælti konúngr: þú vill [illegible], Eyvindr! ok samir þèr þat [illegible] trúleik, þvíat þú hefir áðr gerzt [illegible]

[illegible] kvað Eyvindr:

Var [illegible]
Harald [illegible] n hefig átt [illegible]
dauða [illegible] enn þik [illegible]
því mó [illegible] í elli.

[1]) brand [illegible]

yfir Noregi, en beiddi af þeim virkta vinum sínum ok frændum; en þó at mèr verði líts auð-ít, segir hann, þá skal ek fara til kristinna manna, ok bæta þat er ek hefir misgert við guð, en ef ek dey hèr í heiðni, þá veitit mèr gröpt slíkan sem yðr sýnist; Litlu síðan andaðist Hákon konúngr þar á hellunni, sem hann hafði fæddr verit. Hákon konúngr var svâ harmaðr at bæði vinir hans ok úvinir grètu dauða hans, ok sögðo at eigi mundi jafngóðr konúngr koma síþan í Noreg. Vinir hans fluttu lík hans norðr á Sæheim á Norðr-Hörðaland, gerðu þar haug mikinn, ok lögðo þar í konúng með alvæpni sitt ok enn bezta búnat en ekki fè annat; mælto svâ firir grepti hans sem heiðinna siðr var til.

*Gunnhildar synir tóku ríki.*

30. Eiríks synir tóko konúngdóm yfir Noregi, þá er Hákon var dauðr; var Haraldr mest fur þeim at virþíngu, var hann ok elztr þeirra bræðra er þá lifðo. Gunnhildr módir þeirra hafði mjök landráð með þeim; hún var þá köllut konúnga móþir. Þá voro höfþíngjar í Noregi: Tryggvi konúngr Ólafsson austr í Vík [1]), Guþröðr konúngr Bjarnarson á Vestfold, Sigurðr Hlaða jarl norðr í Þrándheimi. Gunnhildar synir höfðo midt landit hinn fursta vetr; fóro þá orð ok sendimenn milli Gunnhildar sona ok þeirra Tryggva ok Guðraðar, ok var þar mælt til sætta at þeir skyldo halda þvílíkan lut ríkis

[1]) landit, F.

af Gunnhildar sonum, sem þeir höfdo áðr haft af Hákoni konúngi. Glúmr Geirason var skáld Haralds konúngs Gunnhildar sonar, hann orti vísu þessa eptir fall Hákonar konúngs, ok hældi þar, at Haraldr konúngr hefði hefnt Gamla bróðr síns:

Vel hefir hefnt en hafna
hjörs ben draugar fjörvi
fólkrakkr vann fylkir
framligt Haraldr Gamla:
er dökkvalir drekka
dólg hands [1]) fur ver handan
roðin frá ek rauðra benja
reyr. Hákonar dreyra.

Þessi vísa varð allkjær í hirð Haralds konúngs. En er þat spurði Eyvindr Finnsson, þá kvað haun aðra vísu í móti:

Fyrr rauð fenris varra.
flugvarr konúngr sparra
málmhríþar svall meiðum
móð í Gamla blóði;
þá er ústirfinn arfa
Eiríks of rak geira
nú tregar gæti gauta
grams fall á seá alla.

Var sú vísa ok mjök flutt. En er þat spurði Haraldr konúngr, gaf hann þar firir Eyvindi dauða sök, þar til er vinir þeirra sættu þá með því móti, at Eyvindr skyldi görast skáld Haralds

[1]) brands, *Hk.*

konúngs, sem hann hafði áðr verit Hákonar konúngs; var ok frændsemi mikil milli þeirra, svâ at Eyvindr var sonr Gunnhildar döttur Hálfdánar jarls sem áðr er sagt, en móðir Gunnhildar var Íngibjörg, dóttir Haralds konúngs hárfagra. Eyvindr orti þá vísu um Harald konúng:

Litt kváðu þik láta,
landvörðr, er brast Hörða
benja hagl á brynjum,
bugust álmar, geð fálma;
þá er ófólginn ylgjar
endr or þinni hendi
fetla svell til fyllar
full egg, Haraldr! gullu.

*Boðin sætt milli Gunnhildar sona ok Sigurðar jarls.*

31. Gunnhildar synir sátu mest um midt landit, þvíat þeim þótti hvârki trúligt at sitja undir hendi Þrænda nè Víkverja, er mestir höfðo verit vinir Hákonar konúngs, en stórmenni margt í hvârntveggja stað; fóro þá menn at bera sættarboð milli Sigurðar jarls ok Gunnhildar sona, þvíat Eiríks synir fengu áðr engar skyldur or Þrándheimi; varð þat at lyktum, at þeir gerðu sætt sína Gunnhildar synir ok Sigurðr jarl, ok bundo svardögum; Sigurðr jarl skyldi halda slíkt ríki af þeim í Þrándheimi, sem hann hafði furr haft af Hákoni konúngi; voro þeir þá sáttir

kallaðir. Allir Gunnhildar synir voro menn sínkir, ok var þat mælt, at þeir fæli fè sitt í jörðu; þess getr Eyvindr skáldaspillir:

Bárum ullr of alla
ímun lauks á hauka
fjöllum Fýrisvalla
fræ Hákonar æfi:
nú hefir fólkstríðir Fróða
fjölglýjaðra [1]) þýja
meldr í móður holdi
mellu dólgs of fólgit.

Fullar skein á fjöllum
fallsól [bráa [2]] vallar
ullar kjöls of allan
aldr Hákonar skáldum:
nú er álfröðull elfar
jötna dólgs of fólginn,
ráð ero rammrar þjóþar
rík, í móþur líki.

Þá er Haraldr konúngr spurði vísur þessar, sendi hann orð Eyvindi, at hann kvæmi á hans fund; ok er hann kom, mælti konúngr: þú vill vera úvinr minn, Eyvindr! ok samir þèr þat illa at veita mèr ótrúleik, þvíat þú hefir áðr gerzt minn maðr. Þá kvað Eyvindr:

Einn drottin hefig áttan,
jöfurr dýrr, enn þik fyrra,
belli bragníngr elli,

1) fáglýaðra, *Hk.* 2) þannig *Hk;* brá, *A.*

biðr ek ei mèr hins þriðja;
trúr var ek tiggja-dýrum,
tveim skjöldum leik ek aldri,
fylli ek flokk þinn, stillir!
fellr í hendr mèr elli.

Haraldr konúngr lèt Eyvind festa sèr sjálfdæmi fyrir mál þetta. Eyvindr átti gullhríng mikinn ok góðan er kallaðr var Foldi, hann hafði tekinn verit or jörðo fyrir laungu áðr; konúngr segir, at þar skal kostr vera engi annarr enn hann skal hafa hríng þann; þá kvað Eyvindr:

Skylda ek skerja foldar
skíð rennandi umsíðir
þussa bæs frá þvísa
þinn góðan byr finna,
er valjarðar verðum
veljandi þèr selja
lýngva mens þat er lengi
látr minn faþir átti.

Fór þá Eyvindr heim, ok er ekki þess getit at hann fyndi Harald konúng siþan.

*Frá Gunnhildarsonum er þeir komu í Noreg.*

32. Gunnhildar synir höfðo tekit kristni á Englandi; en er þeir komu til ríkis forráða í Noregi, þá komu þeir engu á leið at kristna landsfólkit, en alt þar er þeir komu því við, þá brutu þeir niðr hof ok spiltu blótum, fengu þeir þar fyrir af alþýðu mikla úvinsæld; spiltist þá ok skjótt árferð í landi; konúngar voro

margir ok hafði hverr hirð um sik, þurftu þeir mikit til kostnaðar ok voro iuir fègjörnuztu; hèldu þeir ekki mjök lög þau er Hákon konúngr hafði sett [1]). Allir voro þeir menn fríðir sýnum, stórir ok sterkir ok íþróttamenn miklir. Svâ segir Glúmr Geirason af Haraldi konúngi:

Kunni tólf sá er tanna [2])
tíðum haldinskíða [3])
ógnar stafr of jöfra
íþróttir fram sótti.

Optliga voro þeir bræðr allir saman, en stundum sèr hverir; þeir voro menn grimmir ok hraustir, orrostumenn miklir ok mjök sigrsælir. Gunnhildr konúnga móðir ok synir hennar voro opt á tali ok málstefnu, ok rèðu landráðum; ok eitt sinn spurði Gunnhildr sonu sína, hvern veg þeir ætli at láta fara ríki í Þrándheimi: þèr berit konúnga nöfn svâ sem furr hafa haft lángfeðr yðrir, en hafit lítit af ríki, en erut margir til skiptis; Víkina austr hafa Tryggvi ok Guþröðr, ok eiga þeir nökkura tiltölu fur ættar sakir, en Sigurðr jarl ræðr öllum Þrændalögum, ok veit ek eigi, hver skylda yðr berr til þess at láta jarl einn ráða svâ miklu ríki undan yðr; þikkir mèr þat undarligt, er þèr farit í víkíng at herja á önnur lönd, en látit innanlands menn taka af yðr föðurleifð yðra; lítit mundi Haraldi þikkja, er þú ert eptir kallaðr, föðurföður þínum,

[1]) heldr eptir því sem þeim likaði, *bætir við F.*
[2]) *þannig Hk;* kanna, *A.* [3]) Hallinskíða, *Hk.*

at taka einn jarl af ríki ok lífi, er hann vann allan Noreg undir sik ok rèð til elli. Haraldr svarar: þat er eigi svâ dælt at taka Sigurð jarl af lífdögum sem at drepa kið eðr kálf [1]; Sigurðr jarl er ættstór ok frændmargr, vinsæll ok vitr; vænti ek, ef hann spurr at sönnu, at hann á úfriþar vân af oss, þá ero þar allir Þrændir sem hann er; eigum vèr þar þá ekki erendi nema ílt eina, lízt mèr svâ sem engum vârum bræðrum þikki trúligt at sitja undir hendi þeim Þrændum. Gunnhildr mælti: vèr skulum fara alt annan veg at þessu ráði; við Haraldr konúngr ok Erlendr skulum sitja í vetr á Norðmæri, ok freista svâ hvat at sýslist, ok svâ gerðu þau.

*Brendr inni Sigurðr jarl.*

33. Grjótgarðr hèt bróðir Sigurðar jarls, hann var miklu ýngri ok virðr minna, hafði hann ok ekki tignar nafn; hann hèlt þó sveit ok var á sumrum í víking. Haraldr konúngr sendi menn inn í Þrándheim á fund jarls með fègjöfum ok vinmælum; sagðist Haraldr vilja leggja viðhann slíka vináttu sem verit hafði með Hákoni ok jarlinum; þat fylgði orðsendíng, at jarl skyldi koma á fund Haralds konúngs, skyldo þeir þá at fullu binda vináttu sína. Sigurðr jarl tók vel sendimönnum ok vináttu málum konúngs, en segir at hann mátti ekki fara á fund konúngs sakir fjölskylda sinna; sendi hann konúngi vingjafir ok góð orð móti vináttu hans; fóro sendimenn

[1]) lamb, *F.*

brott; þeir komu á fund Grjótgarðs, ok báru honum hit sama erendi, vináttu ok heimboð Haralds konúngs ok þar með góða gripi; fóro sendimenn við þat heim, at Grjótgarðr hèt sinni ferð; ok at ákveðnum degi kom Grjótgarðr á fund Haralds konúngs ok Gunnhildar; tóko þau við honum blíðliga, höfðo hann í kærleikum ok við leyndarmál sín, töldo fyrir honum hversu jarl hafði hann lengi gert lítinn mann; en ef hann vildi vera í ráðum með þeim, segir konúngr, at hann skyldi vera jarl hans ok hafa ríki þat alt er áðr hafði Sigurðr haft; kom svâ at þau sömðo þat með einkamálum, at Grjótgarðr skyldi halda njósnum til, ok gera orð konúngi nærr líkast væri til at veita atför jarli; fór Grjótgarðr við þetta heim, ok þá góþar gjafar af konúngi.

34. Sigurðr jarl fór um haustit inn í Stjórdal, ok var þar á veizlum, síþan fór hann út á Öglo, ok skyldi þar taka veizlur. Jarl hafði jafnan mikit fjölmenni um sik, meþan hann trúði illa konúngum; en með því at þá höfðo vináttumál farit milli þeirra Haralds konúngs, þá hafði hann eigi mikla sveit manna. Grjótgarðr gerði þá njósn Haraldi konúngi at eigi mundi í annat sinn vænna at fara at jarli, ok þegar á sömu nótt fóro konúngarnir Haraldr ok Erlendr inn eptir Þrándheimi, höfðo 4 skip ok lið mikit, sigldu inn um nóttina við stjörnu ljós; kom þá Grjótgarðr til móts við þá. Þeir komu ofan-

verða nótt inn á Öglo þar sem Sigurðr jarl var á veizlu, lögðu þeir eld í hús ok brendo bæinn; brann þar inni Sigurðr jarl ok alt lið hans. Kon-úngar fóro þegar árdegis út eptir firði, ok svâ suðr á Mæri, ok dvöldust þar um hríð; þat var 2 vetrum eptir fall Hákonar konúngs Aðalsteins fóstra, at sögn Ara prests hins fróða Þorgils sonar.

*Sætt Hákonar jarls ok Gunnhildar sona.*

35. Hákon son Sigurðar jarls var inn í Þrándheimi, þá er hann spurði brennu föður síns; Hákon var ættstór ok frændmargr, ok sem faðir hans vinsæll ok ástúðigr avllu landsfólki; varð Hákoni gott til liðs, svâ at allir Þrændir snèrust til hans; var þá þegar svâ mikit herlaup um allan Þrándheim, at hvert skip var á vatn dregit, þat er herfært var. En er herrinn kom saman, tóko þeir Hákon Sigurþarson til jarls ok höfþíngja yfir lið þat; þá var hann nær 20 at aldri; hèlt hann öllu liðinu út eptir firði. En er þat spurðu Gunnhildar synir, fóro þeir suðr í Raumsdal ok á Sunnmæri, ok hèldo hvârir njósnum til annarra. Hèlt Hákon jarl þá Þrándheimi með styrk vina [1]) sinna 3 vetr, svâ at Gunnhildar synir fengu þatan engar tekjur, ok engi þeirra náði at koma inn um Þrándheims mynni; hann átti nökkurar orostur við Gunnhildar sonu, en hvârir drápu marga menn fyrir öðrum; þess getr Einarr skálaglamm í Velleklu, er hann orti um Hákon jarl:

[1]) frænda, *F, B.*

Ok oddneytir úti
eiðvandr flota breiðan,
glaðr í Göndlar veðrum
gramr svaíði bil, hafði;
ok rauðmána reynir
róg segl Heðins bóga
upphóf jöfra kappi
etju hundr at setja.

Ok enn kvað hann:

Veit of [1]) byrjar örva
odda víſs í dríſu
sverða sverri ſjarþar
svan glýjaði at frýja;
brak rögnir skók boga
barg óþyrmir varga
hagl or Hlakka segli [2])
hjörs rakliga ſjörvi.

Mart varð el áðr ála
Austrlönd at mun banda
randar lauks af ríki
ræki lundr of tæki.

Enn getr Einarr hversu Hákon jarl hefndi föður síns:

Ber ek frá hefnd þá er hrafna
hljóms loftoginn skjóma
þat nam vörðr at vinna
vann síns föður hranna.

[1]) Varat, *B.* [2]) Hlakkar seglum, *B.*

Rigndi hjörs á hersa
hríðremmis fjör víða
þrymlyndr ok [1]) jók þundi
þegns gnótt meel [2]) regni;
ok hjald viðurr hölda
haf faxa lèt vaxa
laufa veðr at lifum
lífköld Hárs [í [3]] drífu.

Eptir þetta fóro beggja vinir ok báru sættarboð ímilli þeirra Eiríks sona ok Hákonar jarls; kom þá svâ með fortölum göfugra manna, at þeir sættust svâ at Hákon skyldi hafa þvílíkt ríki í Þrándheimi sem haft haföi Sigurðr jarl faðir hans, en konúngar slíkt sem Hákon konúngr hafði haft fyrir þeim; var þetta sáttmál bundit með fullum trúnaði. Þá gerðist kjærleikr mikill með þeim Hákoni jarli ok Gunnhildi, en stundum beittust þau veilræðum; leið svâ fram aðra 3 vetr, sat þá jarl um kyrt í ríki sínu.

*Fæddr Eiríkr Hákonar son.*

36. Hákon jarl fór einn vetr til Upplanda, ok á einni gistíng varð sá atburðr, at hann lagðist með konu, hún var lítillar ættar; en er þatan liðu stundir, gekk sú kona með barni, ok er barnit var fædt, var þat sveinn ok hèt Eiríkr. Móðirin flutti sveininn til Hákonar, ok sagði at hann var faðirinn. Jarl lèt sveininn uppfæða með þeim manni er kallaðr var Þorleifr hinn spaki, hann bjó uppi í Meðaldal ok var ríkr

[1]) of, *Hk.* [2]) ok men, *Hk.* [3]) *bætir við Hk.*

maðr ok auðigr ok vinr mikill jarls. Eiríkr var brátt mannvænn, enn fríðazti sýnum, mikill ok styrkr snemma. Jarl lèt sèr fátt til hans. Hákon jarl var allra manna fríðaztr sýnum, ekki hárr maðr, styrkr ok íþróttamaðr mikill, spakr at viti ok hinn mesti hermaðr. Á einu hausti fór jarl til Upplanda, ok er hann kom á Heiðmörk, komu þar til móts við hann Tryggvi konúngr Ólafsson ok Guðröðr konúngr Bjarnarson, þar kom ok Dala-Guþbrandr; þeir áttu stefnulag með sèr ok sátu lengi á einmæli; enn þat kom upp at hverr þeirra skyldi vera vin annars, ok skildu við svâ búit; fór þá hverr heim til síns ríkis. Tryggvi konúngr Ólafsson var ríkr maðr ok göfugr, hann þótti Víkverjum bezt til konúngs fallinn at ráða landi öllu. Guðröðr konúngr Bjarnarson var ástvinr Tryggva konúngs. Þetta spur Gunnhildr ok synir hennar, at þessir höfþíngjar höfðu talat til vináttu með sèr, ok er þeim grunr á, at þeir mundi hafa gört landráð við konúngana, tala nu optliga ok hafa ráðagjörðir sín í milli. En er vâraði lýstu þeir Haraldr konúngr ok Guþröðr bróðir hans því, at þeir mundu fara í víkíng um sumarit vestr um haf eðr í Austrveg, sem þeir voro vanir, drógu þeir þá lið at sèr ok hrundu skipum á vatn ok bjöggust; en er þeir drukku brautfarar avl sitt, voro þar drykkjur miklar, ok margt talat við drykkinn, ok þar kom at farit var í mannjafnat, ok þvínæst var rædt um konúngana seálfa; mælti

þá einn maðr, at Haraldr væri framazt þeirra bræðra í öllum lutum; þessu reiddist mjök Guðröðr konúngr, sagði svâ at hann skyldi í engu bera lægra lut en Haraldr bróðir hans, segir sik vera búinn at þeir reyni þat; kom svâ umsíðir, at hvârtveggi þeirra sýndist mjök reiðr ok þreyttu þetta með svâ miklum kappmælum, at hvârr bauð öðrum til vígs ok ljópu til vâpna. En þeir menn sem vitrari voro ok minnr drukn-ir, gengu ímilli ok stöðvaðu þá; fóro þá hvâr-ir til sinna skipa, en engi var vân þá, at þeir mætti fara allir samt, at því er mönnum sýndist; en reyndar var þetta ekki nema prettr þeirra bræðra ok flærðsamlig ráðagerð Gunnhildar móður þeirra, sem síþan prófaðist, at þeir væri því síðr grunaðir um þau svik, er þau höfðo saman bruggat ok síðarr komu fram, ef þeir sýndist úsáttir sín ímilli. Sigldi þá Guðröðr konúngr austr [1]) með landi, en Haraldr stefndi út á haf, ok segir at hann mundi sigla vestr um haf; en er hann kom út um eyjar, stefndi hann hafleið austr [2]) með landi. Guðröðr konúngr sigldi þjóðleið austr til Víkr, ok svâ austr um Foldina. Sendi hann þá menn til Tryggva kon-úngs með þeim erendum, at hann skyldi koma til móts við Guðröð konúng, ok færi þeir báðir samt um sumarit í Austrveg at herja. Tryggvi konúngr tók því vel ok líkliga; hann spurði at Guðröðr hafði lítit lið, fór Tryggvi konúngr

[1]) suðr, *B, C.* [2]) suðr, *B. C.*

til fundar við hann með eina skútu; þeir fundust við veggina fyrir vestan [1]) Sótanes; en er þeir gengu á málstefnu, ljópu at menn Guðröðar ok drápu Tryggva konúng ok 12 menn með honum, ok liggr hann þar sem síþan er kallat Tryggvareyrr.

*Dráp Guðröðar af Haraldi konúngi.*

37. Haraldr konúngr sigldi mjök útleið, hann stefndi inn í Víkina, ok kom við nótt til Túnsbergs; spurði hann þá at Guðröðr konúngr Bjarnarson var þar skamt á land upp á veizlu; fór Haraldr konúngr með lið sitt þegar ena sömu nótt upp þángat, ok tók hús á þeim. Guðröðr konúngr gekk út með sína menn; varð þá lítil viðrtaka, áðr Guðröðr konúngr Bjarnarson fèll ok margt manna með honum. Haraldr konúngr fór þegar brottu, hèlt hann þá til fundar við Guþrævð bróður sinn, ok lögðu þeir undir sik alla Víkina.

*Frá Haraldi grænska.*

38. Guðröðr konúngr Bjarnarson hafði fengit sèr gott kvânfáng ok makligt; þau áttu son er hèt Haraldr, hann var sendr til fóstrs upp á Grænland til Hróa ens hvíta lends manns; son Hróa var Hrani hinn víðförli, vóro þeir Hrani ok Haraldr mjök jafngamlir ok fóstbræðr. Eptir fall Guþröðar konúngs Bjarnarsonar flýði Haraldr sonr hans, er kallaðr var hinn grænski, furst til Upplanda [2]) ok með honum Hrani

[1]) utan, F, þ.   [2]) Grænlands', F.

fóstbróðir hans ok fáer menn aðrir, dvöldust þeir þar um hríð með frændum sínum. Eiriks synir leitaðu mjök eptir þeim mönnum, er í sökum voro bundnir við þá, ok þeim öllum mest er þeim var uppreistar at von. Rèðo þat þá Haraldi frændr hans ok vinir, at hann færi af landi brotto; hann fór þá austr til Svíþjóðar, ok leitaði sèr skipanar, ok at koma sèr í sveit með þeim er fóro í hernat at fá sèr fjár. Haraldr var hinn gerviligazti maðr. Tosti hèt maðr í Svíþjóð, hann var einn ríkaztr ok göfgaztr í því landi þeirra manna er eigi báru tignarnafn, hann var hinn mesti hermaðr ok var löngum í víkíng, því var hann kallaðr Sköglar Tosta. Haraldr grænski kom sèr þar í sveit ok var í víkíng um sumarit með Sköglar Tosta, ok virðist Haraldr hverjum manni vel; hann var um vetrinn með Tosta. Haraldr hafði verit twâ vetr á Upplöndum, en hann var 5 vetr með Tosta. Sigríðr hèt dóttir Tosta, úng ok fríð, svarri mikill [1]; hún var síþan gipt Eiríki Svía konúngi enum sigrsæla, ok var son þeirra Ólafr sænski [2]) er síþan var konúngr í Svíþjóð. Eiríkr varð sóttdauðr at Uppsölum 10 vetrum síðarr en Styrbjörn fèll.

### *Af atgerfi Hákonar jarls.*

39. Gunnhildar synir buðu út liði miklu or Víkinni, ok fóro svâ norðr með landi at þeir

[1]) hennar bað Haraldr grænski, en hún brendi hann inni ok enn fleiri konúnga, er hennar höfðu beðit, því var hún köllut Sigríðr hin stórráða, bætir inn í F.

[2]) svænski, C.

höfðo lið ok skip or fylki hverju; gerðu þeir þá bert at þeir mundu stefna her þeim norðr til þrándheims á hendr Hákoni jarli; þessi tíþindi spurði brátt Hákon jarl, dró hann þegar her at sèr, ok rèð til skipa. En er hann spurði, hversu mikinn her Gunnhildar synir höfðu, þá hèlt hann síno liði suðr á Mæri, ok herjaði hvar sem hann fór, drap hann menn, þá er hann náði, bæði ríka ok úríka; hann sendi aptr bónda herinn þrænda, en fór [sjálfr] herskildi um Mæri hvâratveggju ok Raumsdal [1]); hann hafði njósnir alt fyrir sunnan Stað um her Gunnhildar sona. En er hann spur, at þeir voro komnir í Fjörðo ok biðu byrjar at sigla norðr um Stað, þá sigldi hann suðr um Stað svâ hafhalt; at ekki mátti seá segl hans af landi, lèt hann svâ gánga austr með landi, ok kom fram í Danmerk; sigldi hann þatan í Austrveg [2]) ok herjaði þar um sumarit. Gunnhildar synir hèldo liði síno norðr til þrándheims, dvöldust þar mjök lengi ok tóko skatta ok skyldir af bóndum, en er á leið sumarit, settust þeir þar eptir, Sigurðr slefa ok Guþröðr konúngr, en Haraldr ok aðrir þeir bræðr fóro austr í land ok leiðángrs lið þat, er þeim hafði þángat fylgt um sumarit.

*Dráp Sigurðar konúngs slefu.*

40. Hákon jarl sigldi um haustið til Helsíngjalands, ok setti þar upp skip sín; fór síþan landveg um Jamtaland ok Helsíngjaland, svâ

[1]) Forsdal, *C.* [2]) Eystrasalt, *F.*

austan um Kjöl ok kom ofan í Þrándheimi; dreif þegar til hans lið mikit; rèð hann til skipa; en er þat spurðu Gunnhildar synir, stigu þeir á skip sín ok hèldo út eptir firði; en Hákon jarl fór út á Hlaðir ok sat þar um vetrinn. En Gunnhildar synir sátu á Mæri, ok veittu hvârir öðrum árásir ok manndráp. Hákon jarl hèlt ríki síno í Þrándheimi, ok sat þar optast á vetrum, en fór um sumrum í hernat í Austrveg; stundum sat hann um sumrum í Þrándheimi, ok hafði her úti; hèld-ust Gunnhildar synir þá ekki fur norþan Stað. Haraldr gráfeldr fór á einu sumri með her sinn til Bjarmalands ok herjaði þar, ok átti orusto mikla við Bjarma á Vinu bakka; þar hafði Haraldr sigr ok drap fólk margt; herjaði hann þá víða um landit ok fèkk stórmikit fè; svâ segir Glúmr Geira son.

Austr rèð [1]) jöfra þrýstir
orðrakkr fur bý norþan
brand, þar er bjarmskar [2]) kindir
brennanda lèt renna;
gott laut gumna sættir,
geirveðr í för þeirri
öðlíngi fèkkst úngum,
orð á Vinu bordi.

Klyppr hèt hersir einn, kynstór maðr ok ríkr á Hörðalandi; hann var son Þórþar Hörðakára sonar. Kona Klypps hersis hèt Ólöf [3]), hún var Ásbjarnar dóttir, systir Járnskeggja norþan af Yrjum [4]). Bróðir Ásbjarnar var Hreiðarr, faðir

[1]) rauð, C. [2]) Bjarma, B, C. [3]) Alöf, C. [4]) Yrum.

Styrkárs, föður Eindriða, föður Einars þambarskelfis. Sigurðr konúngr slefa kom til bús Klypps hersis; hann var eigi heima, en Ólöf kona hans tók vel við konúngi; var þar veizla góð ok drykkjur miklar. Sigurðr konúngr gekk um nóttina til rekkju Ólofar, ok lá þar at úvilja hennar. Síþan fór konúngr á brott. Eptir um haustit fóro þeir [1]) Haraldr konúngr ok Sigurðr upp á Vors, ok stefndu þar þíng við bændr. Á því þíngi veittu bændr konúngum atför, ok vildó drepa þá; komust þeir undan með flótta, fór þá Haraldr konúngr norðr í Harðángr, en Sigurðr á Álrekksstaði ok settist þar. En er Klyppr hersir spurði þat, heimti hann saman frændr sína ok vini, ok veittu konúngi atför; höfþíngi var sá maðr fyrir ferðinni, er kallaðr var Vemundr [2]) völubrjótr. En er þeir komu á bæinn, veittu þeir Sigurði konúngi atsókn; Klyppr lagði sverði í gegnum konúng, var þat hans bani, ok þegar í stað var Klyppr drepinn.

*Bardagi Hákonar jarls.*

41. Haraldr konúngr Gráfeldr ok Guþröðr bróðir hans drógu saman her mikinn [3]), ok hèldo liði því norðr til Þrándheims; en er þat spurði Hákon jarl, samnaði hann liði at sèr, hèlt suðr á Mæri ok herjaði þar; þá var fyrir Grjótgarðr, föþurbróðir hans, ok skyldi þar hafa landvörn af Gunnhildar sonum; hann bauð her

[1]) bræðr, *bæta við C, F.* [2]) Vermundr, *F.*
[3]) austan or landi, *bæta við C, F;* austan or Sói, *B.*

út sem konúngarnir höfðo orð til sent. Hákon jarl hèlt til fundar við hann, ok áttu þeir bardaga. Þar fèll Grjótgarðr ok 2 jarla synir ok margt lið annat. Þess getr Einarr skálaglamm:

Hjálm faldinn [1]) vann hilmir
harð lopts vinar barða
því kom vöxtr í vinu
vínheims fjandr sína;
at forsnjallir fèllu
furs í þundar [2]) skúrum
þat færr þróttar [3]) snytri
þrír jarls synir tírar.

Síþan sigldi Hákon jarl út um eyjar ok svâ hafhalt suðr með landi; hann kom fram í Danmörk, fór þá á fund Haralds Gormssonar Dana konúngs, fèkk þar góþar viðtökur, dvaldist með honum um vetrinn. Þá var ok með Dana konúngi maðr sá er hèt Haraldr, hann var son Knúts Gorms sonar, bróðurson Haralds konúngs, hann var kominn or víkíng, hafði lengi herjat ok fengit of lausa fjár, því var hann kallaðr Gullharaldr; hann þótti vel til kominn at vera konúngr yfir Danmerku.

*Frá ríki Gunnhildar sona.*

42. Haraldr konúngr Gráfeldr ok þeir [bræðr [4]] hèldo liði síno norðr til Þrándheims, ok fengu þar enga mótstöðu, þvíat Hákon jarl var í brottu, tóko þeir þar skatta ok skyldur ok allar

[1]) grap er, *B*; greip er, *C*. [2]) í þróttar, *Hk*.
[3]) þjóstar, *C*, *B*; þjóðar, *Hk*. [4]) *bætir við*, *B*.

konúngs tekjur, ok þar umfram lètu þeir bændr gjalda stórgjöld, þvíat konúngarnir höfðu þá lengi lítit fè fengit or Þrándheimi, er Hákon jarl sat þar með fjölmenni, ok átti úfrið við konúngana. Um haustit fór Haraldr konúngr suðr [1]) í land með þat lið flest er þar átti heimili, en Erlendr konúngr sat þar eptir með sitt lið, hann hafði þá enn miklar krafir við bændr, ok gerði harðan rètt þeirra, en bændr kurruðu illa, ok gerðu ráð sín. Síðarr um vetrinn samnaðust bændr saman ok fengu lið mikit, stefndo síþan at Erlendi konúngi, þar sem hann var á veizlu ok hèldo orusto við hann; þar fèll Erlendr konúngr ok mikil sveit manna með honum.

*Fæddr Ólafr Tryggvason.*

43. Ástríðr hèt kona sú er átt hafði Tryggvi konúngr Ólafs son; hún var dóttir Eiríks bjóðaskalla ríks mans, er bjó á Ofrüstöðum. En eptir fall Tryggva konúngs flýði Ástríðr á brott, ok fór á laumúngu með lausa fè því er hún mátti með sèr hafa; henni fylgði fóstrfaþir hennar, sá er nefndr Þórólfr lúsaskegg; hann skildist aldri við hana. En aðrir trúnaþarmenn hennar fóro á njósn, hvat spurðist af úvinum hennar eðr hvar þeir fóro. Ástríðr gekk með barni Tryggva konúngs, hún lèt flytja sik út í vatn eitt [2]), ok leyndist þar í hólmi nökkurum ok fáer menn með henni; þar fæddi hún barn, þat var sveinn; Þórólfr jós sveininn vatni ok kall-

[1]) austr, *C.* [2]) er Rönd heitir, *bætir við F.*

aði Ólaf eptir föðurfeðr sínum. Þat var á 9da áre hins 7da ¹) tigar ens 10da hundraðs frá holdgan vârs herra, ok á öðru áre hins fjórða tigar ríkis Ottónis hins mikla keisara, ok á fursta áre Jáðvarðar konúngs í Englandi. Ástríðr leyndist þar í hólmanum um sumarit. En er nótt murkti, en dagh tók at skemma, en veðr at kólna, þá byrjaði Ástríðr ferð sína ok Þórólfr með henni, en fátt annarra manna, fóro þar eina meðbygðum, er þau leyndust um nætr ²), ok fundo enga menn. Þau komu fram eins dags at kveldi til Eiríks á Ofrustöðum, föður Ástríðar. Þau fóro leyniliga; sendi Ástríðr menn til bæjarins at segja Eiríki sína þarkvâmu. En hann lèt fylgja þeim í eina skemmu, ok setja þeim borð með enum beztum faungum. Var Ástríðr þar litla hríð áðr föroneyti hennar fór brott, en hún var eptir ok 2 þjónusto konur ³) með henni, ok son hennar Ólafr, Þórólfr lúsaskegg ok [Þorgils ⁴], son hans, 6 vetra gamall; voro þau þar um vetrinn.

### *Af ráðagjörðum Gunnhildar um Ástríði ok Ólaf.*

44. Haraldr konúngr Gráfeldr ok Guðröðr bróðir hans fóro eptir dráp Tryggva konúngs Ólafssonar til búa þeirra sem hann hafði átt. En þá var Ástríðr í brottu þatan, ok spurðu þeir ekki til hennar. Sá kvittr kom fyrir þá, at

¹) sètta *B*, *C*. ²) daga, *F*. ³) menn, *B*, *C*. ⁴) *bæta við B*, *C*.

hún mundi vera með barni Tryggva konúngs. Þeir fóro um haustið norðr í land, sem furr er ritat; en er þeir fundo Gunnhildi móður sína, sögðo þeir henni alla atburði um þau tíþindi, er þá höfðo gerzt í för þeirra. Hún spur vendiliga at, þar sem Ástríðr var. Þeir segja þar af slíkan kvitt, sem þeir höfðo heyrt. Gunnhildr svarar: þat mân vera satt, at hún mun fæða upp son Tryggva, ef engra ráða er í leitat. En fyrir þá sök, at þat sama haust áttu Gunnhildar synir deilur við Hákon jarl, ok svâ um vetrinn eptir, sem furr er ritat, þá varð engi eptirleitan höfð um Ástríði ok son hennar á þeim vetri. En eptir um vârit sendi Gunnhildr menn til Upplanda, ok alt í Víkina, at njósna hvat um hag Astríðar mundi vera. En er þeir njósnarmenn komu aptr til Gunnhildar, kunnu þeir þat helzt at segja til Ástríðar, at hún mundi vera á Ofrustöðum með föður sínum, ok þess meiri vân, at hún fæddi þar upp son Tryggva konúngs, en sögðo sik hvârki þeirra sèð hafa. Hákon hèt einn ríkr maðr enn kærazti vin Gunnhildar; hún sagði Hákoni, at hann skyldi fara á Ofrostaði til Eiríks ok hafa þatan son Tryggva ok færa sèr; fèkk hún Hákoni til fylgðar 30 manna alla vel búna at vopnum ok hestum [1]); þeir fóro veg sinn sem fyrir lá þar til er þeir áttu eigi lángt til Ofrostaða; verða þá vinir Eiríks varir við ferð þeirra ok eyrindi, ok bera honum njósn um sendimenn Gunn-

[1]) klæðum, *B*, *C*.

hildar; þat var síð dags; en þegar um nótt bjó Eiríkr brautferð Ástríðar dóttur sinnar; fèkk hann henni góða leiðtoga, fóro þau brottu er mikit lifði nætr. Eiríkr leiddi þau or garði, hann mælti til Ástríðar: þar farit þèr svâ fljótliga hèðan í braut at ek fær eigi haldit yðr hèr, þvíát Gunnhildr leitar eptir syni þínum ok vill taka hann af lífi, en ek vil senda yðr austr til Svíþjóðar á fund eins hins bezta vinar míns, er nú er kallaðr Hákon gamli, við vorum lengi báðir samt í víking, var með okkr hinn kærazti fèlagskapr, ok áttum einn sjóð, reynda ek hann hinn dyggvazta í öllum lutum; en nú hefir hann mikit ríki ok vald í Svíþjóð þó at hann bæri eigi tignar nafn, vænti ek at hann mân yðr vel halda fyrir mína skyld. Síþan fóro þau veg sinn, en Eiríkr hvarf aptr til bæjar; þau komu at kveldi dags í þat hèrat er Skavn hèt, sá þar bæ mikinn, ok fóro þannig, ok báðu sèr þar nætrvistar; þau [duldust] ok höfðu fátækligan klæðabúnat. Sá maðr, er þar bjó, var nefndr Björn eitrkveisa, hann var auðigr maðr ok illr búþegn; hann rak þau brott; fóro þau um kveldit í annat þorp skamt þatan, er hèt í Vizlum [1]); þar bjó sá bóndi er Þorsteinn hèt, hann herbergði þau um nóttina, ok veitti þeim [góþan beina [2]] þá nótt, sváfu þau í góðum umbúnaði. Hákon, sendimaðr Gunnhildar, kom með sína sveit á Ofrostaði snimma um morgin, þá er þau höfðo

[1]) Vittlum, *F.*  [2]) *bætir við C.*

brott farit um nóttina; spurði hann at Ástríði ok syni hennar; Eiríkr segir at hún var ekki þar. Hákon trúði ekki sögn hans ok rannsakaði bæinn sem vandligast bæði úti ok inni; dvöldust [þeir] þar lengi um daginn, ok fengu þá nökkura njósn af ferð Ástríðar, tóko þá hesta sína ok riðu brottu þá sömu leið sem þau höfðo áðr farit; komu þeir um kveldit til Bjarnar eitrkveisu í Skavn, tóko þar gisting, ok spurði Hákon Björn, ef hann kynni honum nökkut segja til Ástríðar. Björn svarar: komu hèr í dag nökkurir menn í vândum klæðnaði, er ek hugði, at fátækir væri, ok báðu mik nætrvistar, en ek rak þau brotto, þvíat mèr ero allir stafkarlar leiðir; en þó kemr mèr nú í hug, at í þeirra liði var ein kona forkunnar væn, þó at hún væri fátækliga búin, með úngu sveinbarni mjök fríðu, ok enn aldraðr maðr, ok piltr nökkurra vetra gamall; nú munu þau vera herbergjut hèr nakkvar [1]) í nånd í þorpum. Á því sama kveldi fór húskarl Þorsteins or skógi ok kom til bæjar Bjarnar, þvíat þat var á veg hans; hann varð varr við, at þar voro gestir margir, ok svâ hvert eyrendi þeirra var; segir hann þetta alt Þorsteini bónda, er hann kom heim. En er þriðjúngr lifði nætr, vakði Þorsteinn upp gesti sína, ok bað þau brott fara skjótt; hann mælti við þau herst [2]), ok lèt úfrýnliga. En er þau komu af garðinum út á veginn, heilsaði Þorsteinn Ástríði

[1]) nokkorstaðar, *Hk.* [2]) harðliga, *F;* snelt, *B.*

blíðliga, ok mælti síðan: eigi hefir ek fyrir sakir grimðar eðr illvilja yðr svâ skjótt ok harðliga kvadt brott af mínum garði, heldr fyrir því, at sendimenn Gunnhildar konúngamóður ero komnir til Bjarnar eitrkveisu, þess eyrendis at taka son ykkarn Tryggva konúngs ok færa henni. En nú skulut þèr fara eptir minni vísan fram á skóginn, þar til er vatn eitt verðr fyrir yðr; í vatninu er einn hólmi reyri vaxinn, þar má vel vaða út í hólmann, felit þèr yðr þar í reyrinum, ok bíðit svâ þess er ek kem til yðar; en ek verð nú furst at snúa heim aptr, þvíat mik varir, at sendimenn Gunnhildar komi hèr skjótt at leita yðar, ok ef ek fer í leitina með þeim, mun ek heldr veita tilseá, at þèr finnizt eigi. Hvarf Þorsteinn þá aptr til bæjar síns. En þau gengu fram á skóginn til vatzins ok fálu sik í hólmanum, eptir því sem hann hafði fur sagt. Snimma um daginn reið Hákon frá Bjarnar í bygðina, ok hvar sem hann kom, spurði hann eptir Ástríði. En er hann kom til Þorsteins, spurði hann, ef þau væri þar komin. Þorsteinn svaraði: voro hèr menn nökkurir í nótt ok fóro brottu móti degi austr á skoginn. Hákon mælti: þá mântu vilja fara með oss at leita þeirra, þèr munu kunnar leiðir allar ok fylskni á skóginum. Þorsteinn játti því, ok bjó sik skjótt. En er þeir komu á skóginn, mælti Þorsteinn: nú skulum vèr fara dreift, þvíat leitin er víð; geymit þèr til vel, ef þèr verðit við nökkura ný-

breytni varir, þvíat eigi er úlíkligt, ef þau heyra manna mál, eðr vita sèr nökkurs ótta vânir, at þau feli barnit en forði sèr; rannsakit þèr ok vandliga öll fylskni, þau er ek vísa yðr til. Vísaði hann þeim nú öllum þvers frá því sem þau voro, en fór einn saman; ok þegar þeir máttu eigi seá hann, rann hann í þorpit, ok tók ambáttar barn eitt, bar hann þat í skóginn þar sem þykkvaztr var, ok fal þat í nökkuru leyni; litlu síðarr tók barnit at gráta; en er þat heyrðo þeir, er í leitinni voro, runnu þeir allir þar til, ok varð Þorsteinn seinstr. En er þeir litu á barn þetta, mælti Þorsteinn: ekki er þetta konúngs barn, heldr hefir sá maðr oss sviksamliga gabbat, er þetta barn hefir híngat borit, þvíat þat er auðsýnt, at sá maðr hefir viljat villa leitina fyrir oss. Leituðu þeir um skóginn allan þann dag, ok fundo Ástríði eigi því heldr. Eptir þat fóro sendimenn aptr til Gunnhildar, ok segja henni sitt erendi. Ástríðr ok hennar föroneyti var í hólmanum þann dag, er þeir leitaðu hennar um skóginn. En um nóttina eptir kom Þorsteinn þar, sem hann hafði heitit, fèkk hann þeim vistir ok aðra luti, þá er þau þurftu, svâ ok mann til fylgðar, þann er vel kunni vegu alla austr í Svíþjóð. Skildust þau Þorsteinn ok Ástríðr góðir vinir; lètti Ástríðr sinni ferð eigi furr enn þau komu með síno föroneyti á fund Hákonar gamla; dvaldist hún þar ok sonr hennar lánga hríð í góðum fagnaði.

*Hákon hinn norræni fór til Svíþjóðar at leita Ólafs.*

45. Gunnhildr konúnga móþir rak enn frèttir til um Ástríði ok son hennar. En er hún spurði, at þau voro í Svíþjóð, þá sendi hún enn sama mann Hákon vin sinn til Eiríks Svía konúngs með vináttumálum ok fègjöfum. Eiríkr Svía konúngr tók vel við sendimönnum Gunnhildar; voro þeir með honum í góðu yfirlæti. Litlu síðarr bar Hákon upp sín eyrindi við Eirík konúng, sagði at Gunnhildr hafði konúngi sent orð til þess, at hann fengi Hákoni styrk til at ná sveininum Ólafi Tryggvasyni ok færa henni. Eiríkr konúngr svarar: þat má ek vel gera, at fá þèr lið slíkt sem þú þikkist þurfa, en þó vænti ek, at þú fáer þat eitt eyrendi til Hákonar gamla, sem honum er vel viljat. Hákon gamli átti son, er Rögnvaldr hèt; hann var þá með Eiríki konúngi í miklum kærleikum. Rögnvaldr var við tal þeirra konúngs ok Hákonar ens norræna; bjó hann sik sem skjótazt, ok reið með nökkura menn heim til föður síns; sagði Rögnvaldr honum, at þar mundi skjótt koma sendimenn Gunnhildar konúnga móður með miklu liði, svâ hvert eyrendi þeir höfðu. Litlu síðarr kom þar Hákon enn norræni með mikla sveit manna, er Eiríkr konúngr hafði fengit honum. Hákon gamli fagnar þeim vel. Síðan taka þeir nafnar tal með sèr; segir svâ Hákon en norræni: Gunnhildr konúnga móðir sendi mik

híngat þess eyrendis, at hún býðr með góðvilja virðuligt fóstr Ólafi syni Tryggva konúngs, þikkist svâ helzt mega yfirbæta við sveininn ok frændr hans, en slètta yfir skjótræði sona sinna þat er þeir drápu Tryggva konúng frænda sinn, at fæða upp sveininn með sæmð, ok at halda hann til ríkis þess, er hann er til borinn, þegar hann hefir aldr til. Hákon gamli svarar: djarfliga ok áheyriliga hefir þú framflutt þitt eyrendi; en þvíat Gunnhildr er reynd at því, at hún er full af flærðum ok sviksamligum undirhyggjum, þá trúir móþir sveinsins eigi hennar glysligum fagrmælum, ok fyrir því þarf eigi þetta mál fyrir þèr at seinka, at Ólafr kemr eigi í þína ferð at úvilja Ástríðar, ok aldri kemr hann á vald Gunnhildar, meþan þau vilja hèr dveljast á mínum náðum. Skildust þeir at því; fóro sendimenn í brott, ok komu til Eiríks konúngs; varð Hákon þá alt at segja konúngi, hversu farit hafði með þeim nöfnum. Eiríkr konúngr svaraði: slíks var þar vân, þvíat ekki hefir Hákon látit lut sinn fyrir enn ríkari mönnum enn þú ert hèr í Svíaveldi. Þvínæst bjöggust sendimenn Gunnhildar at fara heim aptr norðr í Noreg; beiddu konúng þá enn fá sèr styrk til at hafa sveininn brott með sèr, hvârt er Hákon gamli vill eðr eigi. Konúngr gerði svâ; fèkk honum nú meira lið enn hit fyrra sinn. En er þeir komu til Hákonar gamla, kravíðu þeir, at sveinninn færi með þeim. Hákon tók því seinliga, ok svaraði svâ: sagða ek

þèr nafni fyri, er þú' komt hèr, svâ sem gánga skal, at Ástríðr skal bæði ráða sínum ferðum ok svâ Ólafs sonar síns, ok svâ er hún komin á mitt vald, at hún skal í engu vera þinn nauðúngarmaðr. Hákon en norræni reiddist mjök orðum hans, hafði hann þá fram harðyrði, ok hèt honum afarkostum, ef hann fengi eigi sitt eyrendi, slíkt sem hann vildi. Hákon gamli svarar: ekki þarft þú at vera svâ stórorðr, þvíat ekki skortir mik afla til at halda einurð minni ok rèttum málum fur ríkari mönnum enn þú ert, þó at þú hafir nú styrk mikinn fjölmennis. Hákon hinn gamli átti þræl einn, er Busti hèt, hann var mikill ok styrkr, ok þótti jafnan heldr æfr í skapi; en er þeir nafnar áttust við orðahnippíngar, sem nú var sagt, þá ljóp Busti fram með mikla mykikvísl ok mjök saurga at Hákoni enum norræna, ok mælti til hans mjök reiðuliga: hver ertu svâ djarfr ok dularfullr sem engi varð furr, er þú þorir at heitast við höfþíngja vârn; nú skaltu kjósa um tvâ kosti, ok er þèr hvârtveggi helztí góðr, at þú dragst íbrottu þegar í stað með alla þína menn, ella veiti ek þèr eilífa skömm með þessi sömu kvísl. Sá þá sendimenn eigi sinn kost annan vænna, enn verða brottu sem skjótazt; komust þeir þó nauðuliga úbarðir undan þrælinum; fóro þeir þá enn furst til Eiríks konúngs, ok síþan norðr í Noreg, ok sögðo Gunnhildi sínar ferðir eigi slèttar, ok þat með at þeir höfðo sèð Ólaf Tryggvason. Lèt hún illa yfir ferð þeirra.

*Spámæli móður Garða konúngs.*

46. Í þann tíma er Gunnhildar synir gengu til ríkis í Noregi, rèð sá konúngr fyrir Garðaríki, er Valdamarr hèt; kona hans hèt Allogia [1]); hún var vitr ok góðgjörn, þó at heiðni [2]) væri í þann tíma. Valdamarr konúngr átti móður mjök gamla ok örvasa svâ at hún lá í rekkju, en þó var hún framsýn af fítons anda sem margir heiðnir menn, þeir sem sögðust segja fur úvorðna luti ok úvísa. En sá var þar siðr jafnan at jóla kveld hit fursta: er menn voro í sæti komnir í höll konúngs, var kerlíngin, moðir konúngs, borin fur hásæti hans, sagði hún þá, ef nökkurr háskasamligr úfriðr væri nálægr konúnginum eðr hans mönnum, ok svâ annat þat er hún var eptir spurð. Svâ bar enn til einn vetr, at kerlíng var inn komin í hallina eptir vana, þá spur konúngr, ef hún sæe nökkura útlenda höfþíngja eðr hermenn vilja ágirnast ríki hans. Hún svarar: eigi veit ek, son minn! nökkurn skaðsamligan hernat eðr úhamíngju þik nálgast eðr þitt ríki, en þó sè ek mikla sýn ok mikils verða: Norðr í Noregi er fæddr fyrir litlu einn konúngs son, sá er hèr mân uppfæþast í Garðaríki, þar til er hann verðr ágætr höfþíngi; eigi mân hann skaða gera þínu ríki; heldr mân hann þat friða ok frelsa, ok margfaldliga auka þína sæmð; hann mun koma aptr umsíðir til sinnar fóstrjarþar, þá er hann er í blóma aldrs síns, ok öðlast

[1]) Arlogia, *B*, *C*. [2]) heiðin, *B*,*C*.

ríki þat er hann er til borinn; hann man skína með mikilli birti ok vegh, ok verða mörgum þjóðum hjálpari í norðrhálfu heims, en þó mun hann skamma stund ríki halda í Noregi. Berit mik nú í brott, segir hún, þó hefi ek helzti margt ok satt talat af þessum manni. Var hún þá brott borin.

Margir úngir menn ok ríkra manna synir stukku or Noregi fyrir ofríki Gunnhildar sona; sumir lögðust í hernat til ýmissa landa; sumir leituðu sèr sæmða til útlendra höfþíngja, sem áðr er sagt, at Haraldr grænski var í Svíþjóð með Sköglar-Tosta. Sigurðr hèt son Eiríks á Ofrostöðum, bróðir Ástríðar, hann var austr í Garðaríki með Valdamar konúngi, ok hafði af honum mikinn metnat ok vald; fýstist Ástríðr, systir hans, þá at fara þángat til hans, þá hafði hún verit 2 vetr í Svíaveldi með Hákoni gamla; var Ólafr son þeirra Tryggva konúngs þá þrèvetr. Hákon gamli kom henni í föroneyti með kaupmönnum nökkurum, ok fèkk henni ok hennar mönnum alla luti vel ok gnógliga þá er þau þurftu at hafa. En er þau komu austr í hafit, komu at þeim víkíngar, þat voro Eistr; tóko víkíngar at herfángi bæði fèið ok mennina, drápu suma, en sumum skiptu þeir með sèr til ánauþar; þar skildist Ólafr við móþur sína; tók þá við Ólafi ok Þórólfi, fóstra hans, ok Þorgilsi, syni Þórólfs, sá maðr er Klerkon hèt; Klerkoni þótti Þórólfr of gamall til þrælkanar, ok þótti ekki forverk í honum, því drap

hann Þórólf, en hafði sveinana með sèr til Eistlands, ok seldi þá þeim manni, er Klerkr hèt, ok tók fyrir hafr einn heldr góðan. Enn þriði maðr keypti Ólaf [1]) litlu síðarr, ok gaf fyrir vesl gott eðr slagníngh, sá maðr hèt Reas, en kona hans hèt Rekon, en sonr hans Rekni [2]); var Ólafr þar með þeim húsbónda lengi síþan vel haldinn, þvíat Reas unni engum mun [minna] Ólafi enn syni sínum. Ólafr var 6 vetr í þessi útlegð á Eistlandi. Reas bóndi hafði ok keypt Þorgils, son Þórólfs lúsaskeggs [3]), hann var þjáðr til vinnu sem aðrir [mansals [4]] menn. Þá kom til Eistlands Sigurðr Eiríksson móðurbróðir Ólafs, hann var sendr af Valdamar konúngi af Hólmgarði at heimta þar í landi skatta konúngs; fór Sigurðr ríkmannliga með miklu fjölmenni. Þat var einn dag, at Sigurðr reið með sitt föroneyti fram at garði Reas, at sveinninn Ólafr var á leiki með avðrum úngmennum, þvíat Reas vildi fyrir ástar sakir ekki þeá hann, heldr venja hann við íþróttir ok hæversku, svâ ok halda hann at klæðum ok öllum lutum sem sinn eigin son. En er Ólafr sá úkunna menn ríða í garðinn, snèri hann ímót flokkinum, ok heilsaði höfþíngjanum kurteisliga ok öllum þeim. Sigurðr tók vel kveðju hans, ok mælti síþan: þat sè ek á þèr, góðr sveinn! at þú mânt vera hèr útlendr, þvíat mál þitt ok yfirbragð er ekki líkt hèrlendsku fólki.

[1]) sveinana, *F, S*. [2]) Rekin, *B, C*; Rekoni, *F, S*
[3]) járnskeggs, *B*. [4]) þannig *B*; mans *A*.

Nú seg mèr nafn þitt ok kyn, eðr hvar landa þú ert fæddr. Hann svarar: ek heiti Ólafr, í Noregi er ætt mín, ok þar var ek fæddr, faþir minn var Tryggvi Ólafsson, en Ástríðr móðir, dóttir Eiríks af Ofröstöðum ríks mans. Sigurðr kannaðist þá við ætt hans, at þessi sveinn var systurson hans. Sigurðr mælti: hversu komtu hèr, eðr hvat er nú um hagi þína. Ólafr sagði honum þá alt um ferðir sínar, ok þat er yfir hann hafði liðit. Þá mælti Sigurðr: viltu nú vera leystr undan valdi Reas, ok fara braut hèðan. Sveinninn svarar: vel er ek hèr nú kominn hjá því sem furr, þvíat Reas fóstri minn veitir mèr flest þat er ek kann beiða; en þó vilda ek gjarna brottu hèðan, ef Þorgils fóstrbróðir minn væri frelstr af þrældómi, ok færi hann með mèr. Sigurðr bað fylgja sèr til Reas húsbónda, ok svâ gerði hann. Reas fagnaði vel Sigurði ok öllum hans mönnum. En er þeir tóko tal með sèr, mælti Sigurðr: sveina 2 útlenda, þá er í þínu valði ero, vil ek kaupa. Reas svarar; kostr skal þèr at kaupa enn ellrà sveininn at því verði sem vèr verðum á sattir, en hinn ýngri er miklu fríðari ok vitrari en hinn, ok get ek, at þèr þikki mikit kosta at kaupa hann, ok þat er sannast, at svâ mikit ann ek þeim sveini, at hann skal með engu móti í þrældóm seljast; en með því at þú ert reyndr at góðum dreng, þá má vera, at þú náer at leysa hann út hèðan með miklum penníngum, ok þó þvíat eins, ef þú heitr uppá

trú þína, at selja hann eigi við verði, ok halda hann í engan stað verr enn hann er áðr haldinn hèr. Sigurðr svarar: gjör hann svâ dýran sem þú vill, ek skal kaupa hann eptir öllum þessum skildaga sem þú taldir upp, er mèr ok engi hugr á at selja hann, síþan hann kemr í mitt vald, þvíat hann, er minn frændsveinn. En hvârt er þeir talaðu um þetta lengr eða skemr, þá keypti Sigurðr Þorgils fyrir merk guls, en Ólaf fyrir 9 [1]) merkr guls. Flutti Sigurðr sveinana báða með sèr til Hólmgarðs, ok lèt ekki uppvíst fyrir mönnum um ætt Ólafs, en hèlt hann vel at öllum lutum; þá var Ólafr 9 vetra gamall.

*Ólafr Tryggvason drap Klerkon.*

47. Þat var einn dag at Ólafr Tryggvason var úti staddr á torgi, var þar fjölmenni mikit; þar kendi hann Klerkon, er drepit hafði fóstra hans Þórólf lúsaskegg. Ólafr hafði litla öxi í hendi; hann gekk at Klerkoni, ok setti öxina í höfuð honum, svâ at stóð í heila; tók Ólafr laup heim til herbergis, ok sagði Sigurði frænda sínum; en Sigurðr kom honum þegar í herbergi Allogiæ drottníngar, ok segir henni tíþindin, ok bað hana hjálpa sveininum; hún leit á sveininn ok mælti: eigi hæfir at drepa svâ fríðan svein; bað hún þá alla sína menn koma þar með alvæpni. Í Hólmgarði var svâ mikil friðhelgi [2]), at drepa skyldi hvern er mann údæmðan vâ. Nú

[1]) 10, *C, B*; 11, *F, S.* [2]) Mannhelgi, *C*; varðhelgi, *F, B.*

þeystist fram allr lýðr eptir sið þeirra ok lögum, at leita eptir Ólafi, hvar hann væri niðr kominn, vildo [þeir] hann af lífi taka sem lög buðu; þá var sagt, at hann var í garði drottníngar ok þar herr mans alvopnaðr búinn at verja hann; þvínæst kom þetta fyrir konúng, gekk hann til skjótt með sína hirð, ok vildi eigi at þeir berðist, kom hann þá griðum á ok þvínæst sættum, dæmði konúngr bætr fyrir vígit, en drottníng hèlt gjöldum [1]) upp. Síþan var Ólafr með drottníngu, var hann henni mjök elskuligr ok ástúðigr öllu fólki. Þar [2]) voro lög í Garðaríki, at þar skyldo ekki vera konúngbornir menn nema at konúngs ráði. Þá segir Sigurðr drottníngu, hverrar ættar Ólafr var, ok svâ fur hverja sök hann var þar kominn, at hann mátti ekki í síno landi vera fyrir úfriði ok umsátum sinna úvina; bað Sigurðr hana þetta tala fyrir konúngi; hún gerði svâ, ok bað konúng hjálpa við konúngssyni þessum, svâ harðliga sem hann var viðkominn. Kom hún svâ með sínum fortölum, at konúngr játaði því sem hún beiddi. Tók hann þá Ólafr á sitt vald, ok hèlt hann vegliga, sem konúngssyni burjaði at vera haldinn. Dvaldist Ólafr þar 9 vetr í Garðaríki með Valdamar konúngi. Hann var allra manna fríðaztr, mestr ok sturkaztr, ok at íþróttum umfram alla menn norræna, þá èr sögur gánga frá.

1) *þannig B, C, F, S;* gerðum, *A.* 2) þat, *B.*

*Drepinn Erlendr konúngr.*

48. Hákon jarl Sigurðarson var með Haraldi konúngi Gormssyni í Danmerk um vetrinn eptir, er hann hafði stokkit or Noregi frá ríki síno fyrir Gunnhildar sonum. Hákon hafði svâ miklar áhyggjur um vetrinn, at hann lagðist í rekkju, hann hafði andvökur miklar, ok drakk eigi meira enn hann mátti halda sturk sinum. Hann sendi menn um haustit leyniliga norðr í Þrándheim til vina sinna, ok lagði þat ráð fyrir þá, at þeir skyldi drepa Erlend konúng, ef þeir mætti; segir hann sik aptr mundo hverfa til ríkis síns, þá er sumraði. Þann vetr drápu Þrændir Erlend konúng, sem furr er ritað. Með þeim Hákoni ok Gullharaldi var vinátta kær. Bar Haraldr fyrir Hákon ráðagerþir sínar; sagði Haraldr, at hann vildi þá setjast at landi, ok lètta af hernaði. Hann spur Hákon, hvat hann ætlaði, hvârt Haraldr mundi skipta ríki vit hann, ef hann krefði. Hákon svarar: þat hygg ek, at Haraldr Dana konúngr muni engra rèttinda [1]) unna [2]) þèr, en þó veiztu gjör, ef þú ræðir þetta mál fyrir konúngi; vænti ek, at þú fáer eigi ríki, ef þú krefr eigi.

*Gullharaldr beiddist skiptis á Danmörk.*

49. Litlu síðarr talaði Gullharaldr við Harald konúng frænda sinn, svâ at nærr voro margir ríkir menn beggja vinir; krafði þá Gullharaldr konúnginn at skipta ríki við sik í helm-

[1]) skipta, *F.* [2]) varna, *B*, *C.*

ínga, svâ sem burðir hans voro til ok ætt þar í Danaveldi. Þessum orðum varð Haraldr konúngr reiðr mjök, ok svaraði svâ: engi maðr dirfðist at krefja þess Gorm konúng föður minn, at hann skyldi gjörast hálfkonúngr yfir Danaveldi, eigi heldr hans föður Hörðaknút eþr Sigurð orm í auga, nè Ragnar loðbrók. Hann gerði sik þá svâ reiðan ok óðan, at ekki mátti orðum við hann koma. Gullharaldr undi þá miklu verr enn áðr, hafði nú reiði konúngs en ríki ekki heldr enn furr; kom hann þá til Hákonar vinar síns, ok segir honum sín vandræði, ok bað hann heilla ráða ef til væri, at hann mætti ná ríkinu, sagði at hann hafi þat helzt hugsat, at hann mundi sækja ríkit með styrk ok vopnum. Hákon svarar: þetta skaltu fyrir öngum manni mæla, svâ at konúngr spyri, því at þar liggr við líf þitt, hugsa þat með sjálfum þèr til hvars þú mânt færr verða, þarf til slíkra stórræða, at maðr sè djarfr ok öruggr, spari hvârki til góða luti nè illa, at fram megi gánga þat, er upp er tekit, en hitt er úfært, at hefja upp stórráð ok leggja síþan niðr með úsæmð. Gullharaldr svarar: svâ hefir ek þetta ráð upptekit, at eigi skal ek mínar hendr til spara at drepa sjálfan konúnginn, ef hann vill synja mèr þess ríkis, er ek á með rèttu at hafa; skilja þeir þá ræðu sína. Litlu síðarr gekk Haraldr konúngr til fundar við Hákon, ok tóko þeir tal sitt. Sagði konúngr Hákoni, hvârt til-

kall Gullharaldr hafi haft við hann til ríkis, ok svör þau, er hann veitti, segir hann svâ, at hann vill fyrir engan mun mínka ríki sitt, en ef Gullharaldr vill halda á þessu tilkalli, þá er mèr lítit fyrir at láta drepa hann, þvíat ek trúi honum illa, ef hann vill eigi af þessu láta. Jarl svarar: þat hygg ek, at Gullharaldr hafi þetta svâ fremi upphafit, at hann muni þetta eigi láta niðrfalla; er mèr þess vân, ef hann reisir ófrið hèr í landi, at honum verði gott til liðs, ok mest til vinsælða fur sakir föþur hans, en þat er yðr en mesta úhæfa at drepa frænda yðarn, þvíat allir munu kalla hann saklausan at svâ búnu; eigi vil ek ok þat mitt ráð kalla, at þú görir þik minna mann enn faðir þinn var, Gormr konúngr, jók hann mjök sitt ríki en mínkaði í engan stað. Þá svarar konúngr: hvert er þá þitt ráð, Hákon! skal ek eigi miðla ríkit, ok ráða af hendi mèr þenna ugg? Jarl svarar: kom þú nökkurum dögum síðarr, þvíat ek vil hugsa þetta vandamál, ok mân ek þá veita nökkurn orskurð; gekk þá konúngr brottu ok hans menn.

*Ráðagjörðir Hákonar jarls.*

50. Hákon jarl hafði nú enn hinar mestu áhyggjur ok ráðagjörðir, lèt hann fá menn vera í húsinu hjá sèr; fám dögum síðarr kom Haraldr konúngr til tals við hann; spurði konúngr, ef jarl hefði hugsat þá ræðu, er þeir komu á hinn furra dag. Jarl svarar: þar hefir ek vakat ok hugsat um nótt ok dag síþan, ok finst mèr þat helzt ráð til, at þú hafir ok haldir ríki þat alt, er þinn faðir átti, ok

þú tókt eptir hann, en þú fá í hendr Haraldi frænda þínum annat konúngsríki þat, er hann megi sæmðarmaðr af verða. Hvert er þat ríki, segir konúngr, er ek má fá Haraldi heimolliga, ef ek hefir úskerdt Danaveldi? Jarl svarar: þat er Noregr, herra! konúngar þeir, er þar ero, ero leiþir öllu landsfólki, vill hverr maðr þeim ílt, sem vert er. Konúngr svarar: Noregr er land mikit, þar er fólk hardt ok ílt at sækja með útlendan her, gafst oss svâ, þá er Hákon Aðalsteinsfóstri varði landit, lètum vèr þá lið mikit, en varð engi sigr unninn; er Haraldr Eiríksson fóstrson minn ok knèsetníngr. Jarl svarar: löngu vissa ek þat, at þèr hafit nógan sturk veit Gunnhildar sonum, en þeir hafa yðr þat engu launat nema illu. Nú skulum vèr komast miklu lèttligarr at Noregi enn berjast til með allan Dana her; send þú boð Haraldi fóstrsyni þínum, ok bjóð honum at taka af þèr land í lèn, þat er þeir bræðr höfðo furr hèr í Danmerk; stefn honum svâ á þinn fund, má Gullharaldr þá á lítilli stundu afla ríkis í Noregi af Haraldi Gráfeld. Konúngr mælti: þetta mân mèr kallat ílt verk, at svíkja fóstrson minn. Hákon svarar: þat munu Danir kalla, at betra skipti sè, at drepa heldr víkíng norrænan enn bróðurson sinn danskan [1]). Tala þeir konúngr ok jarl hèr um lánga hríð þar til er þetta semst með þeim.

*Sendiboð Haralds Gormssonar til Noregs.*

51. Gullharaldr kom enn til móts við Hák-

[1]) *þannig, B, C*; sænskan, *A*.

on jarl, ok tala þeir; segir jarl, at nú hefir hann svâ fylgt hans málum, at meiri vân sè, at ríkit í Noregi liggi laust fyrir hónum; skulu við þá, segir hann, halda fèlagskap okkrum, mân ek méga veita þèr mikit traust í Noregi; haf þú fyrst þar ríki. Haraldr konúngr, frændi þinn, er maðr gamall, en á þann einn son, er hann ann lítit, ok þó ekki arfborinn. Talar Hákon við Gullharald, þar til er hann lætr sèr þetta vel líka. Síþan tala þeir optliga allir samt, konúngr, jarl, ok Gullharaldr. Litlu síþarr sendi Dana konúngr menn sína norðr í Noreg á fund Haraldar Gráfelds, var sú ferð búin allvegliga; tók Haraldr gráfeldr vel við sendimönnum; segja þeir þau tíðindi, at Hákon jarl er í Danmerk, ok liggr banvænn ok nærr örviti; þar með segja þeir, at Haraldr Dana konúngr bauð til sín Haraldi gráfeldi fóstra sínum at taka af sèr veizlur, svâ sem þeir bræðr hans höfðo furr haft í Danmerk, ok bað hann finna sik á Jótlandi. Haraldr gráfeldr bar þetta mál fyrir Gunnhildi ok vini sína; lögðu menn þar allmisjafnt ráð til, sumum þótti þessi ferð ekki trúlig, svâ sem þar [var] mönnum fyrir skipat, en fleiri fýstu at fara skyldi, þvíat þá var svâ mikill sultr í Noregi, at konúngar fengu varla fædt fólk sitt; af því fèkk fjörðrinn þat nafn, þar sem konúngarnir sátu lengztum, at hann hèt Harðángr. Árferð var þá í Danmerk til nökkurrar hlítar; hugðust menn þatan mundo faung fá, ef Haraldr gráfeldr hefði þar lèn ok

yfirsókn; var þat ráþit, áðr sendimenn fóro í brott, at Haraldr mundi koma til Danmerkr um sumarit á fund Dana konúngs, ok taka af honum þenna kost, sem hann bauð.

*Hákon jarl bjóst til bardaga.*

52. Haraldr gráfeldr fór um sumarit til Danmerkr, ok hafði 6 lángskip, stýrði einu Árinbjörn [1]) hersir or Fjörðum. Haraldr konúngr sigldi út or Víkinni yfir til Limafjarðar, ok lagð-ist þar at Hálsi; var honum sagt, at Dana konúngr mundi þar skjótt koma. En er þetta spurði Gullharaldr, hèlt hann þángat 9 skipum, hann hafði áðr búit lið þat at fara í víkíng. Hákon jarl hafði ok búit sitt lið, ok ætlaði í hernat, hann hafði 12 skip ok öll stór. En er Gullharaldr var brott farinn, þá kom Hákon jarl til Haralds konúngs, ok segir svâ: nu veit ek eigi nema vèr róim leiðina, ok gjaldim leiþar vitit; nú mân Gullharaldr drepa Harald gráfeld, síþan mân hann taka konúngdóm í Noregi, ætlar þú þèr hann þá tryggvan, er þú færr honum svâ mikinn styrk, er hann mælti þat í vetr fyrir mèr, at hann mundi drepa þik, ef hann kvæmist í færi um. Nú mun ek vinna Noreg undir þik, ok drepa Gullharald, ef þú vill því heita mèr, at ek skal auðveldliga sættast við yðr þar fur, vil ek þá gerast yðarr jarl, ok binda þat svardögum, ok vinna Noreg undir yðr með yðrum styrk, halda síþan landinu undir yðvart ríki, ok gjalda yðr skatta; ertu þá

[1]) Arnbjörn, *alstaðar F, S.*

meiri konúngr enn þinn faðir, ef þú ræðr tveimr þjóðlöndum. Þetta semst með þeim konúngi ok jarli; ferr Hákon þá með liði síno at leita Gullharalds.

*Dráp Gullharalds.*

53. Gullharaldr kom til Háls í Limafjörð, bauð hann þegar Haraldi gráfeld til orrosto; en þó at hann heíði lið minna enn Gullharaldr, þá gekk hann þegar á land, ok bjóst til orrusto, ok fylkti liði síno; en áðr fylkíngar gengu saman, þá eggjaði Haraldr gráfeldr mjök lið sitt, bað menn bregða sverðunum ok berjast hraustliga. Gekk hann þegar fram í öndverða fylkíng, ok hjó til beggja handa; svâ segir Glúmr Geirason í Gráfeldar drápu:

Mælti mætra [1]) hjalta
málm óðinn sá blóði
þróttar orð, er þorði
þjóðum völl at rjóða;
víðlendr of bað vinda
verðúng Haraldr sverðum
frægt þótti þat flotnum
fylkis orð, at morði.

Þar fèll Haraldr gráfeldr; svâ segir Glúmr:

Varð á víðu borði
viggjum hollr at liggja
gætir gamla [2]) sóta
garðr [3]) ey Limafjarðar;

---

[1]) *kannske* mætr á; motra, *F.* [2]) glamma, *Hk.*
[3]) garðs, *Hk.*

sendir fèll á sandi
sævar báls at Hálsi,
olli jöfra spjalli
orðheppinn því morði.

Þar fèll flest lið Haralds, þar fèll Arinbjörn hersir. Þá voro liðnir frá falli Hákonar Aþalsteins fóstra 15 [1]) vetr at sögn Ara prests Þorgilssonar, en frá falli Sigurþar hlaðajarls 13 vetr; þá var Ólafr Tryggvason 7 [2]) vetra, ok hafði hann þá 4 [3]) vetr verit í útlegð á Eistlandi, en tvâ í Svíþjóð með Hákoni gamla. Svâ segir Ari prestr, at Hákon Sigurðarson væri 13 vetr jarl yfir föþurleifð sinni í Þrándheimi, áðr Haraldr gráfeldr fèll, en 6 ena síðarstu er Haraldr gráfeldr lifði, segir Ari, at Hákon jarl ok Gunnhildar synir börðust um Noreg, ok stukku ýmsir or landi.

*Landaskipti í Noregi.*

54. Hákon jarl ok Gullharaldr fundost litlu síþar enn Haraldr gráfeldr fèll. Lagði Hákon þegar til orrusto við Gullharald, fèkk Hákon sigr, en Gullharaldr varð handtekinn, ok lèt Hákon hann festa á gálga. Síþan fór Hákon á fund Haralds Dana konúngs, ok sættist við hann auðveldliga um dráp Gullharalds, frænda hans; því næst bauð Haraldr konúngr út her um alt ríki sitt; þar var þá með konúngi Hákon jarl, ok þá var til hans kominn Haraldr grænski, son Guðraðar konúngs Bjarnarsonar; fór hann

[1]) 12, *F, S.* [2]) 8, *F, S.* [3]) 5, *B, C.*

með Dana konúngi ok mart annarra ríkismanna, þeirra er flýit höfðo óðöl sín or Noregi fyrir Gunnhildar sonum; hèlt Dana konúngr her þessum sunnan í Víkina, hann hafði 7 hundrut skipa. Gèkk þá landsfólk alt undir hann. En er Haraldr kom til Túnsbergs, dreif til hans mikit fjölmenni, fèkk hann lið þat í hendr Hákoni jarli, er til hafði komit í Noregi. Gaf Haraldr konúngr Hákoni til forráða Rogaland, Hörðaland, Sogn, Firðafylki, Sunnmæri, Raumsdal, Norðmæri; þessi 7 fylki gaf Haraldr konúngr Hákoni jarli til forráða með þvílikum formála, sem Haraldr konúngr enn hárfagri gaf sonum sínum, nema þat skildi, at Hákon skyldi þar eignast ok svâ í Þrándheimi öll konúngs bú ok landsskyldir, hann skyldi ok hafa fè [1]) sem hann þurfti, ef herr væri í landi. Haraldr konúngr gaf Haraldi grænska Víngulmerk, Vestfold ok Agðir til Líðandisness, ok konúngsnafn, ok lèt hann hafa þat ríki með öllu slíku, sem furr höfðo haft frændr hans, ok Haraldr hárfagri gaf sonum sínum. Haraldr grænski var þá 18 vetra; fór þá Haraldr Gormsson heim til Danmerkr með her sinn.

*Gunnhildr ok synir hennar stukku or landi.*

55. Hákon jarl fór með liði síno norðr með landi, en er Gunnhildr ok synir hennar spurðu þat, þá samnaðu þau her, ok varð ílt til liðs; tóko þau þá enn hit sama ráð sem furr,

[1]) konúngs fè, *B, C, F, S.*

at þau hèldo vestr um haf með þat lið, er þeim vildi fylgja; fóro þau furst til Orkneyja ok dvöldust þar um hríð; þar voro áðr jarlar synir Þórfins hausakljúfs: Hlöðver, Arnfinnr, Ljótr ok Skúli. Hákon jarl lagði þá land alt undir sik, ok sat um vetrinn í Þrándheimi; þess getr Einarr skálaglamm í Velleklu:

Sjav fylkjum kom silkis
snúnaðr var þat brúna
geymir grundar síma
grandvarr und sik landi.

Þá er Hákon jarl fór sunnan með landi um sumarit, ok landsfólkit gekk undir hann, bauð hann um alt sitt ríki, at menn skyldo halda upp hofum ok efla blót, ok svâ var gert; svâ segir Einarr skálaglamm:

Öll lèt senn en svinni
sönn Einriða mönnum
hverjum kunn of herjoð
hofs land ok ve banda;
áðr vè jötna vitni
valfalls of sjó allan
þeim stýra goð geira
garðs Hlóriði varði.

Nú liggr alt und jarli
ímun borðs fyrir norþan
veðr gæðis stendr víða
vík Hákonar ríki.

Hinn fursta vetr er Hákon jarl rèð landi, gekk

síld upp um alt land, ok áðr um haustið hafði korn vaxit, hvar sem sáð hafði verit; en um vârit aflaðu menn sèr frækorna, svâ at flestir menn seru [1]) jarðir sínar, ok varð þat brátt árvænt; friðr var þá ok góðr innanlands. Þá voro 2 einir eptir á lífi synir Gunnhildar ok Eiríks konúngs, Ragnfreðr ok Guþröðr; svâ segir Glúmr Geirason í Gráfeldar drápu:

Fellumk hálf þá er hilmis
hjördrífa brá lífi
rèðat oss til auþar
auðvân Haralds dauði;
en ek veit at hefir heitit
hans bróðir mèr góðu,
seá getr þar til sælu
seggfjöld, hvaðartveggju [2]).

Ragnfröðr konúngr Gunnhildar son burjaði um vârit ferð sína vestan um haf til Noregs, þá er hann hafði einn vetr verit í Orkneyjum; hann hafði frídt lið ok skip stór; en er hann kom í Noreg, spurði hann, at Hákon jarl var norðr í Þrándheimi, hèlt Ragnfröðr konúngr þá norðr um Stað, ok herjaði um Sunnmæri, en sumt fólk gekk undir hann, sem optazt verðr, þá er herflokkar gánga yfir land, at þeir, er fyrir ero, leita sèr hjálpar, hverr þángat er vænst þikkir. Hákon jarl spurði þessi tíþindi, at úfriðr var suðr um Mæri, skar hann þá upp herör, ok rèð til skipa, bjóst hann sem hvatligazt, ok hèlt út eptir

[1]) sáðu, B, C. [2]) hvaðartveggi, B, C.

firði, varð honum gott til liðs; fundr þeirra Ragnfröðar varð á Sunnmæri norðarliga, hèlt Hákon þegar til orrusto, hann hafði lið meira ok skip smæri; þar varð hörð orrusta, ok veitti Hákoni þýngra; þeir börðust um stafna, sem þá var siðr til; straumr var í sundinu, ok hóf skipin öll saman inn at landinu; Hákon jarl lèt ok hamla at landi, þar sem honum þótti bezt uppgaungu, en er skipin kendo niðr, gekk jarl ok alt lið hans á land, ok drógu upp skipin, svá at úvinir þeirra máttu eigi út draga; síþan fylkti jarl uppi á vellinum, ok eggjaði Ragnfröð til uppgaungu. Þeir Ragnfröðr lögðu utan at, ok skutust á lánga hríð, vildi Ragnfröðr eigi á land gánga, ok skildu við þat; hèlt Ragnfröðr [1]) liði síno suðr um Stað, þvíat hann óttaðist, at landsherrinn mundi drífa til Hákonar [2]). Hákon jarl lagði ok eigi optarr til orrusto við Ragnfröð at því sumri, þvíat honum þótti burða [3]) munr of mikill; fòr hann um haustit norðr til Þrándheims, ok sat þar um vetrinn. En Ragnfröðr konúngr hafði þá alt fyrir sunnan Stað, Firðafylki, Sogn, Hörðaland, Rogaland; hafði hann fjölmenni mikit um vetrinn. Ok er váraði, bauð hann leiðángri út, ok fèkk lið mikit, fór hann þá um öll þau fylki, at afla sèr liðs ok skipa ok annarra fánga, þeirra er hann þurfti.

[1]) Hákon, *F.* [2]) Ragnfreðar, *F.* [3]) borða, *B;* liðs, *F, S.*

*Hákon jarl barðist, ok hafði sigr.*

56. Hákon jarl bauð liði út, þá er váraði, norðan or landi, hann hafði mikit lið af Hálogalandi ok Naumudal, svâ alt frá Byrðo til Staþar; hafði hann lið af öllum sjálöndum, honum dróst herr af öllum Þrændalögum, svâ ok um Raumsdal; svâ er sagt, at hann hefði lið af 4 fólklöndum, honum fylgðu 7 jarlar, ok hafði hverr þeirra ógrynni hers; svâ segir Einarr:

Hitt var meirr er [1]) mæra
morðlíkinn lèt norþan
fólkverjandi fyrva
för til Sogns um görva;
ýtti freyr af fjórum
fólklöndum sá branda
ullr [2]) stóð af því allri
ýr þjóð Hèðins byrjar.

Ok enn kvað hann:

Glumdi allr þá er ullar
egg þíngs Hèðins veggjar,
gnótt flaut nás fyrir nesjum,
Noregr saman fóro;
ok til móts á meita
mjúk hurðum frá [3]) þorðo
með svörgæli sörva
sjav landrekar randa.

Hákon jarl hèlt her þessum norþan fur Stað;

[1]) at, B, C, F. [2]) uggr, B, C. [3]) fram, B, C.

þá spurði hann, at Ragnfröðr konúngr var farinn með her sinn inn í Sogn; sneri þá jarl þángat sínu liði, varð þar fundr þeirra Ragnfröðar konúngs; lagði jarl skip sín at landi, ok haslaði Ragnfröði völl, ok tók orrustostað; svâ segir Einarr skálaglamm:

Varð fyrir víga [1]) myrði
víðfrægt enn gramr síðan
gjörðist mest at morði
mannfall við styr annan;
hlunnarfi bað hverfa
hlífar flagðs ok lagði
jálks var öndvert fylki
öndur vorp at landi.

Þar varð allmikil orrusta, hafði Hákon miklu meira lið, ok fekk sigr; þetta var á Þínganesi [2]), þar er mætist Sogn ok Hörðaland. Ragnfröðr konúngr flýði til skipa sinna, fellu þar af hans liði 300 manna; svâ segir Einarr í Velleklu:

Straung varð guðr áðr gumnar
gammi náss und hramma
þröngvi meiðr áðr þrýngri
þrimr hundruðum lunda;
knátti hafs af höfðum
hagnaðr var þat bragna
fólk eflandi fylkir
fángsæll þatan gánga.

Eptir orrusto þessa flýði Ragnfröðr konúngr or

---

[1]) Vinða, *Hk.* [2]) Dínganesi, *B, C, F, S.*

Noregi, en Hákon jarl friðaði land, ok lèt aptr norðr fara her þann en mikla, er honum hafði fylgt um sumarit; en hann dvaldist suðr í landi um haustið ok um vetrinn eptir; á þessu sumri, sem nú var frásagt, kom Ólafr Tryggvason austr í Garðaríki, sem furr er ritat, þá var hann 9 vetra gamall.

*Spásögur þeirra í Garðaríki um Ólaf Tryggvason.*

57. Í þann tíma er Ólafr kom í Garðaríki, voro í Hólmgarði margir þeir menn, er spáðo fyrir marga óvorðna luti; þeir sögðo allir eitt af sínum vísdómi, at fylgjur eins útlends mans, úngs at aldri, sè komnar í landit, svâ hamíngjusamligar, at þeir höfðu engis mans fylgjur seeð dýrðligri, en eigi vissu þeir, hverr eða hvaðan hann var, ok þó sönnuðu þeir at með mörgum orðum, at þat hit bjarta ljós, er yfir honum skínn, dreifist um alt Garðaríki ok víða um austrhálfu heims. En með því at drotníngin Allogía var allra kvenna vitrost, þá skildi hún þegar á yfirbragði Ólafs, sem hún leit hann hit fursta sinn, at þessi sveinn mundi vera þeirrar háleitrar giptu, sem forspárnar vísaðu til, at hann mundi vinna mikla sæmð Garðaríki; þar fyrir fèkk hann hit mesta yfirlæti af konúngi ok drotníngu, ok góða virþíng af vitrum mönnum ok góðgjörnum; vâx Ólafr þar upp í Garðaríki, ok varð furr algörr at viti ok afli ok öllum þroska enn vetra tali. Valdamarr konúngr elskaði Ólaf svâ sem

hann væri hans eigin sonr, ok lèt læra hann á vígfimi ok riddaraskap ok alsháttar íþróttir, ok höfðíngliga hæfversku; hann fèkk ok skjótari skilníng á allri atgervi enn flestir menn aðrir; en einn var sá lutr at konúngi mislíkaði við hann, at hann vildi aldri dýrka heiðin skurðgoð, ok setti hug sinn mjök í mót öllum blótskap; jafnan fór hann með konúngi til hofs, en aldri gekk hann inn, stóð hann úti hjá hofsdurum, meþan konúngr fórnfærði goðonum; konúngr ræddi um opt, at hann skyldi eigi svâ gera, at hann fengi reiði guðanna, ok týndi þar fur blóma æsku sinnar, ok því bið ek þik, segir konúngr, at þú vegsamir guðin ok mýkir þik til þeirra með lítillæti, þvíat ella er ek hræddr um, at þau steypi yfir þik nökkurri ógn sinnar stormsamligrar ógnar ok grimðar, svâ mikit sem þú átt í hættu. Ólafr svarar: aldri hræðumst ek þau guð, er þú göfgar, þvíat þau hafa ekki mál, enga sýn nè heyrn, ok þau kunna enga skynsemdar grein; en af því þikkjumst ek helzt mega skilja, hverrar náttúru þau munu vera, at mèr sýnist jafnan þín konúnglig tign, fóstri minn! ok áseá með blíðu ok björtu yfirbragði, utan þá er þú ferr í hofit ok færir fórnir guðunum, þá sýnist mèr þú með dökku yfirbragði ok úhamíngjusamligu, ok þaðan af veit ek, at þessi guðin, er þú þjónar, mânu eiga myrkrunum at stýra, ok því

skal ek þau aldri tigna, en ek geri þeim fyrir þat enga úsæmð, at ek vil [þik] eigi styggva.

*Herferð Ólafs konúngs hin fyrsta.*

58. Svâ segist, at þá er Ólafr Tryggvason var 12 vetra, beiddi hann fóstra sinn fá sèr herskip ok lið; konúngr lèt þat þegar til reiðu; bjó hann þá skip sín ok herlið; ok áðr hann fór brottu, spurði hann konúng, ef nökkurar væri þær borgir eþr hèrath, er furr hefði legit undir Garða konúng, en nú væri undan horfnar hans ríki. Konúngr segir, at þat voro mörg ok stór ríki, er löngu höfðu legit undir Hólmgarð, en nú höfðu aðrir höfðíngjar ok hermenn undir sik tekit með valdi ok hernaði. Þvínæst sem konúngr hafði sagt Ólafi alla grein á þessu máli, hèlt Ólafr fursta sínn herskipum or Görðum, hann hafði frídt lið ok ekki mikit. Þat var siðr víkínga, ef konúngasynir rèðu fyrir herliði, at þeir voro kallaðir konúngar, þó at þeir rèði eigi fyrir löndum; fyrirþví gáfu liðsmenn Ólafi konúngs nafn; sýndist þá brátt hversu góða stillíng hann kunni þegar á herstjórninni, þó at hann væri úngr at aldri, þvíat hann drap suma höfðíngja en sumum stökkti hann brottu, þeim er með rángindum ok víkíngskap höfðo sezt í skattlönd Valdamars konúngs; átti hann viðr þá margar orostor, ok fèkk í öllum sigr, ok vann aptr á fursta sumri öll þau ríki ok skattlönd sem undan Valdamar konúngi höfðo gengit. Kom hann aptr til Hólmgarðs um haustið, ok hafði margar

ok fágætar gersimar, at færa konúngi ok drotníngu í gulli ok gimsteinum ok dýrðligum klæðum; tók konúngr ok drotníngh ok öll alþýða við honum með gleði ok fagnaði; leið svâ fram um hríð, at Ólafr var í hernaði á sumrum, ok varði Garðaríki með hreysti ok harðfengi fyrir víkíngum er ágengu, en vann undir Valdamar konúng margar borgir ok hèruth í Austrvegi. Hann var optast í Hólmgarði á vetrum með sæmdar yfirlæti af konúngi ok kærleik af drotníngu; hèlt hann þá seálfr mikla sveit hermanna með sínum kostnaði, þeim er konúngr veitti honum. Ólafr var avrr af fè við sína menn, því varð hann vinsæll. En þá varð þat, sem opt kann henda, þar er útlendir menn hefjast mjök til ríkis, eðr svâ til mikillar frægðar, at þeir verði um fram innlenzka menn, at margir öfundaðu þat, hversu Ólafr var kærr konúngi ok eigi síðr drotníngu. Mæltu þeir menn þat fyrir konúngi, at hann skylde gera Ólaf eigi of stóran, fyrir því, sögðo þeir, at slíkr maðr er hættaztr, ef hann vill sik til þess hafa, at gera þèr mein eðr þínu ríki, er svâ er um fram aðra menn at íþróttum búinn, vinsæld ok atgervi; vitum vèr ok eigi, hvat þâu drotníng tala jafnan. Þat var siðr mikill enna ríkaztu konúnga[1]), at drotníng skyldi eiga hálfa hirðina, ok halda með sínum kostnaði, ok hafa þar til skatta ok skyldir sem þurfti. Nú

[1]) þannig B, C, F, S; manna, A.

var þar svâ með Valdamar konúngi, at drotníng hafði eigi minni hirð enn konúngr, ok keptust þau mjök um ágæta menn, vilde hvârtveggja til sín hafa. Nú gjörðist svâ, at konúngr festi trúnat á þeirra manna ræðum, er rægðu Ólaf. Gjörðist konúngr nakkvat styggr ok fárr til hans; en er Ólafr fann þat, sagði hann drotníngu, ok þat með, at hann fýsist at fara í Norðrlönd, sagði, at frændr hans höfðo þar furr ríki haft; þikkir mèr þat líkazt, segir hann, at þar verði þroski minn mestr. Drotníng bað hann vel fara, sagði, at þar mundi hann þikkja göfugr, sem hann væri; þessa getr í Rekstefju, er ort er um Ólaf Tryggvason, at hann fæddist upp í Görðum:

Vegmildr víðrar foldar
vörðr þá fóstr í Görðum
vellbjóðr vísa dáðir
vann sá er hærst gekk manna;
blikrauðr brigða miklum
brátt rèð hann þeims átti
allprúdt èla þróttar
Ólafr skipa stóli.

Síþan bjó Ólafr skip sín ok lið, ok hèlt austan or Görðum í Eystrasalt; skipin voro skörut skjöldum á bæði borð, örskreið ok töldu vel fyrir vindinum. En er Ólafr konúngr sigldi austan, kom hann við Borgundarhólm, veitti þar upprás ok herjaði, en landsmenn sóttu ofan, ok hèldo orosto við hann, fèkk Ólafr konúngr sigr ok mikit

herfáng; svâ segir Hallfreyðr vandræðaskáld í drápu þeirri, er hann orti um Óláf konúng:

Hilmir lèt at hólmi
hræskóð roðin blóði,
hvat of dylði þess hölda,
hörð ok austr í Görðum.

Eptir orustona lá Ólafr konúngr með liði síno fyrir Borgundarhólmi; fengu þeir þar storm veðrs ok stóran seá, svâ at þeir máttu þar eigi viðhaldast; sigldo þeir þá suðr undir Vindland, fengo þar höfn góða, fóro alt með friði ok dvöldust þar um hríð. Burizlafr hèt konúngr í Vindlandi, hann átti 3 dætr, hèt ein Geira, önnur Gunnhildr, þriðja Ástríðr. Geira konúngs dóttir hafði verit gipt, hafði hún mist bónda sinn, hún var kvenna fríðust sýnum ok hinn mesti skörúngr. Geira rèð þar ríki með drotníngarnafni eptir bónda sinn, sem Ólafr hafði höfn tekit; hennar ræðismaðr hèt Dixin, hann var höfþíngi mikill, vitr ok vinsæll. Höfuðborg sú, er Geira sat í lengztum, var skamt á land upp frá herskipum Ólafs.

*Vetrvist Ólafs konúngs hjá Geiru.*

59. Þat var einn dag at Dixin ræðismaðr kom inn í herbergi til drotníngar; hún frètti tíðinda; hann svarar; ek kann engi tíþindi at segja nema þau er þú hefir frètt, at úkunnir menn ero hèr við land komnir með mörgum skipum, ræðr þar fur liði einn ágætr maðr bæði at ætt ok ásýndum, er nefnist Óli enn girzki, ok kveðst

vera einn kaupmaðr, en ek segi þat uppá skynsemd [mína], at mèr sýnist hann hraustligr herkonúngr, þvíat jafnfríðan mann sá ek aldri at áseónu ok yfirbragði, hann hefir fögr augu ok svâ snarlig, mikill er hann at vexti, ok allr hans líkamr er svâ fagr ok náttúrliga skapaðr sem hverr ágætr maðr mætti sik kjósa. Drotníngin tekr þessu öllu vel sem Dixin sagði, sendi hún hann síþan til skipa með sínum erendum. Dixin kom til skipa, en er hann fann Ólaf konúng, segir hann svâ: þat er mönnum kunnigt, at hèr, sem þèr erot við land komnir, ræðr ríki ein ágæt drotníngh, er heitir Geira, dóttir Burizlafs konúngs; nú fyrir því at þèr farit með friði, sem hún hefir spurt, ok gerit engan hernat eðr únáðir hennar ríki, þá er þat hennar orðsending, at hún býðr þèr ok öllu þínu liði til vetrvistar í þá höfuðborg þessa ríkis, sem hún seálf sitr í með sínum höfþíngjum ok hirðsveitum, þvíat nú er mjök áliþit sumar en veðrátta hörð ok stormar miklir. Ólafr konúngr þá þetta boð glaðliga; settu þeir upp skip sín, ok bjöggu um vel, en skipreiða ok annan varnat fengu þeir til varðveizlu Dixin ræðismanni, fóro síþan til borgarinnar; tók drotníng við þeim með hinum mesta blíðskap ok góðvilja; sátu þeir þar um vetrinn með mikilli sæmð ok virþíng; áttu þau Ólafr konúngr ok drotníng laungum tal saman, ok þókknaðist hvârt öðru vel; ok á þeim vetri bað Ólafr konúngr Geiro drotníngar sèr til eigin-

konu. Hún bar þetta mál fyrir Dixin ræðismann sinn, ok aðra frændr sína ok vini, en allir töluðu eitt um, sögðo at henni væri þetta hit [mesta] sæmðarráð; sagði Dixin, sem satt var, at öllu hennar ráði ok ríki mundi þat vera hinn mesti sturkr, ef svâ ágætr hölþíngi, sem Ólafr var, vildi þar staðfestast ok nema yndi; var þat þá at ráðum gert, at Ólafr konúngr fèkk Geiro drottníngar, var sú veizla en virðuligazta; tók hann þá ráð ok ríkisstjórn með henni; varð honum brátt heyrinkunnigt, at margar borgir ok hèroth þar á Vindlandi höfðo legit undir ríki Geiru drotníngar, er þá hölðo undan horfvit með öllum skattgjöldum ok lýðni viðr hana. Fór Ólafr konúngr um vetrinn með her sinn til þeirra borga; hann settist um eina borg ríka ok fjölmenna, hann bauð borgarmönnum grið, ef þeir vildi gjalda skatt eptir rèttindum, sem þeir voro skyldir. Borgarmenn æptu í mót, sögðust aldri skyldo fur honum uppgefast, eðr honum skatt gjalda. Síþan barðist hann á borgina, ok gerði til margar vígvælar, ok gat unnit um síðir; fóro þá borgarmenn svâ, at þeir einir þágu lífit, er með mjúklæti báðu sèr griða; fengu þeir þar mikit herfáng. Þá settist Ólafr um aðra borg fjölmenna ok mjök styrka; borgarmen gengo út á veggina ok segja svâ til hans: spurt höfum vèr, hversu mikinn styrk þú hefir, ok hversu herfiliga þeim hefir tekizt, er meðr ofrkappi ok illvilja vildo rísa í mót

yðr, því viljum vèr taka annat ráð, þat er oss sýnist bæði snjallara ok vitrligra; at gefast upp sealfviljandi á yðvart vald ok miskun, heldr enn stríða með fávizku móti yðvarri háleitu hamíngju, er yðr styðr ok styrkir alla vega, þvíat þat gefr oss at skilja, at þó at eptir boði náttúrunnar hafi farsælan [1]) oss lengi fylgjusavm verit, þá er með engu móti treystanda á hennar hverfanda hvæl, þvíat þat kann opt undan velta þá er minst varir; ok til marks at sýna vârn góðvilja, þá gefum vèr upp vârn stað, lúkum upp hliðum, ok leyfum yðr inngaungu. Ólafr konúngr varð glaðr við þessa ræðu, ok hèt þeim makligri ok mikilli ömbun eptir tilgerðum; bjóst þegar með sitt lið at gánga í borgina. En er hann var innkominn með fá menn, þá var hleypt fyrir hliðit stórum járnhurðum ok sláð ramınliga, þustu þá borgarmenn hvaðan æfa at þeim með alvæpni or húsum ok herbergjum, ok eggjaði hverr annan, at enginn konúngs manna skyldi undan komast; konúngr ok hans menn tóko við vel ok vörðust með drengskap, þeir stóðu allir samt einshvers staðar við múrinn. Konúngr sá, at eigi mundi svâ búit lýða; hann mælti þá til sinna manna: gjörit þèr allir samt þvílíkt, sem þèr seáit mik gera; hopaði konúngr þá upp á borgarvegginn, þvíat lágt var innan á, ljóp hann þá út af múrinum, þat var furðo hátt laup, en þó sakaði hann ekki, þvíat blautt

[1]) *þannig B, C, F, S;* úsælan, *A.*

var undir; síþan ljópu hans menn, en hann tók við þeim, svâ at allir komu heilir á jörð; því næst veitti hann atsókn at borginni með allan sinn her svâ harða, at á skamri stundo brutu þeir stórt hlið á veggjum borgarinnar, gengu þeir þá upp, en borgarmenn veittu viðrnám, ok tókst þar enn harðazti bardagi, ok lauk svâ, at hvert manns-barn var drepit, þat er í borginni var; tóko þeir at herfángi alt þat er fèmætt var, en brendo borgina at ösku. Lètti konúngr eigi furri við, enn hann hafði allar borgir ok hèroþ lagt undir sik, þau sem undan höfðo gengit valdi ok ríki Geiro drotníngar. Síþan fór hann aptr til sinnar borgar, ok sat þar um vetrinn þat er eptir var. Þessa hernaðar Ólafs konúngs getr í Rekstefju; hèr segir svâ:

Ólafr allra jöfra
allfljótt ok rèð brjóta
varghollr Vinda borgir
vestr hernað rak mestan:
hrælinns [1]) hverju sinni
hljóm vâttandi mátti
sannfróðr sigri ráða
svölnis dóms í rómu.

Hèr segir, at Ólafr rak meira hernat á Vindlandi enn nökkurr konúngr fyrir honum, ok hafði í hverri orosto sigr.

*Ættartölur konúnga ok keisara.*

60. Svâ er sagt, at Arnúlfus hèt maðr heil-

[1]) hrundust, *B*, *C*.

agr, hann var furst jarl á Saxlandi, en síþan erchibiskup í Mezborg [1]); hans son var Angises hertogi á Frakklandi, hann átti Begam Pippins dóttur; Pippinn hèt son þeirra; hans son, Karl faðir Pippins Frakka konúngs, föður [2]) Karlamagnús keisara. Karlamagnús var konúngr yfir Frakklandi 4 ár ens fjórða tigar, en síþan var hann keisari 12 ár Rómverja. Á hans dögum voro þeir stólkonúngar at Miklagarði, Michael, Nícefórus ok Leo. Karlamagnús konúngr átti Hildigarden drotníngu; þeirra son var Hlöðver, hann tók ríki eptir föður sinn, ok var keisari 27 [3]) ár, hann lèk aldreigi nè hló. Á þeim tíma er Karlamagnús var konúngr, þá rèð fur Jótlandi sá konúngr, er Goðefriðus hèt, hann drap Hrærek Frísa höfþíngja, ok skattgildi Frísi. Síþan fór Karlamagnús konúngr með mikinn her ímóti Goðefriðo, þá var Goðefriðus drepinn af sjálfs síns liði, en Hemíngr, bróðurson [4]) hans, tekinn til konúngs. Hemíngr hèlt fram liðinu til móts við Karlamagnús konúng, þartil er þeir fundust við á þá, er Egða [5]) heitir; þar sættust þeir, en Hemíngr andaðist vetri síðarr; þá gerðost konúngar at Jótlandi Sigfröðr [6]), frændi Goðefriði, en annarr hèt Hríngr Anulo, þeir deildo um ríkit ok drógu báðir her at sèr. Umsíðir áttu þeir mikla orusto, ok lauk svâ, at hvâr-

---

1) Matzoborg, *B;* Mozonciaborg, *F*, *S.* 2) var, C. 3) 32, *S.* 4) bróðir, *C.* 5) Egðera, *C*, *S;* Egðrera, *F.* 6) Sigravðr, *B*, *C;* Sigfróði, *F.*

tveggi þeirra fèll. Í þeirri orusto fèllu 10 þúsundir ok 900 [1]) ok 40 [2]) manna. Þá tók konúngdóm sá maðr, er Haraldr hèt; hann var 5 vetr konúngr, áðr hann barðist við Reinfriðum [3]), son Godefriði. Í þeirri orusto hèt Haraldr því til sigrs sèr, ef hann kvæmist or orusto þeirri, at hann skyldi taka skirn með öllu skuldaliði síno. Í þeim bardaga fèkk hann sigr, ok fór litlu síðarr með kono sína ok Hárek, bróðurson sinn, ok mikit Dana lið til fundar við Löðve, son Karlamagnús, er þá var keisari. Var Haraldr þá skírðr ok hans menn í Meginzuborg [4]) á dögum Paschalis páva; fór þá Haraldr aptr í Danmerk, ok með honum Ansgaríus biskup, ok skírði hann þar margt manna. Haraldr varð sóttdauðr, en Hárekr, frændi hans, tók konúngdóm, ok rèð fyrir Jótlandi þar til er Guthormr, bróðurson [5]) hans, barðist við hann. Þá var liðit frá holdgan vârs herra Jesú Krists 862 ár. Í þeirri sókn fèllu þeir báþir ok alt konúngakyn þat, er með þeim var, utan sveinn einn lifði, er Hárekr hèt, ok varð sá konúngr síðan. Ansgaríus biskup fór þá enn í Danmerk til fundar við Hárek ok skírði hann. Hárekr lèt gera kirkju í Rípum, en Haraldr hafði áðr látit gera í Heiðabæ. Ansgaríus biskup andaðist 3 vetrum eptir bardaga þeirra Háreks ok Goðorms; þá er sagt, at Há-

---

[1]) 500, *B*; 800, *C*. [2]) 60, *B*, *C*, *F*., *S*. [3]) Remfridum, *B*. [4]) Megnuzuborg, *B*. [5]) móðurbróðir, *B*, *C*; bróðir, *F*.

rekr kastaði kristni, ok dó litlu síþarr. Eptir þat voro konúngar heiðnir, Sigfröðr ok Hálfdán. Rambertus [1]) var biskup [2]) nærstr eptir Ansgaríum; á 12ta áre hans biskupsdóms andaðist Hlöðver keisari, son Karlamagnús; hann átti 4 sono, er svâ hètu: Lotharíus, Hlöðver, Karl, Pippin; þeir skiptu ríki með sèr svâ, at Lotharíus hafði Borgundíam [3]) ok Lothoríngíam [4]) ok Rómaríki, en Löðver hafði Frakkland ok keisara nafn, Karl Valland, Pippin Aqvitaníam [5]). Þá er Rimbertus hafði biskup verit 12 ár, herjuðu Danir ok Norðmenn á land þat, er Norðmenn kalla Kerlíngaland [6]), en á móti þeim gerði Hlöðver enn úngi Hlöðversson, hann drap af herinum 14 [7]) þúsundir; en 5 vetrum [8]) síðarr andaðist Löðver; á því áre leitaðu Danir ok Norðmenn at hefnast, þeir fóro með miklu liði upp eptir Rín, ok brendu þar allar borgir ok kirkjur, ok höfðu ena æðstu kirkju at hrossahúsi í borg þeirri, er Aqvisgranum heitir. Þeir brendo Kolni ok allar borgir upp með Rín til Meginzo [9]); þá gerði Karl, bróþir Lotharíí, lið móti þeim, þeir fundust við á þá, er Mosa heitir; í Dana liði voro þeir konúngar Sigfröðr ok Guþfröðr, ok synir Ragnars loðbrókar; þeir sættust við keisara, ok lètu skír–

---

[1]) Rimbertus, *B*, *C*, *F*. [2]) erkibiskup, *F*. [3]) Borgúniam, *B*, *S*. [4]) Lotheríngam, *B*. [5]) Eqvítaniam, *B*, *C*. [6]) Borgund, *F*. [7]) 13, *B*, *C*; 4, *F*, *S*. [8]) vetri. F. [9]) Megnizu, *B*.

ast, en litlu síþarr rufu þeir alt sáttmálit ok herjuðu vestr á Frakkland alt til Parísar [1]), en brendo hana; þá kom í móti þeim með mikinn her Arnaldus, er þá var keisari, ok drap af þeim 900 manna. Eptir þat stöðvaðist Dana herr; þá var liðit frá híngatburði vârs herra Jesu Krists 900 [2]) eðr nærr því. En 17 vetrum síþarr var Húno biskup vígðr í Brimum á Saxlandi. Á 12ta [3]) ári þaðan frá fór Heinrikr, er furstr var keisari með því nafni, til Danmerkr, ok færði þá Dani til kristni bæði með blíðmælum, ógnum ok orostum, ok lètti eigi furr enn þeir hètu at taka trú rètta. Síþan fór Húno biskup til fundar við Fróða konúng, er þá rèð fur Jótlandi, ok skírði hann ok alþýðu; þá voro görvar upp kirkjur þær, er eyðst höfðo í Heiðabæ ok í Rípum, þá var ok gjör kirkja í Árósi [4]). Eptir þat sendi Fróði menn til Rómaborgar, ok lèt vígja 3 biskupa til Jótlands at ráði Agapíti páfva; var Hereðus biskup vígðr til Heiðabæjar, en Livedagus [5]) til Rípa, en Rímbrondus [6]) til Áróss; þat var 948 árum eptir holdgan vârs herra, á 12ta áre konúngdóms Ottónis ens mikla. Þar var furr frá horfit konúnga tali, er þeir rèðu fur Danmerk Sigfröðr ok Hálfdán. Eptir þá rèð fyrir Dönum sá konúngr, er Helgi hèt, hann átti bardaga við Ólaf Svíakonúng, ok fèll Helgi

---

[1]) Parisborgar, B, C. S. [2]) 800, F, S. [3]) 17, S.
[4]) Arúsi, B. [5]) Libedargus, B; Libedager, F.
[6]) Rimbertus, B, C, F, S.

þar, en Ólafr rèð lengi síþan fyrir Danmerk ok Svíþjóð, ok varð sóttdauðr. Eptir hann tóko ríki í Danmerk Gyrðr ok Knútr, en eptir þá Siggeirr.

[*Frá Knúti fundna*].

61. Þá er Sigurðr hríngr, faðir Ragnars loðbrókar, var konúngr yfir Svíaveldi ok Dana veldi [1]), ok hann hafði friðat hvârtveggja ríkit, ok sett yfir skattkonúnga ok jarla, þá mintist hann þess ríkis, er Haraldr hilditönn, frændi hans, hafði átt í Englandi, ok fur Haraldi Ívarr enn víðfaðmi; en þat ríki höfðu þá enskir konúngar, hèt sá Íngjaldr, er þá rèð fur, ok er svâ sagt, at hann væri bróðir Pètrs Saxa [2]) konúngs; Íngjaldr var ríkr konúngr. Ríngr konúngr bauð út leiðángri miklum af ríki síno, ok fór vestr til Englands; en er hann kom til Norðimbralands, beiddi hann sèr viðtöku; gekk þar þá undir hann margt fólk; en er Íngjaldr konúngr spurði þat, þá samnaði hann saman her miklum, ok fór í mótRíngi konúngi, ok áttu þeir saman nökkurar orrostur, en í síþarstu fèll Íngjaldr konúngr ok Ubbi, son hans, ok mikill luti liðs þeirra; eignaðist þá Ríngr konúngr Norðimbraland ok alt þat ríki, er átt hafði Íngjaldr konúngr; en áðr Ríngr konúngr færi liði síno vestan af Englandi, setti hann skattkonúng yfir Norðimbraland, sá er nefndr Ólafr, hann var son Kinriks [3]) þess, er sagt er, at væri bróðurson

[1]) vantar í *B*, *C*. [2]) Vestrsaxa, *B*, *C*. [3]) Kirniks, *B*.

Móaldar digru móþur Ívars víðfaðma; fór þá Ríngr konúngr aptr til ríkis síns. Ólafr konúngr rèð lengi Norðimbralandi, þar til er son Ubba konúngs kom til ríkis, sá er nefndr Eava [1]); áttu þeir Ólafr margar orrostor, ok í enni síðarstu flýði Ólafr konúngr, en Eava lagði þá ríkit undir sik. Ólafr konúngr fór þá til Svíþjóðar á fund Ríngs konúngs, setti Ríngr konúngr Ólaf höfþíngja yfir Jótland, var Ólafr konúngr lengi síþan þar skattkonúngr, furst Ríngs konúngs, en síþan Ragnars loðbrókar; hann var kallaðr Ólafr enski, hans son var Grímr gráe, er konúngdóm ok ríki tók eptir föður sinn. Grímr var faðir Auðúlfs avflga [2]), er skattkonúngr var á Jótlandi Ragnars loðbrókar; sonr Auðúlfs hèt Gormr, er enn var skattkonúngr á Jótlandi, hann var kallaðr Gormr enn heimski [3]). Gormr konúngr átti marga þræla, en nökkurir af þrælum hans höfðo verit sendir til Holdsetu [4]) at kaupa þar vín, ok fluttu þeir vínit á mörgum hestum; en er þeir fóro sunnan yfir skóg þann, er Myrkviðr er kallaðr, tóko þeir sèr náttból á skóginum; logn var veðrs; um nóttina, er þrælarnir vöktu, heyrðo þeir barns grát í mörkina, en um morgininn, er lýsa tók, fóro þrælarnir í mörkina at leita barnsins, en skógrinn var bæði þröngr ok murkr; at lyktum nálgaðust þeir barns grátinn,

---

[1]) Eana, *B*, *C*. [2]) auðga, *F*. [3]) barnlausi, *F*.
[4]) Holtzetalands, *B*, *C*, *S*.

þeir fundo þar barn sveipat líndúk, dúkrinn var knýttr saman á brjóstinu, en er þeir leystu knútinn, voro þar í 3 gullhríngar, barnit var vafit undir í silkidúk, þat var sveinbarn hit fríðazta; þeir tóko upp barnit ok höfðo með sèr, þar til er þeir fundo Gorm konung, sýndo þeir honum barnit svâ búit, sem þeir höfðo fundit; konúngr jós svein þann vatni, ok gaf nafn, ok kallaði Knút af knúti þeim, er barnit hafði með sèr; fæddist sveinn sá upp í hirð Gorms konúngs, hann var snimma vitr ok vel at íþróttum búinn um fram flesta menn þá, er þar í landi voro. Gormr konúngr átti engan son, hann unni Knúti fóstra sínum svâ mikit, at hann tók Knút sèr í sonar stað, ok virði hann meira enn alla frændr sína, svâ at hann gaf Knúti konúngdóm eptir sinn dag; þessi var kallaðr Knútr hinn fundni. Gormr konúngr rèð ekki lengi fyrir löndum, hann varð sóttdauðr; en áðr hann andaðist lèt hann Knút taka til konúngs yfir ríki þat alt, er hann hafði haft á Jótlandi; var Gormr konúngr heygðr at fornum sið.

62. Knútr konúngr lèt stefna þíng fjölment, á því þíngi lýsti hann fyrir alþýðo, at þann mann innlenzkan eðr útlenzkan, er honum kunni satt at segja um ætterni sitt, skyldi hann gera auðigan ok ríkan; þetta spurðist víða um lönd. Svâ er sagt, at á einu kveldi komu til hirðar

Knúts konúngs saxneskir [1]) menn, en er þeir náðu at tala við konúng, mælti sá er fyrir þeim var: er þat með sannindum, herra! at þèr hafit heitit þeim manni miklu ríki er þèr kynni at segja ætt þína. Konúngr segir at þat var satt, ok sór um at þat skyldi hann vel efna. Gestrinn mælti: skulu þenna kost jafnt eiga þrælar sem frjálsir menn. Konúngr segir at þat skal alt at einu. Þá mælti gestrinn: þat er þèr, konúngr! þá furst at segja, at ek ok þessi minn föronautr erum þrælar jarls eins á Saxlandi, en við kunnum sannliga at segja þèr ætt þína. Arnfinnr jarl rèð fyrir Holdzsetulandi, vóro við þá þrælar hans ok þó trúnaðarmenn; en svâ bar til, at jarl gat barn við systur sinni, ok var þat leynt þar til er hún fæddi barnit, síþan var barnit sveipat silkidúkum ok knýtt utan at línduki, ok þar í knýttir 3 gullhríngar, síþan var sveinn sá fenginn í hendr okkr at við skyldim týna; en við fórum í skóginn Myrkvið ok bárum barnit lángt í skóginn, ok lögðum niðr undir viðarrætr, gengum frá síþan. Sögðo þessir menn avll sávnn merki til, hvar þeir höfðo barninu komit, svâ at hinir þrælarnir könnuðust við, er sveininn höfðo fundit. Knútr konúngr gaf þá enum saxneskum [2]) þrælum at leysa sik með til frelsis, bað þá síþan koma til sín; þeir gerðo svâ. En er þeir komu öðru sinni aptr til Knúts konúngs,

[1]) Svenskir, B, C. [2]) svenskum, C.

þá gaf hann frelsi sínum þrælum þeim, er hann höfðo fundit; gaf hann þá hvârumtveggjum leysíngjunum jarldóma ok gerði þá alla ríka menn, sem hann hafði heitið. Þaðan af var hann kallaðr Þræla-Knútr. Hann átti son ok lèt kalla Gorm eptir fóstra sínum. Þræla-Knútr rèð ekki lengi ríki, ok var hann þó frægr konúngr. Eptir þat var til konúngs tekinn Gormr sonr hans, hèlt hann ríki af sonum Ragnars loðbrókar, ok var mest í kærleikum við Sigurð orm í auga, hann fóstraði son Sigurðar ok Blæjo dóttur Ello konúngs; Gormr jós þann svein vatni ok gaf nafn ok kallaði hann eptir Knúti föðr sínum, sá var siþan kallaðar Hörða-Knútr, þvíat þar heitir á Hörðalandi [1]), sem hann var fæddr.

[*Upphaf Gorms Danakonúngs*].

63. Synir Ragnars loðbrókar voro hermenn miklir, þeir hefndo föþur síns ok drápu Ello konúng í Englandi. Gerðist Ívarr enn beinlausi þá konúngr yfir þeim luta Englands, er áðr höfðo átt hans ættmenn ok frændr, hann jók ríki sitt á marga vega, hann lèt drepa hinn heilaga Eatmund [2]) konúng, ok lagði undir sik ríki hans. Svâ er sagt, at Loðbrókar synir hafi rekit mestan hernað í forneskiu um öll þessi lönd: England, Valland, Frakland, Saxland ok alt út um Lungbarði [3]); svâ komu þeir fremzt, at þeir unnu þá borg er Lúna hèt, ok

[1]) Hörð á Jótlandi, *B*, *C*, *F*. [2]) Etmund, *C*. [3]) Lumbarði, *B*; Lunbarði, *C*.

um hríð ætlaðu þeir at vinna Rómaborg; en er þeir komu aptr, skiptu þeir með sèr ríki síno, tók Björn járnsíða Uppsalaríki, Svíþjóð alla ok hvârttveggja Gautland ok öll þau lönd er þar liggja til; Sigurðr ormr í auga hafði [Eigotaland [1]] ok allar eyjar, Skáni ok Halland; Hvítserkr hafði Reiðgotaland ok þar með Vindland. Sigurðr ormr í auga átti Blæjo dóttur Ello konúngs, þeirra son var Hörða-Knútr, sem furr er ritat. Hörða-Knútr var konúngr í Danmerk eptir Sigurð föður sinn á Sælundi ok Skáni. Þá er Hörða-Knútr var fulltíði at aldri ok kvângaðr, gat hann son við konu sinni, þann lèt hann heita Gorm, eptir Gormi fóstra sínum, syni Knúts hins fundna. Gormr son Præla-Knúts hafði verit allríkr konúngr, þvíat hann hèlt alla Danmerk af Ragnars sonum, þá er þeir voro í hernaði. Þá er Gormr son Hörða-Knúts vóx upp, var han allra manna fríðaztr sýnum, þeirra er menn höfðo sèð í þann tíma, hann var mikill maðr ok sterkr ok hinn mesti atgervimaðr um alla luti; en ekki var hann kallaðr vitr maðr, eptir því sem verit höfðo hinir furri frændr hans. Þá er Gormr var roskinn maðr at aldri, fèkk hann konu þeirrar, er Þyri hèt, hún var dóttir Haralds jarls af Jótlandi [2]), er kallaðr var Klakk-Haraldr. Þyri var kvenna fríðuzt ok vitrozt, ok þat er mælt, at hún hafi verit mestr

[1]) *þannig B, C, S;* Selund, *F;* Egiptaland, *A.* [2]) Holsetulandi, *F.*

skörúngr af konum á norðrlöndum; hún var köllut Þyri danmarkarbót. Klakk-Haraldr jarl var kallaðr vitraztr þeirra manna, er þá voro í Danmerk, en siþan, er Gormr tók konúngdóm ok ríki eptir Hörða-Knút föðr sinn, þá hlítti hann mjök ráðum Haralds jarls mágs síns ok Þyri konu sinnar. Gormr konúngr fór með her sinn í þat ríki í Danmerk, er kallat er [1]) Reiðgotaland, en nú er kallat Jótland, á hendr þeim konúngi er þá rèð þar fur, sá var nefndr Gnúpa, þeir áttu saman nökkurar orustor, en svâ lauk, at Gormr feldi þann konúng, ok eignaðist alt hans ríki. Þvínæst fór Gormr á hendr þeim konúngi, er Silfraskalli var kallaðr, ok átti við hann úfrið ok orustor, ok hafði Gormr konúngr jafnan sigr, ok um síðir feldi hann þann konúng. Eptir þat gekk hann upp á Jótland, ok fór svâ herskildi, at hann eyddi öllum konúngum alt suðr til Slès, ok svâ vann hann ríki mikit í Vindlandi. Margar orostor átti Gormr við Saxa, ok gerðist enn ríkazti konúngr. Gormr konúngr gat 2 sono við kono sinni Þyri, hèt hinn ellri Knútr, en hinn ýngri Haraldr. Knútr Gormsson var allra manna fríðaztr ok fegrstr sýnum, er menn hafi sjeth, hann var ok [svâ] þokkasæll, furst at upphafi, at konúngr unni honum um fram alla menn, ok þar með var hann skapfeldr öllu landsfólkinu, at hvert barn unni honum, hann var kallaðr Knútr dana-ást. Har-

[1]) þá var kallat, B, C.

raldr var líkr móþurfrændum sínum, Þyri móðir hans unni honum eigi minna enn Knúti.

*Frá Ívari beinlausa.*

64. Ívarr enn beinlausi var konúngr í Englandi lánga æfi, hann átti ekki barn, þvíat svâ segist, at hann hefði til þess enga fýst nè eðli, en eigi skorti hann spekt nè grimd; hann varð ellidauðr þar á Englandi, ok var þar heygðr; þá voro daudir allir Loðbrókar synir. Eptir þat tók konúngdóm í Englandi Aðalmundr [1]) Játgersson, bróðurson Eatmundar hins helga, ok kristnaði hann víða England, ok tók skatt af Norðimbralandi, er heiðit var. Eptir hann var konúngr Aðalbrikt, hann var góðr konúngr ok varð gamall; á hans dögum ofarliga kom Dana herr til Englands, ok voro þeir bræðr höfðíngjar fur liðinu, synir Gorms hins gamla, Knútr ok Haraldr; þeir herjaðu víða um Norðimbraland, ok lögðo undir sik margt fólk, töldu þeir þat arftekjulönd sín, er átt höfðu Loðbrókar synir ok aðrir margir þeirra forellrar. Aðalbrikt konúngr hafði liðsafnat mikinn, ok fór móti þeim, hann hitti þá fur norðan Kliflönd, ok drap af Dönum margt [manna [2]]. Nökkuru síðarr gengu Gorms synir upp við Skarðaborg ok börðust, ok þar höfðo Danir sigr. Eptir þat fóro þeir suðr með landi ok ætlaðu til Jórvíkr, gekk þar undir þá alt folk, uggðu þeir þá ekki at sèr;

[1]) Ættmundr, *B*; Etmundr, *C*. [2]) *þannig B*, *C*; Norðmanna *A*.

einn dag var skin heitt, ok fóre menn á sund milli skipanna, en er konúngar voro á sundinu, þá ljópu menn af landi ofan ok skutu á þá, þá var Knútr lostinn öru til bana, þeir tóko líkit ok fluttu út á skip; en er þetta spurðu landsmenn, þá dróst þegar herr mikill saman, ok þvínærst kom Aðalbrikt konúngr, ok snèrist þá til hans alt þat fólk, sem áðr hafði gengit undir [1]) Dani; síþan náðu Danir hvergi landgaungu fur samnaði landsmanna, fóro Danir þá brott ok heim til Danmerkr. Gormr konúngr var þá staddr á Jótlandi; Haraldr fór þegar á hans fund, en sagði móþur sinni tíðindin. Gormr konúngr hafði þess heitstrengt, at hann skyldi deyja, ef hann spyrði fráfall Knúts sonar síns, ok svâ sá, er honum segði dauða hans. Þá lèt Þyri tjalda hallina grám vaðmálum, en er konúngr kom til borðs, þögðu allir menn, þeir er inni voro. Þá mælti konúngr: Hví þegja hèr allir menn, ero nökkur tíðindi at segja? Þá svarar drotníng: þèr, herra! áttuð hauka tvâ, var annar hvítr en annar grár, hinn hvíti haukrinn hefir flogit lángt á eyðimerk, ok er hann sat á trè nökkuru, komu margar krákur ok plokkaðu hann svâ, at af honum ero allar fjaðrar, ok er nú fuglinn únýttr, en hinn gráe haukr er aptr kominn, ok mun hann nú drepa fugla til borðs yðr. Þá mælti konúngr: svâ drúpir nú Danmerk, sem dauðr sè Knútr sonr minn. Þá svaraði drotníng: sönn munu þessi tíðindi sem þèr segit, herra! Sönnuðu þat þá

[1]) undan, B, C.

allir þeir er inni voro. Þann sama dag tók Gormr konúngr sótt ok andaðist annann dag at jafnlengðinni, þa hafði hann verit konúngr 10 tígi [1]) vetra; haugr mikill var vorpinn eptir Gorm konúng. Þá var tekinn til konúngs yfir Danaveldi Haraldr son hans, ok var hann lengi konúngr síðan.

[*Keisaratal í Þýzkalandi*].

65. Lavðver [2]) keisari Lavðversson, sonarson Karla-Magnúsar, ríkti með bræðrum sínum, sem furr er ritat, 36 [3]) ár. Eptir þat ríkti Karl son [4]) hans 11 [5]) ár með bræðrum sínum 2, hèt annar Karlomannus [6]) en annar Löðver. Í þann tíma bygðist Ísland, þá rèð fyrir Danmörk Gormr enn gamli, en Haraldr enn hárfagri Noregi. Eptir Karl Löðversson ríkti Arnaldus [7]) son Karlomanni [8]) 12 ár, þá Löðver son Arnoldi 12 ár, þá Konráðr Konráðsson 7 ár, hann var fyrstr keisari þeirra manna, er eigi voro at lángfeðga tali komnir fra Karla-Magnúsi. Eptir Konráð ríkti Heinrekr 18 [9]) ár, þá Otto hinn mikli keisari 38 ár, þá Otto hinn rauði son hans 9 ár, þá Otto hinn úngi, son Otto hins rauða, 18 ár. Í þann tíma var Haraldr Gormsson konúngr at Danmerk ok Noregi, ok Hákon hlaða-jarl hèlt af honum ríki í Noregi, sem furr er sagt, var þá vinátta þeirra góð; sendi Hákon jarl Haraldi konúngi á einu sumri 60 hauka, en galt enga

[1]) 70, *S.* [2]) Hlavðver, *B, C.* [3]) 32, *B.* [4]) bróðir, *F, S.* [5]) 12, *B, F.* [6]) Karlamagnús, *C.* [7]) Armoldus, *F.* [8]) hans, *F, S.* [9]) 17, *F.*

skatta, fyrir því at Dana konúngr veitti honum skattaalla, þá er hann væri í Noregi til starfs ok kostnaðar, at veria landit fyrir úfriði.

*Frá Otto keisara ok Haraldi konúngi.*

66. Otto keisari, er hinn úngi var kallaðr, strengði þess heit, at hann skyldi snúa Dönum til rèttrar trúar, ef hann mætti, ella skyldi hann fara með allan sinn styrk ok afla 3 [1]) sumur í samt, ef hann gæti eigi kristnat furr, ok herja þar. Eptir þessa heitstrengíngu sendi hann boð Haraldi Gormssyni Dana konúngi, at hann skyldi taka skírn ok trú rètta ok alt landsfólk þat er hann stýrði, en at avðrum kosti sagði keisarinn, at hann mundi fara með her á hendr honum. En er þessi erendi komu Dana konúngi, þá lèt hann þegar búa landvarnir sínar, lèt halda vel upp Danavirki, ok bjó herskip sín, hann sendi boð norðr í Noreg, at Hákon jarl skyldi koma til hans snimma um vârit með allan sinn her, þann er hann fengi; bauð Hákon jarl her út um vârit af öllu ríki síno, hèlt hann liði því til Danmerkr, ok fór til fundar við Harald Dana konúng; tók konúngr allþakksamliga við honum. Margir aðrir höfðíngjar voro þá með Dana konúngi, þeir er honum veittu lið; görir konúngr þá bert, at hann ætlaði at halda her þeim til móts við Otto keisara.

*Bardagi Otto keisara við Dana.*

67. Otto keisari dró her saman um vârit

[1]) 6. C.

á Saxlandi, hann hafði mikit lið ok frídt, hélt hann til Danmerkr um sumarit; fundust þeir Haraldr konúngr á skipum, þeir lögðo þegar til orrosto ok börðust allan þann dag til nætr, þar fèll fjöldi liðs af hvârumtveggjum, ok þó fleira af keisaranum, en er nátta tók, settu þeir 3 nátta grið til ráðagerðar ok viðrbúnaðar hvârumtveggjum; en er 3 nætr voro liðnar, gengu á land hvârirtveggju ok biöggust til bardaga, gengu síþan saman fylkíngar, ok varð hin harðazta sókn, veitti keisaranum þá þúngt ok fèll miklu fleira hans lið, ok er á leið daginn, brast flótti í liði hans ok flýðu þeir til skipa sinna. Svâ er sagt, at Otto keisari sat á hesti um daginn ok barðist allfræknliga, en er meginherrinn tók at flýja, reið hann ok undan til skipanna, hann hafði í hendi mikit spjót gullrekit ok alblóðugt upp at höndum, hann setti spjótit í sjáinn fram fyrir sik ok mælti hátt: því skýt ek, sagði hann, til alsvaldanda guðs, at annan tíma, er ek kemr til Danmerkr, skal ek geta kristnat land þetta, eða láta lífit, ok liggja hèr dauðr í Danaveldi. Otto keisari steig þá á skip sín með sitt lið, ok fór heim til Saxlands ok sat þar um vetrinn, en Hákon jarl var eptir með Dana konúngi ok höfðu þeir mikla ráðagerð, lètu þeir þá efla at nýju [Danavirki [1]].

*Viðtal konúngs ok Hákonar jarls.*

68. Um vârit eptir dró Otto keisari her

[1]) *þannig*, *B*, *C*, *F*, *S*, Danaveldi, *A*.

saman úvígjan, hann hafði her af Saxlandi ok Frakklandi, Fríslandi [1]) ok af Vindlandi, fylgði honum Burizlafr konúngr með mikit lið, hann hafði ok mikinn her af Holdsetulandi, flutti keisari allan þann her út í Danmerk. Þá er keisarinn spurði, at Hákon jarl var í Danmerk ok ætlaði at berjast í móti honum með Haraldi konúngi, sendi hann jarla sína tvâ, hèt annarr Urguþrjótr en annarr Brimisskjarr [2]), þeir skyldo fara í Noreg með 30 kugga, hlaðna af mönnum ok vopnum, at kristna þar landit meðan Hákon var í brotto.

*Bardagi keisara ok Hákonar jarls.*

69. Hákon jarl hafði verit í Danmerku með Haraldi konúngi um vetrinn; en er þeir spurðu at Otto keisari var kominn í Danmerk með mikinn her, þá sendi Haraldr konúngr Hákon jarl með allan norænan her þann, er honum hafði fylgt, suðr til Danavirkis, at verja þar landit, en Haraldr konúngr dró sjálfr saman sinn her á Jótlandi; þess getr í Velleklu, at Hákon jarl fór með her sinn til Danmerkr til móts við Dana konúng, ok konúngr sendi jarl at verja Danavirki; þar segir svâ:

Hitt var ok er eykir
örborðs á vit norðan
und sigr runni svinnum
sunnr Danmarkar funnu;

---

[1]) Vallandi, *B*; Finnlandi, *C*. [2]) Brimilskjarr, *B*, *S*; Brimskjarr, *C*.

en hólm fjöturs hjálmi
Hölda [1]) valdr of faldinn
döfra danskra jöfra
dróttinn fund of sótti.

Ok við frost at freista
fémildr konúngr vildi
merkr hloðynjar markar
morðálfs þess er kom norþan;
þá er valserkjar virki
veðr hirði bað stirðan
fyrir hlunn njörðum [2]) hurðar
hagbarða gramr varða.

Otto keisari kom með her sinn sunnan at Danavirki; Danavirki er svâ háttat, at firðir tveir gánga í landit sínum megin landsins hvârr, en í milli fjarþar botnanna höfðo danir gert borgar vegg, bæði háfan ok styrkan, af grjóti og torfvi og viðum, en grafit díki [3]) djúpt fur utan, borgarhlið var á hverju hundraði faðma ok þar kastali yfir [4]) til varnar virkinu, þvíat brúat var yfir díkit fyrir hverju borgarhliði. Otto keisari sótti með sinn her sunnan at Danavirki, en Hákon jarl varði borgarveggina með síno liði, varð þar en harðazta orusta; þess getr Einarr skálaglamm í Velleklu:

Varat ígegn þó at gjörði
garðröknir styr harðan

[1]) Hörða, *B*. [2]) hlíðmorðum, *C*. [3]) breitt ok *bæta við* *B*, *C*. [4]) en í fjölmenni, *bæta við* *B*, *C*.

gengiligt at gánga
geir asar [1]) lið þeirra;
þá er með Frísa fylki
fór gunnviðurr sunnan
kvaddi vígs ok Vinda
vâgs blakkriði Frakka.

Hákon jarl setti fylkíngar yfir öll borgarhlið, en hitt var þó meiri hlutr liðs hans, er hann lèt fara alt með borgar veggjunum at verja þar sem mest var at sótt, fèll þá margt af keisarans mönnum, en þeir fengu ekki unnit at borginni, snèri þá keisari frá at sinni ok fór með sinn her til skipa sinna; svâ segir Einarr:

Þrymr við logs er lögðu
leik miðjúngar þriðja
arngræddir varð oddum
andvígr saman randir;
sundfaxa kom Söxum
sæki þróttr á flótta
þar er svâ at gramr með gumnum
garð óþjóðum varði.

Eptir orusto þessa fór jarl til skipa sinna, ok ætlaði þá at sigla norðr til Noregs, en honum gaf ekki byr, ok lá hann lengi út í Limafirði.

*Unnit Danavirki af ráðum Ólafs.*

70. Ólafr konúngr Tryggvason var einn vetr á Vindlandi, sem áðr er ritat. Snimma um vârit bjó han skip sín ok sigldi í haf, hann hèlt skipum sínum upp undir Skáni, veitti þar upp-

[1]) rásar, B.

göngu, en landsmenn samnaðust saman ok hèldo orosto við hann, þar hafði Ólafr sigr ok fèkk herfáng mikit; síþan sigldi hann austr til Gotlands, þar tók hann kaupskip er Jamtr áttu, þeir veittu vörn mikla, er á skipinu voro, en svâ lauk, at Ólafr vann skipit ok drap margt manna, en tók fè alt; þriðju orrosto átti hann á Gotlandi sjálfu, hafði hann þar sigr en fèkk herfáng mikit; svâ segir Hallfreyðr [1]) vandræðaskáld:

Endr lèt Jamta kindir
allvaldr í styr falla
vandist hann ok Vinda
vegrimmr á þat snimma;
hættr var hersa drottinn
hjördjarfr Gota fjörvi
gullskerði frá ek gjörðo
geir þey á Skáneyju.

Eptir þat hèlt Ólafr konúngr skipunum suðr með Danmerk ok alt suðr til Slees, þvíat hann spurði, at þar var fyrir Otto keisari ok með honum Burizlafr Vinda konúngr, mágr Ólafs, ok þat með, at þeir þurftu liðs við; en er Ólafr fann keisara, bauð hann at veita honum lið með alla sína sveit; keisari leit við honum ok spurði hver hann væri? hann svaraði: úvant er mitt nafn, herra! ek heiti Óli. Keisarinn mælti: þú ert mikill maðr ok hamíngjusamligr, ok allir þínir menn sýnast mèr frækuligir, ok vil ek sannliga

[1]) Hallfreðr, F, S.

þiggja yðra liðsemd. Keisarinn átti húsþíng við ráðgjafa sína ok aðra höfðíngja, hann sagði sva: lítit á góðir höfþíngjar ok gefit ráð til, hverjar framferðir hafa skal, þvíat oss er mikill vandi til handa kominn af því, at allr þessi hinn mikli herr, er hèr er saman kominn, er mjök vistalauss, en Danir hafa kvikfè sitt ok alt annat góds, þat er þeir eiga, flutt þángat undan oss í landit, sem þeir þikkjast helzt geyma mega fyrir vârum höndum, svâ at þessumegin Danavirkis má eigi finna þeirra góds; þat er til mannfæðu megi hafa. Vèr höfum nú átt hèr nökkurar orustor, ok veitir oss erfidt at vinna land þetta. Nú gefit ráð til, hverju vèr skulum framfara, svâ at vèr haldim sæmð vârri. En er keisari hætti at tala, þavgðo flestir, en þeir, sem svaraðu, sögðu at 2 væri kostir til: sá annar, at hverfa frá ok fara heim í ríki sitt, eðr at drepa fararskjóta sína til viðrlifnaðar fólkinu. Keisari svaraði: á þessum ráðum liggja stórir meinbugir, þvíat þat er hit mesta kristnispell skírðum mönnum at eta hross, þeim er öðruvíss mega lengja líf sitt; en ef vèr gefum nú upp stríð þetta at sinni, ok förum heim í ríki vârt, þá kann ek þat seá, at aldri fám vèr annan tíma meira her eðr fríðara at vinna Danaveldi, en mèr seálfum þó hin mesta úsæmð ok úhæfa at níðast á trú minni, þvíat ek hefvir því heitit guði upp á trú mína, at ek skal þessu sinni annathvârt fá kristnat Danmerk, eðr deyja hèr

ella, fyrir því vil ek hvârtveggja þetta ráð únýta, en heyra viljum vèr hvat hinn nýkomni höfðíngi Óli leggr til. Óli svaraði: þat ferr saman um hagi mína, herra! sem eigi er hentazt, ek er ráðagerðarmaðr lítill, en ek hefir þó svâ mikinn metnað á ráðum mínum, at ek mân hèr leggja til með öllu ekki, utan þèr, herra! ok allir yðrir ráðgjafar heitið því, at hafa þat ok halda, er ek legg til. Keisari játar því, ok allir þeir hètu at hafa þat ráð sem Óli legði til. Þá mælti Óli: þat er mitt hit fursta ráð, at þèr leitið þángat fultíngs sem nógt er til, at allr herrinn fasti 6 dægr, til þess at sá guð, er alla luti hefir skapat, gefi oss at sigrast á Dönum, ok láti yðr framkoma síno eyrendi, því sem þèr farit með; þvínæst vil ek at allr herinn fari í skóg þann, er næstr er Danavirki, ok skal hverr maðr höggva limbyrði ok bera undir virkit, ok seám síðan hvat tiltækiligazt þikkir. Nú var góðr rómr gjörr at því er Óli mælti, ok lofaði allr herinn þessa ráðagerð, ok um morgininn snimma fóro menn í skóg ok báru viðinn at virkinu síð um kveldit. En hinn næsta dag eptir gerði Óli þat ráð, at þeir tóko vatzkeröld öll, þau er þeir fengu, ok fyldu upp af spánum, ok báru í tjöru, gjörðo síþan til vâgir eðr slaungur [1]), en hvat sem þeir höfðust annat at, þá lèt Óli suman herinn sækja at virkinu, sem þeir komust við, með skotum ok grjóti, en þeir máttu ekki sækja

[1]) valslöngur, C, F, S.

at virkinu um daga, þvíat Hákon jarl hafði sett fjölda manns í alla kastala, áðr hann fór frá, at verja borgina ef enn kynni herr at koma. Um kveldit síð slógu keisarans menn eldi í vatz keröldin, eptir tilskipan Óla, ok slöngðu at virkinu, lèk eldrinn skjótt tjörgaða spónu í keraldönum. En er loganum sló út um keröldin, festi brátt í liminu, er þeir höfðo borit undir virkit; veðrit hafði verit um daginn kyrt ok bjart, en um kveldit gerði á sunnanvind hvassan ok þurran, ok tók at styrma [1]) svâ sem náttaði; nú sem limit tók at loga, en stormrinn stóð at borginni, þá festi eldinn brátt í kastalonum, er af trè voro gervir, ok svâ var víða borgarveggrinn af viðum, varð þá eldsgángrinn svâ mikill at hvat logaði af avðru, svâ at um morgininn eptir sá engi líkindi Danavirkis nema grjótit. Snèri keisari þa með alt sitt fólk til Slès til skipa sinna, ok fluttist þar með herinn yfir fjörðinn á Jótland, var hermönnum þá eigi lengi vistaskortr, þvíat þar var nógt búfè Dana til strandhöggva. En er Haraldr Dana konúngr spurði at Danavirki var brent, ok Otto keisari kominn á Jótland með allmikinn her, þá fór hann í móti með sinn her; varð þar, er þeir fundust, allmikil orrusta ok laung, en lyktaðist með því, at keisarinn hafði sigr, en Haraldr konúngr flýði undan til Limafjarðar, fèkk sèr þar skip ok fór út í Marsey, fóro þá menn í milli þeirra keisarans, ok varð komit á

[1]) hvessa, *S.*

með þeim griðum ok stefnulagi, fundust þeir þá sjálfir Ottó keisari ok Haraldr Dana konúngr i Mársey. Poppó hèt biskup sá er var með keisaranum, hann taldi trú fur Haraldi konúngi, ok sagði mörg stórtákn almáttigs guðs. En er biskup hafði talat guðs erendi bæði lángt ok snjalt, þá svarar Haraldr konúngr svâ: trauðr er ek at fyrirláta þann átrúnat, sem ek hefir haft ok haldit alla æfi ok mínir frændr ok forellrar fyrir mèr, svâ ekki furlæt ek hann fur orð yðar einsaman, þó at þèr talit fagrt ok mjúkliga, utan þèr sýnit þar með opinber tákn, svâ at eigi megi við dyljast at yðvar trúa sè betri ok rèttari enn vâr trúa. Poppó biskup lèt þá leggja logandi [1]) járnslá í hægri hönd sèr ok bar 9 fet, svâ at allir sá, síþan sýndi hann Haraldi konúngi hönd sína úbrunna. Haraldi konúngi þótti mikils um verdt, er hann sá þetta, tók hann þá trú ok var skírðr ok allr hans herr. Haraldr konúngr hafði sendt orð Hákoni jarli, þá er hann sat í Mársey, áðr enn þeir keisari fundust, at jarl skyldi koma til liðveizlu við konúng. Var jarl þá kominn til eyarinnar er konúngr hafði skírast látit; sendi konúngr þá orð, at jarl skyldi koma á hans fund; en er þeir hittust, þá nauðgaði konúngr jarlinum til at láta skírast, var þá Hákon jarl skírðr ok allir þeir menn er þá voro með honum. Fèkk konúngr þá í hendr

[1]) glóandi, *B*, *C*, *F*, *S*.

jarli presta ok aðra lærða menn, ok segir, at jarl skyldi láta skíra alt fólk í Noregi; skildust þeir at því, fór jarl út til Háls í Limafirði, ok beið þar byrjar. Svâ segja menn, at Ottó keisari veitti guðsifjar Sveini syni Haralds konúngs, ok gaf honum nafn sitt, ok var hann svâ skírðr at hann hèt Ottó Sveinn. Keisaranum þótti ráðagerðin Óla vel hafa gefizt, ok spurði enn Óla, á hverju landi hann væri fæðíngi eðr hver ætt hans væri. Óli svarar: ekki skal nú dyljast lengr fur yðr, herra! ek heiti Ólafr, ek er norænn at ætt, Tryggvi konúngr Ólafsson var faðir minn. Keisarinn svarar: heyrt hefir ek getit föður þíns, en þín meirr; nú vil ek at þú farir með mèr til Saxlands, ok skal ek gera þik mikinn höfþíngja í mínu ríki. Ólafr svarar: hafit þèr þökk fyrir boð yðart, en ek hefir ríki nökkut í Vindlandi, ok verð ek þess at geyma, en gjarna vil ek vera vin yðarr. Keisari segir at svâ skal vera. Eptir þetta fór Ottó aptr til Saxlands í ríki sitt, ok skildust þeir Haraldr konúngr vinir. Haraldr konúngr hèlt vel kristni alt til dauðadags. Burizlafr konúngr fór til Vindlands ok með honum Ólafr Tryggvason mágr hans; þessa stríðs getr Hallfreyðr [1]) í Ólafs drápu er þeir áttu í Danmerk:

Bavðserkjar hjó birki
barklaust í Danmerku

[1]) Hallfreðr, F, S.

hleypimeiðr fur Heiða
hlunn-viggja bý sunnan.

*Hákon jarl kastar trú sinni ok níddist á guði.*

71. Nú er þar til at taka, at Hákon jarl beið byrjar at Hálsi í Limafirði; en er veðr kom þat, er honum þótti sem hann mundi í haf bera, þá skaut hann upp á land enum vígðum mönnum, en hann sigldi þá út á haf; veðrit gekk til útsuðrs ok þaðan til vestrs; sigldi jarl þá í gegnum Eyrarsund, ok herjaði á hvârtvegg-ja land; síþan sigldi hann austr fyrir Skáneyar síðu, ok herjaði hvar sem hann kom við land; en er hann kom austr fyrir Gautasker, lagði hann at landi, ok gerði blót mikit, þá komu þar hrafnar 2 fljúgandi ok gullu hátt, þóttist jarl þá vita, at Óðinn mundi þegit hafa blótit, ok þá mundi jarl hafa dagráð til at berjast, lagði hann þá eld í skip sín ok brendi öll, gekk síðan á land upp með liði síno, ok fór alt herskildi, þá kom á mót honum með miklu liði jarl sá er rèð Gautlandi, hann hèt Óttarr, þeir áttu mikla orusto, fèkk Hákon jarl sigr, en Óttarr jarl fèll ok mestr luti liðs hans. Hákon jarl fór um Gautland hvârttveggja, ok fór alt herskildi, þar til er hann kom í Noreg; þessa getr Einarr skálaglamm:

Flótta gekk til frèttar
felli njörðr á velli,
draugr gat dólga sagu
dagráð Hèðins vâða;

ok haldboði hildar
hrægamma sá ramma,
týr vildi sá týna
teinlautar fjör Gauta.

Háði jarl þars áðan
aungr maðr und ský ranni
hyrjar þíng at herja
hjör lautar kom sörva;
bara maðr lýngs en lengra
lopt varðaðar barða
alt vann gramr um gengit
Gautland frá seá randir.

[*Jarl kemr heim í Noreg*].

72. Þá er Hákon jarl fór austan um Gautland með herskildi, spurðu jarlar keisarans Urguþrjótr ok Brimisskjarr [1]) til ferða hans ok allar tiltekjur; þeir voro í Víkinni, ok höfðu kristnat alla Víkina alt til Líðandisness, þeim þótti ekki friðvænligt at bíða þar Hákonar jarls, ef landsherrinn slægist í móti þeim með honum, flýðo þeir þá brott með öll skip sín, þau er þeir höfðo þángat haft, ok 8 [2]) skip önnur. Þá er Hákon jarl kom í Víkina, varð hann brátt varr hvat jarlarnir höfðu þar athafzt, at þeir höfðo brotit hof en kristnat fólk alt, þar er þeir máttu því viðkoma; lèt Hákon þá gera upp hof öll, þau er niðr voro brotin, ok sendi boð um alla Víkina, at engum manni skyldi hlýða at halda þeim átrúnaði, er jarlar höfðo boþit. Síþan fór

[1]) Brimilskjarr, *B*, *C*. [2]) 9, *F*, *S*.

hann norðr til Þrándheims landvegh, settist hann þá furst um kyrt, rèð hann nú einn öllum Noregi, ok galt aldregi síðan skatt Dana konúngi, var hann síþan at öllu verri ok heiðnari enn áðr hann var skírðr.

[*Herferð Ólafs Tryggvasonar*].

73. Svâ er sagt frá Ólafi Tryggvasyni, at hann hafi aldregi blótat skurðgoð, ok allr þeirra átrúnaðr var honum leiðr mjök, en alt þat, er hann heyrði sagt frá himna guði ok hans stórmerkjum, fell honum harðla vel, en þó hugfesti hann fyrir sèr einna mest þær guðs jarteinir, er hann haíði sjeth í Danmerk. Ok hinn næsta vetr eptir, er þeir Ottó keisari skilðu, sat Ólafr í ríki sino á Vindlandi, en um vârit bjó hann skip sín, ok fór enn í hernað, herjaði hann furst um Frísland, þvínæst um Saxland [1]) ok alt í Flæmíngjaland; svâ segir Hallfreðr:

Tíðhöggvit lèt tiggi
Tryggva sonr fur stýggan
leiknar hest á {lesti [2])
ljótvaxin hræ Saxa;
vin hróðigr gaf víða
vísi margra Frísa
blökku brúnt at drekka
blóð kveldriðu stóði.

[1]) Frakkland, *F*. [2]) þannig *B*, *C*, *F*, *S*; lasti, *A*.

Rógs brá [1]) rekka hægir
ríkr valkera líki,
herstefnir lèt hrafnum
hold Flæmíngja goldit.

*Ólafr Tryggvason þá skjöld af Þángbrandi.*

74. Í þann tíma var Albertus biskup í Brimum á Saxlandi, hans lærisveinn var Þángbrandr son Vilbaldf [2]) greifa af Brimaborg, hann var þá roskinn at aldri, er Hugbertus biskup af Kantarabyrgi bauð Albertó biskupi [3]) til sín, ok gaf honum góþar gjafar ok fóronautum hans öllum. At þessu heimboði var Þángbrandr með biskupi, ok þá er gjafarnar voro framgreiddar, mælti Hugbertus biskup til Þángbrands: þú er lýðskaðr [4]) sem riddarar, þó at [þú] sèr klerkr, því gefr ek þèr [skjöld [5]), þar er á markaðr hinn heilagi kross með líkneski drottins vârs, þat merkir lærdóm þinn; Þángbrandr tók þakksamliga við gjöfinni. Síþan fóro þeir Albertus biskup frá veizlunni. En er þeir komu heim í Saxland, þá var Ólafr konúngr Tryggvason þar fur; fundust þeir Þángbrandr, hann bar þá skjöldinn, þann er Hugbertus biskup hafði gefit honum; en er Ólafr konúngr sá skjöldinn, hugði hann at vandliga, hvat þar var á markat, ok fanst mikit um; hann mælti þá til Þángbrands: hvern dýrðkit þèr, kristnir menn! á krossi

[1]) bar, *Hk.* [2]) Vígbaldi, *B, C.* [3]) bróður sínum, *bæta við B, C, S.* [4]) lyðskyldr, *S.* [5]) þannig, *B, C, F, S*; krosold, *A.*

píndan. Þángbrandr svaraði: drottinn vârn Jesúm krist dýrðkum vèr. Konúngr spurði: hvat misgjörði hann er hann var svâ píndr. Þángbrandr sagði honum þá inniliga frá písl drottins ok táknum krossins. Þá falaði Ólafr konúngr skjöldinn, en Þángbrandr gaf honum. Konúngr mælti: þessi gjöf líkar mèr harðla vel, ok ef þat berr þèr til handa, at þú þikkist af nökkurum manni þurfa at hafa hald eðr traust, kom þá til mín, ok mun ek þá launa þèr skjöldinn, en þó vil ek furst at þú þiggir at mèr lítit silfr. Þángbrandr játaði því; lèt konúngr þá greiða honum verð skjaldarins, ok skildust þeir með vináttu. Siþan sigldi Ólafr konúngr heim um haustit til Vindlands, ok sat þar hinn þriðja vetr.

*Ólafr konúngr merkti sig með krossi.*

75. Þá er Ólafr konúngr Tryggvason hafði verit 3 vetr á Vindlandi, gerðust þau tíþindi, er honum ok mörgum öðrum þar í landi fèkk mikillar hrygðar, at drotníngin Geira kona hans tók sótt þá er hana leiddi til bana. Ólafi konúngi þótti þetta svâ mikill skaði, at hann festi ekki yndi á Vindlandi síþan; rèð hann sèr þá til skipa ok sigldi furst til Danmerkr, ok ætlaði þaðan austr í Garða; má þat ok líkligt þikkja, at við sinn harm mundi hann þángat furst venda, sem hann hafði áðr lengzt verit, ok síno ráði bezt unat. En er þeir lágu til byrjar við Danmörk, gekk Ólafr konúngr á land upp einn dag,

ok tóku þeir strandhögg, sem hermanna siðr er til; við þat vurðu varir landsmenn, ok samnaðust saman ok fóru eptir þeim með miklu fjölmenni. Konúngr ok hans menn fundu eigi furr enn fjölmenni dreif at þeim hvaðan æfa, þeir vildo þá forða sèr, en hittu eigi skjótan útvegh til undankomu, þvíat þar var skógr þykkr ok smár sem þeir voro staddir, en engi örugg [1]) fylskni. Ólafr konúngr ræddi þá til sinna manna með miklu trausti guðs miskunar: ek veit, sagði hann, at sá guð er máttigr, er himnum ræðr ok skapat hefir alla luti, ek hefir ok heyrt at hann á þat sigrmark er mikill kraptr fylgir, þat er kross sá er hann var píndr á; biðjum vèr nú allir lítillátliga þann sama himna guð, at hann skýli oss fyrir sitt krossmark, leggjumst vèr niðr á jörðina, ok tökum tvâ kvistu ok leggjum á oss í mynd krossins. Þeir gjörðu allir sem hann bauð. Síþan fóru at þeim úvinir þeirra með miklum gný ok vopnabraki, þeir er skjótt ætlaðu at grípa þá, þvíat þeir höfðo litlu áðr sèð þá skamt frá sèr; en er þeir mistu þeirra, þá ljópu þeir síþan hèr ok hvar um skóginn, þvíat þeir sá þá eigi, þó at þeir lægi undir fótum þeim, ok hlífði þeim svâ hinn helgi kross með guðs fulltíngi. Landsmenn gáfu upp leitina, en Olafr konúngr ok hans förunautar stóðu þá upp, ok fóro áleiðis til skipa sinna; hinir sá þat, ok sótto hart eptir þeim, varð þá ekki und-

[1]) önnur, *F.*

anbragð konúngs ok hans manna annat, enn at leggjast niðrá jörðina þar sem þeir voro komnir, vænlandi sèr guðs miskunar; en Danir fundo þá nú eigi heldr, er þeir lágu á slèttum velli, enn áðr í þykkum skógi.

*Frá Ólafi konúngi.*

76. Eptir þenna atburð hèlt Ólafr skipum sínum austr í Garða, fèkk hann þar allgóðar viðtökur af Valdamar konúngi ok Allogíe [1]) drottníngu; var hann í Hólmgarði um vetrinn með sína menn. Eina nótt bar fyrir hann í svefni mikla sýn ok merkiliga, honum sýndist einn mikill steinstólpi standa í lopt upp svâ hátt sem hann mátti seá, þessi steinn var utan sem klappaðr væri gráðum eðr pallum [2]), hann þóttist gánga upp eptir steininum svâ lángt, at hann var kominn upp um ský, þar kendi hann svâ sætan ilm, at hann hafði aldri furr slíkan kent, hann litaðist þá um, ok sá alla vega hjá sèr fagra staði, blómgaða með allri unaðsemð, þar sá hann bjarta menn skrýdda hvítum klæðum ok prýdda allri skínandi dýrð, fulla fagnaða, meiri en frá megi segja; því næst heyrði hann ravdd yfir sik upp, svâ segjandi til sín: heyrþu Ólafr, efni góðs mans, margfallast munu verk þín til góðra luta, ok ágætliga ávaxtast guði til dýrþar en þèr til sæmdar bæði í bráð ok lengðar, þvíat þú tignaðir aldri bölvut skurðgoð, ok veittir þeim enga heiðíngliga þjónkan, því mân nafn þitt

[1]) Arlogio, *B*, *C*.   [2]) pöllum, *B*, *C*, *S*.

víðfrægjast um veröldina, en þó skortir þik enn mikit at þú sèr algjörr guðs þjónustumaðr, þvíat þú hefir [enn] eigi fulla skynsemð eðr vissu af guðligum lutum, ok þú ert eigi hreinsaðr í heilagri skírn; þá hræddist Ólafr ok mælti með mikilli áhyggju: hverr ertu, drottinn! at ek megi á þik trúa? Rayddin svaraði honum: far þú til Grikklands, þar mun þèr kunnigt gert nafn drottins guþs þíns, ok ef þú trúir á hann rèttliga ok varðveitir hans boðorð dyggiliga, þá mântu þèr ok mörgum öðrum vísa af davkkum villustigum heiðins átrúnaðar á bjartar götur heilagrar trúar, þvíat gud hefir þik til þess valðan, at leiða marga lýði honum til handa, ok þar fyrir muntu öðlast eilífa sælu ok meiri dýrð enn þú hefir nú sèð hèr. Sem hann hafði þessa luti sèð ok heyrt, ætlaði hann at stíga niðr af steininum, þá sá hann niðr fyrir sik marga hræðiliga staði, fulla af logandi kvölum, ok heyrði ýlur ok örvílnan ok aumligan grát sálna þeirra, er þar voro kvaldar; þar þóttist hann kenna marga höfðíngja ok vini sína, þá er trúat höfðu á heiðin goð, ok þar sá hann ógurliga kvöl fyrirbúna Valdamar konúngi ok Allogíe drotníngu; við þessa sýn alla saman varð hann mjök óttasleginn, ok svâ fèkk honum mikils, at hans augu voro full af tárum, er hann vaknaði. Ok hinn sama morgin, er hann var klæddr, bað hann lið sitt búast í brott þaðan; hèlt hann þá sem skjótast skipum sínum til Grikklands, þar fann hann marga ágæta kennimenn, þá sem

honum gerðu kunnigt nafn drottins Jesú krists, ok segist at þá væri Ólafr primsignaðr. Síþan bað hann biskup þann, er Páll hèt, at hann færi í Garðaríki, ok boðaði þar guðs kristni heiðnum þjóðum. Páll biskup var mikill guðsvin, hann sagði at hann mundi fara í Garðaríki, ef Ólafr færi [fyrir] ok túlkaði hans erendi, svâ at höfþíngjar stæði eigi í móti, at hann mætti þar grundvalla guðs kristni. Fór Ólafr konúngr þá aptr í Garða, ok boðaði þar helga trú, fúrst einsliga konúngi ok drotníngu; stóð konúngr í fyrstu fast á móti en drotníng var alt aftaka minni, en þó kom svâ um síðir, meðr áeggjan drotníngar, at konúngr lèt stefna fjölmennt þíng; En er þar var komit margt stórmenni ok fjöldi fólks, ok þíngit var sett, stóð Ólafr Tryggvason upp ok sagði svâ: ek væntir, herra konúngr! at þèr munut skilja með vitru yðvarri, at þat sem ek hefir fyrir yðr nökkut orði á komit, at yðr ok öllum öðrum, ríkum ok úríkum, er mörgum lutum betra, at trúa á einn sannan guðskapara sinn, þann er gjörði himin ok jörð ok alla luti, sýniliga ok úsýniliga, ok öllum gefr eilífa sælu utan enda á sik rèttliga trúondum ok sèr rèttliga þjónondum, heldr enn villast í svâ miklum murkrum, at trúa á falsöt skurðgoð, þau er því síðr mega öðrum nökkura hjálp veita, at þau sjálf mega hvârgi hrærast or stað, nema þau sè af öðrum borin eðr dregin, svâ sem ek sagða yðr laungu, þá er ek vissa ekki til guðs, at mèr sýndist alt at einu

úvitrligt þeim at þjóna; fyrir því skal ek allan minn starfa ok ástundan til leggja ok aldri af lètta at boða yðr guðs nafn, furr enn ek hefir yðr, konúngr! ok allan þenna lýð leidt af þeim dimma villustig, sem þèr hafit als öflengi gengit, á bjarta vânar götu eilífrar hjálpar. Valdamarr konúngr svarar ræðu hans ok segir svâ: af þeim smá geislum er skína af þínum fagrligum fortölum [til minnar skinsemdar [1]], hopar mer til vânar, at siðferði kristinna manna sè betra enn vârt; en lángr vani forns átrúnaðar heldr mèr aptr, svâ at ek hugfesti lítt þat er þar til heyrir, ok þat annat, at mitt hugskot segir varla hæfa minni fávizku at kasta þeim átrúnaði, er mínir frændr ok lángfeðgar hafa haldit æfinliga alla sína daga hverr eptir annan; því vil ek um þetta vanda mál heyra tillögur, furst drotníngar er miklu er vitrari enn ek, síþan allra annarra höfðíngja ok vârra ráðgjafa. Varð þá mikill rómr at máli konúngs. En er hljóð fèkst, tók drotníngin svâ til máls: þessi maðr Ólafr kom til þín, konúngr! þá er hann var barn at aldri, nýkominn or útlegð ok mikilli ánauð, tókt þú hann útlendan ok úkunnan á þínar náðir, svâ at þú fæddir hann ok fóstraðir svâ elskuliga sem þinn eigin son, kunni hann sèr þat svâ í nyt at færa, at hann efldi ok aukaði yðvart ríki með öllum góðvilja, þegar hann mátti nökkut atfærast fyrir aldrs sakir ok þroska, þaðan af varð hann hug-

1) *bæta við. B, C, F, S.*

þekkr öllum góðum mönnum; nú var hann á brotto um hríð ok gerðist hollr ok heilráðr þeim höfþíngjum er hann átti eigi jafnmikit góðs at ömbuna sem yðr; sýnist hann ok áhyggjusamliga ok með mikilli alvöro framflytja þat áheyriliga erendi, er hann ferr með, er öllum vitrum mönnum mun sýnast heilsamligt: þar fyrir gefr mín samvizka mèr val at skilja, at móþir yður, konúngr! mân þenna mann hafa fyrirsjeth forðum daga, ok margir aðrir spekíngar ok vísdóms menn þessa ríkis fyrirsögðo, at einn útlendr maðr mundi hèr uppfæðast, sá er eigi at eins mundi prýða þetta ríki með björtu ljósi sinnar vitro ok vísdóms, heldr ok víða annarstaðar mundi hans góðleikr fagrliga blómgast; sá ek þetta laungu á hans yfirbragði, ok fanst mèr þá þegar ok æ síþan fleira til hans enn annarra úngra manna; nú er þetta sannara enn þat, er vândir menn grunuðu, at údygð mundi undir búa okkrum kærleikum. Lauk drotníngh með því sinni tölu, at allir lofaðu hennar snild ok vitrleik; lyktaðist með því þíngit, at með guðs miskun ok áeggjan drotníngar hètu allir at taka rètta trú. Í þann tíma kom Páll biskup af Grikklandi í trausti Ólafs konúngs, ok skírði Valdamar konúng ok Allogíam drotníngu ok allan þeirra lýð, ok styrkti þau í heilagri trú. Þenna færði seá hinn trúlyndi þjónustumaðr himnakonúngs hinn fursta ávöxt síns erfiðis sínum herra, þá enn úskírðr, at eptirdæmi hins heilaga Basílií, er op-

inberliga prèdikaði helga trú, furrenn hann væri skírðr. Er þat ok eigi undarligt, at guþ blèsi sínum anda í brjóst þessum manni, primsignaðum undir játníng heilagrar trúar, er hann hafði til þess valdan at prèdika sitt erendi fyrir heiðnum þjóðum, sá er með sinni forseá valdi til erkibiskups fyrir sína kristni Ambrósíum, þá enn eigi skírðan; ok hann sendi sinn engil auðsýniliga at vísa heiðnum Cornelíó hundraðshöfþíngja hjálpar götu til heilagrar trúar, at hann mætti þarfyrir njóta þeirra góðgerninga, er hann hafði áðr lengi gert. Sa hinn sami vârr herra Jesús kristr birtist opinberliga heiðnum Placídó riddara höfðíngja, ok kallaði til sinnar miskunar, þar sem hann vissi ekki áðr til guðligra hluta, þó at hann gjörði marga góða luti. Þessir lutir sem nú voro sagðir um kristniboðan Ólafs Tryggva sonar í Gardaríkí ero eigi útrúanligir, því at ein bók ágæt ok sannfróð, er heitir *ímagó mundí* kveðr skýrt á, at þessar þjóðir er svâ heita: Rúscí, Polaví [1]), Ungaríí kristnaðust á dögum Ottónis þess, er hinn 3 var keisari með því nafni. Sumar bækr segja, at Ottó keisari hafi farit með her sinn í Austrveg ok brotit þar fólk víða til kristni, ok með honum Ólafr Tryggvason.

*Um hernað Ólafs konúngs Tryggvasonar.*

77. Þessu næst bjó Ólafr konúngr skip sín ok lið austan or Garðaríki, hann sigldi furst

[1]) Rutokolani, *B*, *C*.

til Danmerkr ok þaðan vestr um haf; svâ segir Hallarsteinn [1]):

Senn avll síþan runnu
snekkju borð or Görðum
hermörg hala torgut [2])
hildíngs und gram mildum;
vestrlönd virða-kindir
verfákum rèð [3]) herjat
aldyggr arfi Tryggva
Ólafr ok klauf stálum.

Ólafr konúngr hèlt furst til Englands ok herjaði þar víða landit; svâ segir Hallarsteinn [4]):

Blóðugr bragníngs þjóðar
brandr gall á Englandi
oddr jóð enskra lýða
aldr spelli frá ek valda.

Hann sigldi ok alt norðr til Norðimbralands ok barðist þar, þá hèlt hann norðr fyrir [5]) Skotland ok herjaði þar víða; þess getr Hallarsteinn:

Skotland sköfnum [6]) brandi
skjald-frýðr [7]) ok nam ryðja [8])
oddr beit, úlfar savddust,
ódeigr Skota feiga.

Frá Skotlandi sigldi Ólafr konúngr til Suðreyja ok átti þar nökkurar orrustor; síþan hèlt hann

[1]) Markús lögmaðr í Rekstefjo, *F*, S. [2]) urgr *Hk*; norgut, *C*. [3]) lèt. [4]) Markus lögmaðr, *F*, *S*. [5]) til, *F*, *S*. [6]) skömmum *F*, *S*; skygðum, *Sk*. [7]) skjótfróðr, *F*, *S*. [8]) rjóða, *F*.

suðr til Manar ok barðist þar; hann herjaði um Írland, ok brendi þar víða bygðina; svâ segir Hallarsteinn:

Ugglaust Íra bygðir
ókvíðinn rèð víða
el-freyr Ullar kjöla
endr fikula [1]) brendan [2]).

Þá hèlt hann til Bretlands ok herjaði þar viða land; þaðan sigldi hann vestr til Vallands ok herjaði þar; um þenna hernat Ólafs allan saman kveðr Hallfreðr vandræðaskáld:

Gjörðist úngr við Engla
ofvægr konúngr bægja,
naddskúrar rèð nærir
Norðimbra því morði;
eyddi úlfa greddir
ógnblíðr Skotum víða,
gjörði seims með sverði
sverðleik í Mavn skerðir.

Ýdrauga lèt ægir
eyverskan her deyja
týr var tjörva dýra
tírar gjarn ok Íra;
barði brezkrar jarðar
byggendr ok hió tiggi
gráðr hjó [3]) geira hríðar
gjóði valskar [4]) þjóðir.

[1]) ríkula, *F.* [2]) brendar, *B.* [3]) þvarr, *B*, *C.*
[4]) vasckar, *B.*

*Frá viðtali Ólafs konúngs ok vísindamanns.*

78. Ólafr konúngr Tryggvason sigldi vestan af Vallandi [1]), ok ætlaði til Englands [2]), honum bægði veðr ok bar hann til eyja þeirra er Syllíngar heita, þær liggja vestr i hafit frá Englandi, hann lagði til hafnar ok lá þar um hríð. Þá voro liðnir 4 vetr frá því er hann fór af Vindlandi [3]). Þá er Ólafr konúngr lá í Syllíngum, spurði hann at þar í eyjunum var spámaðr nökkurr, sá er sagði fyrir óvorðna luti, ok þótti þat mörgum eptir gánga. Konúngi gjörðist forvitni mikil á at reyna spádóm þessa manns; hann sendi þann af mönnum sínum er mestr var vexti ok fríðaztr sýnum, ok bjó hann sem vegligast, ok bað hann fara til einsetumanns ok segja sik vera konúng, þvíat Ólafr var þá vorðinn frægr at því um öll lavnd at hann var meiri ok fríðari enn aðrir menn, en ekki hafði hann meira af nafni síno, síðan hann fór or Garðaríki hit furra sinn, enn hann kallaði sik Óla, ok sagðist vera girzkr. Sendimaðr kom til spámannsins ok sagðist vera konúngr. Spámaðr svarar: ekki ertu konúngr, en þat er ráð mitt at þú sèr trúrr konúngi þínum; ekki sagði hann þessum manni fleira; fór hann aptr til konúngs ok sagði hversu farit hafði með þeim spámanni; trúði Ólafr konúngr þá, at þessi væri sannliga spámaðr, fýst-

1) Englandi, F, S. 2) Irlands; F, Vindlands, S.
3) kom til Vindlands, S.

ist konúngr þá meirr enn furr at finna hann; fór þá Ólafr á hans fund, ok átti tal við hann. Spurði konúngr eptir hvat spámaðrinn segði, hversu honum mundi gánga til ríkis eðr annarrar hamíngju. Einsetomaðrinn svarar með helgum spádóms anda: þú munt verða ágætr konúngr ok vinna mörg frægðarverk, ok þú munt mörgum mönnum koma til rèttrar trúar ok heilagrar skírnar; mântu bæði þèr ok mörgum hjálpa í því; en til þess at þú efist eigi um þessi mín andsvör, þá máttu þat til marks hafa, þá er þú kemr til skipa, þá mântu þar skipum [1]) mæta ok úvina flokkum, muntu þar eiga bardaga, ok týna nökkuru liði þínu, en sjálfr fá mikit sár, svâ at þú munt af því sári banvænn verða ok á skildi til skips borinn, en þó muntu af því sári heill verða innan 7 nátta, ok síþan skjótt við skírn taka. Eptir þetta fór Ólafr konúngr til skipa sinna, þar mætti hann úfriðar mönnum þeim, er hann vildo drepa ok lið hans, fór alt um þeirra skipti sem einsetumaðrinn hafði honum fursagt, at konúngr var borinn sárr á skip út, ok svâ at hann varð heill á 7 nóttum; þóttist hann þá fullkomliga vita at þessi maðr munde honum sanna luti sagt hafa, ok þat at hann var sannr spámaðr, hvaðan sem hann hefði þann spádóm; fór Ólafr konúngr þá annann tíma at finna þenna mann, spurði hann þá vandliga hvaðan honum kom sú speki, er hann sagði fyrir

[1]) svikum, *B*, *C*; hermönnum, *F*.

úvorðna luti. Einsetumaðr segir at sjálfr guð kristinna manna lèt hann vita alt þat er hann forvitnaðist; hann sagði þá Ólafi mörg stórmerki guðs, ok af hans fortölum hèt Ólafr at láta skírast; fór hann við þat til skipa sinna.

*Ólafr Tryggvason skírðr.*

79. Einn ágætr ábóti rèð fyrir einu ríku klaustri þar í eyjunum, hèlt Ólafr því næst skipum sínum ok öllu liði þángat til klaustrs. En sá guðs maðr, er þar rèð fur, vissi af spáleiksanda þángatkvâmu konúngs: hann kallaði saman alla bræðr, þá er hann átti at stjórna, ok bað þá skrýþast sem virðuligast, þvíat vèr skulum, segir hann, gera prócessíónem til strandar, ok taka sem sæmiligast við skipaliði því sem skjótt mân koma til vâr. En er ábóti var búinn ok allir voro skrýddir, gekk ábóti til strandar með alla bræðr ok marga aðra klerka ok þjónustomenn heilagrar kirkju, þá er hann átti vald yfir; þat var snimma dags. Ólafr konúngr var á land kominn með alla sína menn, þeir sá þá lángt fram fyrir sik [birtu] svâ mikla, at þeir vissu varla í furstu hvat vera munde, þvíat víða ljómaði af er morginsólin skein á þau hin ágætu klæði, er ábóti var skrýddr með ok hans klerkafólk. En er þeir fundust, leiddi ábóti hann til klaustrs síns; ok er þeir höfðo súngit, fagnaðu hvârir öðrum með miklum blíðskap; Ólafr knèfallaði fyrir ábóta með öllu lítillæti, ábóti

reisti hann upp ok kysti, ok talaði svâ til hans: fur skömmu var mèr sýnt ok sagt, hverr þú vart ok hverr þú munt verða, þvíat drottinn Jesús kristr sendi þik af því híngat til eyjánna, at oss hæfir at boða þèr heilsamliga kenníng, ok veita þèr ok þínu liði heilagt skírnar embætti, er þú ok allir aðrir þeir, er taka munu rètta trú, munu eilífa hjálp ok heilsu af hljóta. Slíkum ok mörgum öðrum fögrum orðum talaði ábóti fyrir þeim orðfærliga lángt erendi ok snjalt. En því nærst með [1]) guþs lofi skírði hann Ólaf konúng ok alla hans sveit, dvaldist Ólafr þar lengi ok hans menn ok námu heilögh fræði ok góða siðu at þessum guðs manni ok hans klaustra bræðrum. Ábóti segir Ólafi at hann mundi konúngr verða yfir Noregi, ok til þess valdr af guði at vísa mörgum sálum rèttan veg til síns skapara. Þá var Ólafr Tryggvason hálf þrítögr er hann var skírðr. Þá voro liðin frá holdgan vârs herra Jesú krists 993 ár, þat var á 10da áre ríkis Ottónis keisara hins únga, á 20. ok fyrsta áre Aðalráðs [2]) Engla konúngs.

*Bónorð Ólafs konúngs við Gyðu.*

80. Ólafr Tryggvason sigldi um haustit or Syllíngum til Englands, hafði hann með sèr or eyjunum [3]) presta ok aðra lærða menn; lá hann við England í höfn nökkurri, hann fór þá með friði, þvíat landit var kristit ok svâ hann

---

[1]) *þannig B, C, F, S;* skeðr, *A.* [2]) Aðalsteins, *F.*
[3]) *þannig B, C, F, S;* Orkneyjum, *A.*

sjálfr. En þar fór um landit þíngboð nökkut at allir menn skyldo til þíngs koma; en er þíngit var sett, kom þar drotníng ein, er hèt Gyða, systir Ólafs kvarans er konúngr var at Dýflinni á Írlandi, hún hafði gipt verit einum ríkbornum jarli á Englandi, jarlinn var þá andaðr, en hún hèlt eptir ríkinu; en sá maðr var í ríki hennar er nefndr er Álfvini [1]), kappi mikill ok hólmgaungumaðr, hann hafði beþit Gyðu drotníngar, en hún svaraði svâ: at hún vildi kjör af hafa hvern hún skyldi eiga af þeim mönnum er þá voro í ríki hennar, ok var fyrir þá sök þíngsins kvadt, at Gyða skylde kjósa sèr mann; þar var kominn Álfvini skreyttr hinum beztum klæðum, ok allir voro þeir höfðíngjar ok ríkismenn vel búnir. Ólafr var þar kominn, hafði hann vâsklæði sín ok loðkápu yzt ok steypt hettinum, stóð hann út í frá öðrum mönnum með sína sveit. Gyða gekk ok leit á sèrhvern mann þann er henni þótti nokkut mannsmót at; en er hún kom þar er Ólafr stóð, leit hún á hann öllum megin, síþan lypti hún kápuhetti hans ok sá upp í andlit honum ok mælti: hverr er þessi maðr? hann svarar: ek heiti Óli, er ek hèr útlendr maðr. Gyða mælti: ef þú vill eiga mik, þá kýs ek þik mèr til bónda. Hann svarar: eigi vil ek því neita; hvert er nafn þitt, ætt eðr eðli? ek er, segir hún, konúngs dóttir af Írlandi, var ek gipt híngat til lands jarli þeim er

[1]) Alfinni, eða Alfuni, *B.*

hèr rèð ríki; nú hefi ek stýrt ríkinu síþan hann andaðist, menn hafa beþit mín ok vildi ek engum þeirra giptast, en ek heiti Gyða; hún var úng kona ok allfríð sýnum. Tóko þau síþan tal saman, ok sömðu þetta mál sín ímilli, svâ at hann festi sèr þá Gyðo; þat líkaði Álfvina æfar illa. Í þann tíma var þat siðr á Englandi, ef tveir menn keptust um einn luth, at þar skyldi leggja til hólmgaungu, ok skyldi sá hafa sitt mál er lutr fylgði ok sigr fengi, fyrir því bauð Álfvini Ólafi hólmgaungu um þetta mál; lögðu þeir þá stefnulag með sèr til bardaga, svâ at 12 skyldo vera hvârir. En er þeir bjöggust til hólmstefnu, fèkk Ólafr sínum mönnum, þeim er berjast skyldo, öxar stórar ok bað þá breyta svâ sem hann gerði fyrir, þá er þeir kvæmi til móts við berserkina; hann hafði ok sjálfr mikla öxi. En er þeir komu saman í ákveðnum hólmgaungustað, vildi Álfvini höggva til Ólafs með sverði, en Ólafr laust með öxinni sverþit or höndum honum, ok þegar sló hann annat högg sjálfan hann í svima, tok hann síþan ok batt hann rammliga; fór svâ um alla menn Álfvina at þeir voro bundnir ok barðir, ok leiddir til herbergja Ólafs. Síþan lèt hann Álfvina fara brott af Englandi, ok bað hann aldregi aptr koma, en Ólafr tók allar jarðir hans [1]) ok eignir; því næst gerði hann bruðlaup sitt ok fèkk Gyðo;

---

[1]) hennar, *F*, *S*.

þau gátu son saman, hèt sá Tryggvi ok var enn vænligazti.

*Einvígi Þángbrands við konúngsmann.*

81. Nú er þar til at taka er þeir Ólafr konúngr ok Þángbrandr skildu með vináttu, sem fyrr er ritat; en með fè því, er Ólafr konúngr gaf Þángbrandi fyrir skjöldinn, keypti hann mey írska [1]) ok fagra, fór hann þá heim í Brimaborg með Alberto biskupi ok hafði meyna með sèr; litlu síðarr vildi einn gisl [2]) keisarans taka meyna írsku [3]), en Þrángbrandr stóð fyrir ok vildi eigi rænast láta; gíslinn var hinn mesti kappi ok hólmgaungumaðr, baud hann Þángbrandi til einsvígis, en Þángbrandr játaði því, þeir börðust ok fèkk Þángbrandr sigr ok feldi gíslinn; fyrir þat varð hann landflótti af Saxlandi, fór Þángbrandr þá til Englands á fund Ólafs konúngs, tók konúngr vel við honum, ok lèt vígja hann til hirðprests síns.

*Hèr þiggr Ólafr konúngr hundinn Víga.*

82. Þá er Ólafr konúngr hafði fengit Gyðo ensku [4]), dvaldist hann á Englandi en stundum á Írlandi. Þá er Ólafr konúngr var á Írlandi [5]), bar svâ til einn tíma, at hann var staddr í herför nökkurri með miklu skipaliði, en er þeir þurftu strandhöggva, þá gengu menn á land upp ok ráku ofan fjölda búsmala, þá kom eptir þeim bóndi einn ok bað hann gefa sèr kýr þær [6]), er

[1]) ríka, *B.* [2]) gils, *B.* [3]) í rekkju, *B.*
[4]) innar írsku, *B.* [5]) Englandi, *F. S.* [6]) tvær *F.*

hann átti með hjörðinni er þeir ráku. Ólafr konúngr svarar: haf þú í brotto kýr þínar, ef þú kennir þær ok getr þær fráskilit nautaflokkinum, svâ at þú dvelir með engu móti ferð vâra; en ek hygg at eigi þú ok engi annarr fáe þat leikit við svâ mörg hundrot nauta sem vèr rekum. Bóndinn hafði þar mikinn hjarðarhund, hann vísaði hundinum í nautaflokkana er saman voro reknir; hundrinn ljóp um alla nautaflokkana, hann greinde skjótt [frá], ok rak í brott jafnmörg naut sem bóndinn sagði at hann ætti þar vân, þau naut voro öll einn veg mörkut, þóttust þeir þaðan af vita at hundrinn mundi rètt hafa kent. Þá mælti konúngr: furðu vitr er hundr þinn, bóndi! viltu gefa mèr hundinn? hann svarar: gjarna vil ek gefa þèr hundinn. Konúngr gaf honum þegar í stað mikinn gullhríng ok hèt honum sinni vináttu; sá hundr hèt Vígi, ok var allra hunda spakaztr ok beztr, átti Ólafr konúngr þann hund lengi síðan.

*Hernaðr Haralds konúngs Gormssonar.*

83. Haraldr Gormsson Dana konúngr spurði at Hákon jarl hafði kastað kristni, en herjat víða land hans, sem furr var sagt, þá bauð Haraldr konúngr her út um Danmerk, ok fór síþan í Noreg, ok er Haraldr kom með herinn i þat ríki, er Hákon jarl hafði til forráða, tók hann at herja, drap hann menn alla þá er hann náði, en brendi bygð alla ok eyddi land alt þar sem hann fór, svâ at 5 einir bæir stóðu eptir óbrunnir í Sogni

í Læradal, en alt fólk, þat er því kom við, flýði á merkr ok á skóga með alt lausafè þat, er meðfèkk komizt. Haraldr konúngr kom með her sinn í eyjar þær er Selundir [1]) heita ok lá þar öllu liðinu; svâ segist at hann hefði eigi færra enn 1200 skipa, ætlaði Dana konúngr þá at sigla með her þann allan til Íslands, ok hefna níðs þess, er allir Íslendíngar höfðu nídt hann, svâ at þat var í lögum haft á Íslandi, at yrkja skyldi um Harald Dana konúng níðvísu fyrir nef hvert, er á var landinu; en sú var savk til þess, at skip eitt, þat er íslenzkir menn áttu, braut í Danmerk, en Danir tóko upp fè alt ok kallaðu vâgrek, rèð fyrir fjárupptökunni bryti konúngsins, sá er Birgir [2]) hèt ok var því níðit ort um þá báða Harald konúng ok Birgi, at konúngr vildi ekki rètta þetta mál, er kært var fyrir honum. Ráðgjafar ok höfþíngjar Haralds konúngs lavttu hann Íslands farar, sögðu, sem var, at hafsmegin var svâ mikit til Íslands, at engi var vân í at samflot mætti hafa herr svâ mikill [3]), var Dönum þar úkunnigt til hafna, en fólk á landinu harðfengt ok ilt viðreignar; lattist Dana konúngr þeirrar ferðar, snèri hann þá með liði síno suðr með landi, fór síþan til Danmerkr, en Hákon jarl rèð Noregi ok lèt byggja land alt, þat er Haraldr konúngr hafði brendt ok eydt, ok galt enga skatta síþan Dana konúngi.

[1]) Sólundir, *Hk.* [2]) Birgeirr, *B.* [3]) ok skipastóll, *bætir við B.*

[*Upphaf Jómsvíkínga*].

84. Sveinn son Haralds konúngs, sá er síþan var kalladr tjúguskegg, vóx upp, meþan hann var úngr með einum ríkum höfðíngja, er hèt Pálnatóki, hann rèð fyrir á Fjóni, [en þá er Sveinn var þroskaðr, beiddist hann ríkis af föður sínum [1]], en þá var sem furr, at Haraldr konúngr vildi ekki tvískipta Danaveldi, ok fèkk Sveinn ekki ríki af honum; aflaði Sveinn sèr þá herskipa, ok segir at hann vildi fara í víkíng, en er lið hans var samankomit, hèlt hann skipum sínum til Sjálands ok inn í Ísafjörð, kom þá til móts við hann Pálnatóki fóstri hans með miklu liði; þar lá fyrir á firðinum með liði síno ok skipum Haraldr konúngr faðir Sveins, hann bjóst at fara í leiðángr. Sveinn lagði til orusto við föður sinn, varð þar bardagi mikill, þá dreif lið til Haralds konúngs, svâ ath Sveinn varð borinn ofrliði ok flýði hann, þar fèkk Haraldr konúngr sár þau, er hann leiddi til bana, ok er svâ sagt at Pálnatóki veitti honum þau sár. Pálnatóki var son Pálnis Tókasonar ok Íngibjargar dóttur Óttars jarls af Gautlandi, höfðu þeir frændr Pálnatóki ok hans forellrar ráðit fyrir Fjóni lánga æfi; en er Pálnatóki gerðist landvarnarmaðr Burizlafs konúngs á Vindlandi ok höfþíngi Jómsvíkínga, þá setti hann jarl [2]), er Áki hèt, til forráða á Fjóni, hann var jafnaldri Sveins sonar Haralds konúngs;

[1]) *bætir við B.* [2]) son sinn, *B.*

voro þeir fóstbræðr meðan þeir vóxu upp báðir samt á Fjóni með Pálnatóka. Módir Áka var Álöf dóttir Stefnis, er jarl var á Bretlandi. Í þann tima rèð fyrir Skáney í Danmerk Haraldr jarl, er kallaðr var Strútharaldr, synir hans voro þeir Sigvaldi, Hemíngr ok Þorkell hinn háfi. Sigvaldi var hárr maðr vexti, lángleitr í andliti, bjúgnefjaðr, fölleitr ok eygðr vel; Þorkell var manna hæztr, fríðr sýnum ok rammr at afli. Tófa hèt dóttir [1]) Haralds jarls. Þá rèð fyrir Borgundarhólmi sá höfþíngi er hèt Veseti [2]), kona hans hèt Hildigunnr, þeirra synir voro þeir Búi digri ok Sigurðr er kallaðr var kápa; dóttir Veseta hèt Þórgunna, hún var gipt Áka á Fjóni, þeirra son hèt Vagn, hann var snemmendis bæði mikill ok sturkr, fríðr sýnum, heldr údæll í æsku, ok hinn mesti ofrhugi þá er hann þroskaðist. Búi, móþurbróðir hans, var ekki fríðr sýnum, úeirinn í skapi, bæði var hann hárr ok digr, ok svâ sturkr at menn vissu eigi at honum vyrði nökkut sinn aflfátt. Sigurðr kápa, bróðir hans, var vænn í áseónu, fámálugr ok stiltr vel, en öruggr at hug, hann átti Tófu dóttur Strútharalds [3]) jarls af Skáney. Þessir allir hinir únghu menn, sem nú var frá sagt, synir Strútharalds ok synir Veseta or Borgundarhólmi ok Vagn Ákason, voro komnir til Jómsborgar á Vindlandi áðr enn Pálnatóki var andaðr,

[1]) kona, *B.* [2]) Vjeseti, *atið B.* [3]) Stuttharalds, *atið B.*

ok höfðo gengit undir lögh Jómsvíkínga, þau er Pálnatóki hafði sett. Ok eigi miklu síðarr tók Pálnatóki sótt þá er hann leiddi til bana, var þá Sigvaldi sonr Strútharalds settr höfþíngi yfir Jómsvíkínga; leið eigi lángt áðr af var gengit lögum þeirra í mörgu lagi, svâ at þá voro konur laungum í borginni, svâ ok vurðu áverkar eðr vígh innan borgar með sjálfum Jómsvíkíngum, ok margar aðrar lögleysur. Því næst gerði Sigvaldi jarl heimanferð sína af Jómsborg upp í Vindland á fund Burizlafs konúngs. Burizlafr konúngr átti þá 2 dætr á lífi, hèt önnur Ástríðr, en önnur Gunnhildr, hin 3ja hans dóttir, þó at þá væri öndut, var Geira drotníngh, er átti Ólafr konúngr Tryggvason. Ástríðr var fríð sýnum ok kvenna vitrost. Sigvaldi hafði eigi lengi dvalizt með konúngi, áðr hann hafði fram sín erendi ok segir svâ: þat er yðr kunnigt, herra! at vèr höfum dvalizt um hríð hèr í landi yðr til frelsis ok yðru landsfólki, því at vèr Jómsvíkíngar ok borg vor hefir verit lángan tíma svâ sem láss fyrir yðru ríki, en vèr höfum fyrirlátit ríki vârt ok eignir í Danmörk. Nú yðr satt at segja vil ek eigi slíkt lengr til lítils vinna, því ero 2 kostir til af minni hendi, at þú giptir mèr Ástríði dóttur þína, ella munu vèr allir Jómsvíkíngar fara brottu or borginni heim í Danmerk ok geyma eigna vârra. Konúngr svaraði: þat er mèr ok mínu ríki mjök skaðaligt, at þèr eyðit Jómsborg, en dóttir mín Ástríðr er hin vitrazta

til allra ráðagjörða, fyrir því mân ek mest hafa hennar tillög hèr um, þó at ek hefði ætlat at gipta hana enn tignara manni fyrir nafns sakir, heldr enn þú ert. Tók konúngr þá tal við Ástríði ok segir henni ræðu þeirra Sigvalda, tala þau lengi þetta mál tvav saman, segir hún svâ: at hún vildi fyrir hvern mun eigi vera gipt Sigvalda, en fyrir nauðsynja sakir föður síns vill hún at honum sè eigi frávísat með þeim skildaga sem þau gera ráð um, heldr enn þeir gefi upp borgina ok alla landvörn. Var þá Sigvaldi tilkallaðr ok segir konúngr svâ til hans: þat er ráðagerð vor at gipta þèr dóttur mína Ástríði, ef þú vill sitja hèr, sem áðr, með alla Jómsvíkínga til landvarnar, ok þar með skaltu, áðr enn þessi ráð takast, koma af oss æfinliga skatti þeim er vèr eigum at gjalda Dana konúngi; en at avðrum kosti skaltu koma Sveini konúngi á vårt vald. Þessu játar Sigvaldi ok ferr við þat heim í Jómsborg.

[*Viðskipti Sigvalda ok Sveins konúngs Haraldssonar*].

85. Sveinn Haraldsson var tekinn til konúngs í Danmerk eptir föður sinn, fór hann þá þegar at veizlum yfir ríki sitt. Sigvaldi býst nú af Jómsborg til Danmerkr, hann hafði 3 skip ok hálft annat hundrat manna, lagði hann skip sín til lægis þar nærr sem hann spur at Sveinn konúngr var á veizlu með 600 manna; Sigvaldi lèt tengja skip sín hvert fram af stafni annars, hann lèt skjóta bryggju á land af því skipinu, sem

næst var landi, en kasta akkeri fyrir hinu yzta [1]); síþan sendi hann menn á konúngs fund: at Sigvaldi sè sjúkr svâ, at hann sè mjök svâ kominn at bana, ok þat skulut þèr segja með, segir hann, at ek bið hann koma til mín, fyrir þá skyld, at þar liggr við alt hans ríki ok líf, at við finnimst áðr ek dey. Sendimenn Sigvalda fara til bæjarins, ok segja konúngi alt sem þeim var boþit; en Sigvaldi sagði meþan þeim mönnum, sem á skipunum voro, hversu þeir skyldi breyta, ef konúngr kvæmi til þeirra, at þegar er konúngr kvæmi á þat skip, er nærst væri landi, með 30 manna, þá skyldi kippa út þeirri bryggjunni, er á land lá; en er hann kvæmi á miðskipit með 20 menn, þá skyldi kippa af þeirri bryggjunni, er þar var í meðal skipanna; en ek mun hèr liggja, segir Sigvaldi, á hinu yzta skipinu, ok skal þeirri bryggju af kippa, þá er hann er hèr kominn með 10 menn, en síþan skulut þèr hafast at slíkt, sem ek kann fyrir segja. Þegar er Sveinn konúngr frètti sjúkleika jarls svâ mikinn, ok honum voro sögð þessi erendi öll saman, brá hann við skjótt ok fór til strandar með alt lið sitt; fór þetta svâ alt sem Sigvaldi hafði fyrir sagt. En er Sveinn konúngr kom á hit yzta skipit, spurði hann hvar jarl lá; honum var sagt, at hann lá þar í lyptíngunni, tjaldat var yfir lyptínguna, gekk konúngr þar til ok lypti upp tjaldinu, ok frètti ef hann [illegible] mæla;

[1]) næsta, *B.*

hann svarar ok heldr lágt, kveðst mæla mega, en vera máttlítill. Konúngr mælti: hver ero þau tíþindi, er þú sendir mèr orð um, at mèr lægi allmikit við at vita? hann svarar: lút þú at mèr meirr, at þú megir skilja hvat ek segi, því-at ek er lágmæltr; konúngr laut þá alt niðr at honum, en jarl greip hann þá báðum höndum ok hèlt sem fastast, var hann eigi þá allmáttlítill; síþan kallaði Sigvaldi á sína menn, bað þá róa út öllum skipunum sem ákafast, ok var svâ gert; rèro þeir brotto með Svein konúng ok þessa 30 hans menn, sem á skipin höfðu gengit með honum, en alt annat hans lið stóð eptir á ströndu, því at engi voro skip nálægh. Þá mælti konúngr: hvat er nú, Sigvaldi! viltu svíkja mik? Sigvaldi svarar: eigi vil ek svíkja þik, en fara hlýtr þú með mèr til Jómsborgar, en alla virþíng skal ek veita þèr ok þínum mönnum sem ek kann, muntu þá vita til hvers þetta kemr. Konúngr mælti: svâ mun nú hljóta at vera at sinni sem þú vill; fara þeir nú þar til er þeir koma til Jómsborgar. Þá mælti Sigvaldi til konúngs: nú skaltu vera velkominn, ok þiggja veizlu er ek hefir látit búa, skal ek þèr þjóna með allri góðvild ok allir mínir menn. Konúngr svarar: þat mân nú líkast, or því sem at ráða er, at þekkjast þat er til sæmdar er gert. Nú skal ek ok segja þèr, segir Sigvaldi, fyrir hverja savk ek hefir [illegible]ik híngat flutt, at ek hefir tekizt þat á hendr [illegible] vináttu sak[illegible] [illegible]ð þik, at biðja til handa

þèr Gunnhildar dóttur Burizlafs konúngs, þeirrar meyjar er ek vissi vænazta ok bezt at sèr um alla luti, þvíat ek vildi eigi at þú mistir hins bezta kvânfángs, en mèr er föstnut önnur dóttir hans, er Ástríðr heitir, ok er sú ófríðari ok at öllu minna háttar sem vera ætti; hafði Sigvaldi svâ ráþit tilsett at Jōmsvíkíngar sannaðu þetta með honum. Ok enn sagði jarl til konúngs: nú er yðr, herra! svâ at hugsa yðvart ráð, at þessa kvânfángs munut þér kost eiga, ef þèr vilit þat til vinna, at gefa upp Vindum æfinliga skatta þá, sem þeir eiga yðr at gjalda, en ef þú vill eigi þenna kost, þá mun ek fá þik í hendr Vindum. Konúngr þóttist nú seá alt ráð þeirra Burizlafs konúngs ok Sigvalda, vissi Sveinn konúngr at Vindr mundo kvelja hann til dauða, ef hann kvæmi á þeirra vald, játaði hann því, at Sigvaldi skyldi einn taka [1]) sættargerð í milli þeirra konúnganna. Lauk svâ þeim málum, at Sveinn gekk at eiga Gunnhildi dóttur Burizlafs konúngs, en hann skyldi gipta Burizlafi konúngi Þyri Haraldsdóttur systur sína, en hvârr konúnga hafa sitt ríki frjálst ok skattalaust, en friðr vera milli landa. Þá fèkk Sigvaldi jarl Ástríðar; for þá Sveinn konúngr heim til Danmerkr með Gunnhildi kono sína; þeirra synir voro þeir Haraldr ok Knútr hinn ríki. Í þann tíma heitaðust Danir mjök at fara [með her í Noreg [2]] á hendr Hákoni jarli.

[1]) ráða, *B.* [2]) *bætir við B.*

*Heitstreingingar konúngs ok Jómsvíkinga.*

86. Sveinn konúngr gerði mannboð ríkt, ok stèfndi til sín öllum höfðíngjum þeim, sem voro í ríki hans, hann skyldi erfa Harald konúng föður sinn. Þá höfðo ok andazt litlu áðr Strútharaldr jarl á Skáney ok Veseti í Borgundarhólmi, faðir þeirra Búa digra ok Sigurðar kápu. Sendi konúngr þat orð Jómsvíkíngum, at Sigvaldi jarl ok Búi ok bræðr þeirra skyldi þar koma, ok erfa feðr sína at þeirri veizlu, er konúngr gerði. Jómsvíkíngar fóro til veizlunnar með alt hit fræknazta lið; þess getr Bjarni biskup í Jómsvíkínga drápu, at þeir fóro til Danmerkr; hèr segir svâ:

Hèldu dreyrgra darra
Danmarkar til styrkir
þeim gafst rausn ok ríki
rjóðendr skipum síþan;
ok auðbrotar erfi
ógnrakkir þar drukku,
þeim frá ek ýmsum aukast
annir feðra sinna.

Jómsvíkíngar höfðo or Vindlanði 40 skipa, en 20 skip af Skáney; kom til þessa erfis fjölmenni allmikit. Fursta dag at veizlunni, áðr Sveinn konúngr stígi upp í hásæti föður síns, drakk hann minni hans, ok streingði þess heit, at áðr 3 vetr væri liðnir, skyldi hann kominn með

her sinn til Englands, ok drepa Aðalráð [1]) konúng eðr reka hann or landi; þetta minni skyldo allir drekka þeir er at erfinu voro. Þá var skenkt höfðíngjum Jómsvíkínga hin stærstu horn af hinum styrkazta drykk er þar var; en er þat minni var afdrukkit, þá skyldu allir drekka Krists minni, þriðja var Michaels [2]) minni, ok drukku þat allir; var Jómsvíkíngum borit fullazt ok hinn styrkazti drykkr; gjörþist þá gleði mikil í hallinni. Þá mælti Sveinn konúngr: nú eigit þèr, Jómsvíkíngar! at leita yðr ágætis því meira, sem þèr erut nafnfrægari enn flestir menn aðrir á Norðrlöndum. Þeir sögðu víst vel fallit at láta eigi svâ skjótt niðrfalla gleði þá, er konúngrinn hafði upphafit; svâ segir Bjarni biskup:

Enn vildu þá einkum
avldur menn at skyldu,
slíkt ero yrkis efni,
ágætis síns leita;
ok haukligazt hefja
heitstrengíngar gátu
eigi frá ek orð ýta
ölteiti var lítil.

Sigvaldi jarl drakk þá minni föður síns, ok strengði heit, at áðr 3 vetr væri liðnir, skyldi hann kominn í Noreg ok hafa drepit Hákon jarl eðr rekit or landi. Þá strengði heit Þorkell hinn hávi, at hann skyldi fylgja Sigvalda bróður

[1]) Aðalstein, B. [2]) Michjáls, B.

sínum til Noregs ok flýja eigi or orusto, svâ at Sigvaldi berðist eptir. Þá strengði heit Búi hinn digri, at hann skyldi fara til Noregs með þeim ok flýja eigi or orusto fyrir Hákoni jarli; svâ segir Bjarni biskup:

Heitstrengíng frá ek hefja
heiptmildan Sigvalda,
Búi var avrr at auka
órækinn styr slíkan:
hètust þeir af hauðri
Hákon reka fíkjum
gram var frœknra furða
fjón eðr lífi ræna.

Síþan strengði heit Sigurðr Kápa, at hann mundi fara til Noregs, ok flýja [eigi] or orusto, meðan meiri lutr Jómsvíkínga berðist. Þvínæst strengði heit Vagn Ákason, at hann skal fara með þeim til Noregs, ok koma eigi furr aptr, enn hann hefir drepit Þorkel leiru, lendan mann í Vík austr, en gengit í rekkju hjá Íngibjörgu dóttur hans. Margir aðrir höfþíngjar strengðo þar heit ýmissa luta; drukku menn þann dag erfið; en eptir um morgininn, þá er Jómsvíkíngar voro ódruknir, þóttust þeir hafa ofmælt, tóko þeir tal allir samt, ok rèðu ráðum sínum, hvern veg þeir skyldo tilstilla um ferðina; ráða þat af at búast sem skyndiligazt; ok þegar eptir veizluna bjöggu Jómsvíkíngar skip sín ok herlið; svâ segir Þorkell Gíslason í Búa drápu:

Báru á vali víka
vel frá ek þeim líka
seggjum snerreiði
sverð ok herklæði.

Þat var nærr vetrnóttum; varð þetta nú frægt víða um lönd. Þá voro liðnir 2 vetr síþan Haraldr konúngr Gormsson fèll, en 5 vetr frá því er Ólafr konúngr Tryggvason fór af Vindlandi; var hann þá fyrir vestan haf á Englandi, ok hafði fengit Gyðu ensku. Einum vetri furr enn erfi þetta var drukkit í Danmerk, var Ólafr konúngr skírðr í Syllíngum, sem furr er ritat.

[*Jarlar safna liði*].

87. Eiríkr jarl Hákonarson frètti heitstrengíng ok allan búnat Jómsvíkínga, hann var þá á Raumaríki, dró hann þegar lið at sèr, ok fór til Upplanda, ok svâ norðr um fjall til Þrándheims á fund Hákonar jarls föður síns; svâ segir Þórðr Kolbeinsson í Eiríks drápu:

Ok sannliga sunnan
sást vítt bændr ítrir
stríð of stála meiða
stór hersögur fóro;
suð laungum frá sveiða
sunnr af dravgnum hlunni
vángs á vatn of þrúngit
víg meiðr Dana skeiðum.

Hákon jarl ok Eiríkr jarl lètu skera upp herör um öll Þrændalög, þeir sendo boð suðr á Mæri hvâratveggju ok Raumsdal, svâ norðr í Naumu-

dal ok á Hálogaland, stefndu út öllum almenníngi at skipum ok liði; svâ segir í Eiríks drápu:

Mjök lèt margar snekkjur
mærðar örr ok knörru,
óðr vex skálds, ok skeiðar
skjald hlynr á brim dynja;
þá er ólítinn úti
elherðir styr gerði,
mörg var lind fyrir landi,
land síns föður randa.

Hákon jarl hèlt þegar suðr á Mæri í njósn ok liðsamnat, en Eiríkr jarl dró saman herinn ok flutti norðan.

*Um hernað Jómsvíkinga.*

88. Jómsvíkíngar hèldu liði síno til Limafjarðar, ok sigldu þaðan út á hafit. Þeir höfðu hvassan byr ok gengu skipin geyst; hèr segir svâ:

Knúði hvast harða
hljópu marir barða
hregg á hefilsspiöllum [1])
á humra fjöllum;
blá þvo hravnn hlýrum
hraut af brim dýrum
kili skaut æst alda
uðr hin sviðkalda [2]).

Ok enn:

Báru ravkn rasta

[1]) hefils völlum, *B.* [2]) sjókalda, *B.*

rekka geðfasta
þröng at rym randa
til ræsis landa;
við nam viði mörgum
vopn ero gnimm törgum
nýtr gaf næst hravfnum
Noregr skipstöfnum.

Jómsvíkingar komu af hafi utan at Ögðum, hèldo þaðan norðr á Rogaland, þeir tóko þegar at herja er þeir komu í ríki Hákonar jarls. Svâ er sagt, at þeir ljópu upp á Jaðri jólanóttina; sá maðr var nefndr Geirmundr, er þar var fyrir með sveit manna, hann var úngr ok ættaðr vel, þeir sváfu í loptskemmu nökkurri. Jómsvíkíngar lögðu at skemmunni ok æptu heróp; Geirmundr ok hans fèlagar vaknaðu við óp ok vâpnabrak, vissu at ófriðr var; Geirmundr klæddist skjótt, hann stavkk ofan or loptinu, þat var heldr hátt hlaup, en þó kom hann standandi niðr; þar var nærr staddr Vagn Ákason, ok hjó til hans, kom höggit á höndina, ok tók af fyrir ofan úlflið; komst hann við þat brotto; niðmurkr var á. Geirmundr nam staðar er hann var skamt kominn frá bænum, þvíat hann vildi vita, hvat her þetta var; þessar upprásar getr í Jómsvíkínga drápu:

Segja rauðra randa
reynendr flota sínum
jóla nótt at Jaðri
Jómsvíkíngar kvæmi;

voro heldr á harþan
hernat fírar gjarnir
rjóðendr buðu ríki
rand orma Geirmundi.

Geirmundr fèkk sèr menn nökkura ok eina hleypiskútu, fór hann ok kom fram norðr á Mæri, ok fann þar Hákon jarl ok segir honum tíþindin, at herr var suðr í landi kominn af Danmerk. Jarl spurði, ef hann vissi sannindi til þess. Geirmundr brá upp höndinni annarri, þar var af hreifinn, segir hann, at þat voro jarteinir at herr var í landi. Síþan spurði jarl inniliga um her þenna. Geirmundr sagði at þat voro Jómsvíkíngar, ok höfðo drepit marga góða drengi ok víða rænt, en fara þó, segir hann, skjótt yfir ok ákafliga, vænti ek eigi lángt líða, áðr þeir koma hèr niðr. Jarl mælti: hvaðan af vissir þú, at þar sè heldr Jómsvíkíngar enn aðrir menn. Geirmundr svarar: því vissi ek at þeir voro, at einn maðr mælti, þá er höndin var höggvin af mèr: fènaði þèr nú, Vagn Ákason! þvíat gullhríngr fylgði hreifanum, ok enn heyrða ek nefndan Búa ok fleiri Jómsvíkínga, þá er ek nam, stað skamt frá þeim. Síþan rèri jarl alla fjörðo inn með öðru landi en öðru út, fór dag ok nótt, hafði njósnir hit efra um Eið, svá suðr í Fjörðu, svá ok norðr þar sem Eiríkr fór með herinn; þess getr í Eiríks drápu:

Setti jarl sá er átti
ógnfróðr á lavg stóði

hrefnis hárra stafna
hót Sigvalda á móti;
margr skalf hlumr [1]) en hvergi
hugendr bana ugðu
þeir er gátu seá slíta
sár gamms blöðum ára.

89. Sigvaldi jarl hèlt liði síno norðr um Stað, lagði furst til Hereyja, en þó at þeir fyndi landsmenn, þá sögðo þeir aldri satt til, hvat jarlar höfðust at. Jómsvíkíngar herjaðu hvar sem þeir komu í bygðir; þeir lögðu utan at Havð, gengu þar upp ok herjaðu, færðu til skipa bæði mat ok búfè [2]), en drápu karlmenn alla, þá er at var víght. En er þeir fóro ofan til skipa, þá kom til þeirra bóndi einn gamall; fór þar næst honum sveit Búa; bóndi mælti: þèr farit ekki hermannliga, rekit til strandar kýr ok kálfa, væri yðr meiri veiðr at taka björninn, er nú er kominn á bjarn básinn. Hvat segir þú, karl! segja þeir, kanntu nökkut at segja oss til Hákonar jarls? hann svarar: Hákon jarl rèri í gær inn í Hjörúngar vâg [3]), hafði eitt skip eðr tvav, eigi voro fleiri enn 3, ok hafði hann ekki til yðvar spurt. Þeir Búi taka þegar hlaup til skipanna, ok láta laust herfángit alt. Búi mælti: njótum nú, vèr höfum fengit njósn, ok vèr erum næstir sigrinum; þeir

[1]) hlunnr, *Hk.* [2]) naut ok sauði, *B.* [3]) þannig *B*; Hörundarfjörð, *A.*

rèru þegar út, er þeir náðu skipunum. Sigvaldi jarl kallaði á þá, ok spurði, hvat þeir segði tíþinda; þeir segja, at Hákon jarl var þar inn í fjörðinn. Sigvaldi jarl leysti flotann, ok rèri fyrir norþan eyna Havð ok svâ inn um.

*Fylkínga skipanir Norðmanna ok Jómsvíkínga.*

90. Hákon jarl ok Eiríkr jarl, son hans, lágu í Hallkelsvík, var þar samankominn herr þeirra allr, þeir höfðo hálft annat 100 skipa, ok höfðo þá spurt, at Jómsvíkíngar höfðo lagit útan at Havð; rèru þá jarlar norþan at leita þeirra. Svâ segir Bjarni biskup:

Þá buðu þeir at móti
þeim er sunnan kvæmi
til geirhríðar greppum [1])
gerla Noregs jarlar;
þar varð mestr á mæli
morð remmandi skömmu
margr var at laufa leiki
land herr saman fundinn.

En er þeir komu þar sem heitir Hjörúngavâgr, þá fundust þeir; skipuðu þá hvârirtveggju til atlögu, var í miðju liði merki Sigvalda jarls; þar skipaðist jarl til atlögu, hafði Sigvaldi 20 skip en Hákon 60 [2]). Í liði Hákonar jarls voro höfþíngjar: Þórir hjörtr af Hálogalandi ok Styrkárr af Gimsum; í annann arm fylkíngar var Búi digri ok Sigurðr kápa, bróðir hans, með 20 skipum, þar lagði at móti Eiríkr [með] 60 [3]) skipa,

[1]) þannig B; greipum, A. [2]) 40 B, C. [3]) 40 B, C.

ok með honum þessir höfðíngjar: Guþbrandr hvíti af Upplöndum, Þorkell leira víkverskr maðr, ok sá maðr er hèt Ármóðr, mikill kappi; í annann arm fylkíngar lagði fram Vagn Ákason með 20 skip, en þar í mót Sveinn Hákonarson ok með honum Skeggi af Yrjum af Upphaugi, ok Rögnvaldr or Jórvík [1]) af Staði með 60 skipa. Svâ segir Bjarni biskup:

Ok höfþíngjar hraustir
heyra menn at voro,
þat hefir þjóð í minnum,
þrír með flokki hvârum;
þar er hreggviðir hittust
hjálma skóðs á víðum,
funðr þótti sá fyrða
frægr, á Hjörúnga vâgi.

Síþan lögðo þeir saman flotann; svâ segir í Eiríks drápu:

En í gegn at gunni
glæheims [2]) skriðu mævar
rendi lángt með landi
leiðángr Dana skeiðum;
þær er jarl und árum
ærins guls á Mæri
barms rak, vigg und vörmu
valkesti hrauð flestar.

Því næst settu hvârirtveggju upp merki sín, ok tókst hin grimmazta orrusta, gekk í furstu grjót ok örvar; svâ segir í Búa drápu:

---

[1]) Ærvík, B, C. [2]) þannig B; gæheims, A.

Herr bar hátt merki
á Hamðis serki,
grimt kom èl eggja
at gekk lið seggja;
meiddu fjör flotna
flest varð hlíf brotna,
glumðu gráir oddar
grjót ok skotbroddar.

Síþan hófst höggorrosta, varð þá mikit mannfall af hvârumtveggjum ok miklu fleira af Hákoni jarli, hrutu fyrir borð margra manna höfut ok aðrir afhöggnir limir, sem segir í Búa drápu:

Hrutu fyrir borð bæði,
brustu herkæði,
höfuð ok hendr manna,
hræ nam vargr kanna.

Tveir menn ero nefndir þeir er fóro með Jómsvíkíngum or Danmerk, þeir voro frá því harðfengir ok illir viðreignar sem aðrir menn, hèt annarr þeirra Hávarðr höggvandi, en annarr Áslákr hólmskalli, hann bitu eigi járn; þeir voro stafnbúar Búa; Búi var ok allstórhöggr; svâ segir Bjarni biskup:

Klauf með Yggjar eldi,
álmr gall, Búi hjálma,
niðr lèt hann í herðar
hríngserkja bavl gánga;
hart rèð högg at stæra
Hávarðr liði fyrða,

viðr hefir illr at eiga
Áslákr verit fíkjum.

Vagn Ákason gekk svâ fast fram at liði Sveins Hákonarsonar, at Sveinn lèt á hömlu síga ok hèlt við flótta; þá lagði þángat til Eiríkr jarl, bróðir hans, ok fram í fylkíngu móti Vagni, lèt Vagn þá undan síga, en þó barðist hann með mikilli hreysti ok allir hans menn ok drap margan mann; þá feldi hann Ármóð ríkan mann ok mikinn kappa, er var með Eiríki; þess getr Bjarni biskup:

Vagn hefir orþit ýtum
örfengr at bavð strángri,
með fullhuga fræknum
framgengu vel drengir;
þars í Yggjar èli
Áka sonr hinn ríki
brátt frá ek hann at hlæði
hugprúðum Ármóði.

Þá var hin ákafazta sókn um allan herinn, þvíat Jómsvíkíngar hjöggu bæði hart ok tídt; svâ segir í Búadrápu:

Neytti herr handa,
hríð var snörp branda,
fúst var fár randa
til Fjölnis landa;
fèllu fleinbörvar,
flugu af streng örvar,
súngu hátt hjörvar
við hlífar gjörvar.

Jómsvíkíngar skutu svâ hart, at ekki stóðu við hlífarnar, ok svâ mikill vâpnaburðr var at Hákoni jarli, at brynja hans var slitin til ónýts, svâ at hann kastaði henni af sèr; þess getr Tindr Hallkelsson:

Varða gims sem gjörði
gerðr hjúglimum herða
gnýr vóx Fjölnis fura
fárlig sæng of jarli;
þá er hríngfáinn hánga
hrynserk víðum brynju
hruðust riðmarar roða
rastar varð at kasta.

Hraut [1]) í sundr á sandi
sörla bæs [2]) fyrir jarli
þess hefir seggja sessi
serk hríngofinn merki.

Jómsvíkíngar höfðo skip stærri, en hvârirtveggju sóttu hit djarfazta, fèllu þá allmjök menn Hákonar jarls, bæði fyrir skotum ok grjóti; svâ segir í Búa drápu:

Gullu hræss [3]) haukar,
hvassir benlaukar
skýfðu liðs leggi,
lamdi grjót seggi;
gnustu gráir málmar,
gengu í sundr hjálmar,

[1]) þá er, *B.* [2]) hjóst, *Hk.* [3]) hregg, *B, C.*

hauks varat friðr fjöllum
í fjörnis stöllum.

En er Hákon jarl sá fættast liþit á skipum sínum, ok honum þótti úvænt, at hann mundi fá hæra lut í þessum bardaga, tók herr hans hvarvetna at láta undan síga; þá er svâ sagt, at hann hafi farit til lands ok blótat til sigrs sèr syni sínum 7 vetra gömlum, er hèt Erlíngr, hann var hit fríðazta mannsefni; svâ segir í Jómsvíkínga drápu:

Hvarvetna frá ek hölda
herr ægsti gnýdarra
fur hreggviðum hjörva
hrökkva gunnar rekkum;
áðr í örva drífu
ýtum grimmr at blóta
fram kom heipt en harða
Hákon syni tæki.

Eiríkr jarl hafði rèttan þann bug, er á var orðinn flotanum fyrir Sveini bróður hans, er hann hafði látit lúta undan Vagni, svâ at þá lágu skip í þann arminn sem í furstu, er þeir komu saman; þá snèri hann aptr til liðs síns; höfðo hans menn þá undan hamlat, en Búi hafði þá höggit tengslin á skipum sínum, ok ætlaði at reka flóttann, lagði þá Eiríkr jarl síbyrdt við skip Búa, var þá höggorrusta en snarpazta, lögðo þá tvav eðr 3 skip Eiríks at Búa skipi einu, en Búi gekk í gegnum fylkíngar; þess getr í Búa drápu:

Búa frá ek greitt gánga
gladdi [1]) svanr hánga
vavkt var göll geira
gegnum lið þeirra

Því næst kom Hákon jarl ofan af landi, ok gekk út á skip sitt, eggjaði hann þá fast lið sitt, sagði þeim ráðinn sigrinn; þá gerði èl mikit ok illviðri móti Jómsvíkíngum; svâ segir í Jómsvíkínga drápu:

Þá frá ek èl hit illa
æðast Hölga [2]) brúðar,
glumdi hagl á hjálmum
harða grimt or norðri;
Þars í ormfrán augu
ýtum skýja grjóti
þí náði ben blasa
barði hreggi keyrðu.

Svâ var haglit stórt, at hvert haglkornit vâ eyri; svâ segir hèr:

Hagl vâ hvert eyri,
hraut á lögh dreyri,
blóð þvo bens árum
or bragna sárum;
þar fèll valr víða
vee sá gyld ríða,
barðist sveit snarla
á snekkjum jarla.

Þar með þóttust Jómsvíkíngar seá konu á skipi Hákonar jarls, þá er í rauf veðrit, ok sýndist

[1]) *Kannske* gladdist. [2]) hölda, *B*, *C*.

þeim sem ör flýgi sem tíþast af hverjum fíngri hennar, en hver örin varð mannsbani [þar er það umkveðit [1]):

Avrum rèð sèr snörpum,
slíkt er raun görpum,
flagð hit forljóta
af fíngrum skjóta;
gerðist grimt fíkjum
at gumnum ríkjum,
gnýrr var hárr hlífa,
hregg ok lopt drífa.

Sigvaldi jarl hjó tengslin, ok snèri undan skipi síno ok tók atflýja; Vagn Ákason kallaði á hann, ok bað hann eigi flýja; Sigvaldi gaf eigi gaum at hvat hann sagði, Vagn skaut spjóti eptir honum, ok nísti þann er við stýrit sat, þvíat hann vissi eigi, at Sigvaldi hafði laupit til ára. Sigvaldi jarl sigldi brott með hálfan 4 tög. skipa, en eptir lá hálfr þriði tögr; svâ segir Bjarni biskup:

Þá var þörfum meiri
þrekförluðum [2]) jarli
braut frá ek hann at hèldi
hugraun flota sínum;
snara bað segl við húna
Sigvaldi byr köldu
glumdi hravnn á höfum
hríð fèll í bug vâða.

Hákon jarl lagði þá skip sitt á annat borð Búa

[1]) *bæta við B, C.* [2]) þreklunduðum, *B, C.*

skipi; varð Búa mönnum þá skamt höggva í milli. Þessir menn voro á skipi Eiríks jarls: Þorsteinn miðlángr, hann var hinn mesti hermaðr; hann hafði verit missáttr við Hákon jarl, en keypti sik nú í frið með þessu, at hann veitti jörlum lið með sína sveit; þar var ok íslenzkr maðr, er hèt Þorleifr skúma, son Þorkels hins auðga or Alviðru, hann hafði höggvið sèr rótakylfu mikla fyrir bardagann, ok vâ með henni um daginn; þar var ok Vígfús Vígaglúmsson, var hann allstyrkr maðr; Vigfús sá, hvar Áslákr hólmskalli hjó til beggja handa ok drap margan mann, hann hafði enga hlíf, þvíat ekki vâpn festi á honum; Vígfús greip upp nefsteðja, er lá á þiljunum, er einn maðr hafði hnoðit við hugró á sverði síno; Vígfús færði steðjann tveim höndum í höfuð Ásláki, svâ at geirrinn stóð í heila niþri, varð þat hans bani; í þeirri svipan barði Þorleifr skúma Hávarð höggvanda með kylfunni þar til er hann fèll, ok var mjök beinbrotinn; þess getr alls saman í Jómsvíkíngadrápu:

Þar lèt Vígfús verða
vegrækinn Ásláki,
þann erat þörf at seghja
þátt, helfarar veittar:
Þorleifr of vann þykkva
þrekstærðum Hávarði
hart vâ hann með kylfu
högg rammr brotit leggi.

í þessi atsókn gengu menn Eiríks jarls upp á skip Búa ok aptr at lyptíngunni at Búa, þá hjó Þorsteinn miðlángr til Búa um þvert ennit ok í sundr nefbjörgina, varð þat allmikit sár; Búi hjó til Þorsteins utan á síðuna ok í sundr manninn í miðju; eptir þat tók Búi kistur 2, báþar fullar af gulli, ok kallaði hátt: fyrir borð allir Búa liðar! Búi steyptist þá fur borð með kisturnar; svå segir í Búa drápu:

Steig fyrir húf hesti
hrófs enn þrekmesti
gæðir gunnskára
gladdist naðr sára;
niðr kom byrs bára,
Búi nam sèr hvára,
ferð hykk friþar mistu,
frækn í hönd kistu.

Sumir menn segja, at Sigmundr Brestisson utan af Færeyjum hafi verit í þessum bardaga með Hákoni jarli, ok hafi höggvit báðar hendr af Búa, þá er hann hafði áðr drepit Þorstein miðlång; segja þeir, er þat sanna, at Búi hafi stúngit stúfunum í hrínga kistnanna ok stígi svâ fyrir borð með báðar; síþan er Búi var fyrir borð stíginn, ljópu margir hans menn fyrir borð, en sumir fèllu þar á skipinu, þvíat ekki var gott griða at biðja, var þá hroðit þat skip stafna á meðal, ok síþan hvert at öðru. Síþan lagði Eiríkr jarl at skipi Vagns, varð þar allhörð viðrtaka,

var þat lengi, at þeir náðu ekki uppgaungu á skeiðina; þess getr í Jómsvíkínga drápu:

Skeið frá ek víst at verði
Vagn með sína þegna,
öll voro þá þeirra
þunn skip hroðin önnur;
upp náði þar þeygi
þengils maðr at gánga,
ofan rèðu þeir ýgja
Eiríks menn at keyra.

Vagn varðist allfræknliga, hjó til beggja handa, ok drap margan mann, en þó var hann um síð ofrliði borinn, varð þá hroðit skipit, en Vagn handtekinn ok fluttr á land með 3o manna; svâ segir í Búa drápu:

Feldi Vagn virða,
valdi of náe stirða
hrafn enn hvassleiti,
hrundi á borð sveiti;
þá rèð þess dála,
þrymr var hárr stála,
eyðis unnglóða
Eiríkr skip hrjóða.

Þeir Vagn voro nú bundnir allir, er þeir komu á land, með því móti, at einn strengr var snaraðr at fótum þeim öllum, en hendr þeirra voro lausar, sátu þeir allir samt á einni lág. Þá gekk til Þorkell leira, ok mælti svâ: þess strengðir þú heit, Vagn! at drepa mik, nú þikkir

mèr þat líkara, at ek drepi þik. Þorkell hafði mikla öxi, hann hjó þann, er yztr sat á láginni, ok síþan hvern at hendi. Svâ er sagt, at allir Jómsvíkíngar mælti hreystiorð, áðr drepnir væri; svâ sagði einn þeirra: dálk hefir ek í hendi, ok mun ek stínga honum í jörðina niðr, ef ek veit nakkvat, þá er af mèr er höfuþit; þá var höfuð af honum höggvit, ok fèll dálkr niðr á jörð or hendi honum, sem von var. Þar voro drepnir 18 Jómsvíkíngar; svâ segir:

Þar lèt Eiríkr öndo
átján þegar týna
heldr frágum þá þverra
þegna lið fyrir Vagni;
mæltu hraustar hetjur
haukligt var þat fikjum
þau hafa þjóþir uppi
þróttar orð með fyrðum.

En er 18 voro drepnir, þá sat maðr allfríðr sýnum ok hærðr forkunnar vel, hann sveipaði hárinu fram yfir höfuð sèr, ok rètti hálsinn; hann mælti: gjörit eigi hár mitt blóðugt; einn hirðmaðr Hakonar jarls tók hárit báðum höndum ok hèlt fast [1]); Þorkell reiddi upp öxina hátt, ok hjó til hart, víkíngrinn kippir höfðinu svâ fast, at sá laut eptir, er hárinu hèlt; kom öxin ofan á hendr honum, ok tók af báðar, svâ at öxin nam í jörðu stað; þá gekk at Eiríkr jarl, ok mælti: hverr ertu hinn fríði maðr? Sigurð

[1]) fri, B.

kalla [menn] mik, segir hann, ek er kenníngarson Búa, ok ero enn eigi allir Jómsvíkíngar dauðir. Jarl mælti: þú munt vera sannliga son Búa; villþú hafa grið? Hann svarar: þat skiptir hverr býðr. Jarl mælti: sá býðr, er vald hefir til þess. Vil ek þá, segir Sigurðr. Var hann þá leystr or strenginum. Þá mælti Þorkell leira: þó at þú, jarl! vilir alla þessa menn láta grið hafa, þá skal Vagn Ákason eigi með lífi í brott komast; ljóp hann þá fram með reidda öxina, en Björn enn bretski reiddi sik til falls í strenginum, ok fèll fyrir fætr Þorkeli leiru flatr; Þorkell fèll um hann; Vagn greip öxina, er honum varð laus, ok hjó Þorkel með banahögg; þess getr Bjarni biskup:

Ok með fjörnis fálu
fór Þorketill leira,
þá er menbroti mælti
mansaung um gná hrínga;
gerðist hann at höggva
hauklyndan son Áka,
Vagn gat heldr at hânum
heipt-örr vegit furri.

Eiríkr gekk þá at Vagni, ok spur, ef hann vildi þiggja grið; vil ek, segir hann, ef ek skal ná at efna heitstrengíng mína; svâ segir í Jómsvíkínga drápu:

Viltu, kvað hrínga hreytir
hyggju gegn at Vagni,
èlsvellandi ydvart

Yggjat líf of þiggja?
Eigi mun ek nema efna
úngr þat er heit nam strengja,
svâ kvað ullr at jarli,
egghríðar fjör þiggja.

Eiríkr jarl lèt þá leysa alla or strengnum, voro þá 12 [1]) eptir af Jómsvíkíngum, þeir er þágu grið með Vagni, sem Bjarni biskup segir [2]):

Grið lèt örr ok aura [3])
Eiríkr gefit stórum
mjök leyfa þat þjóðir
þegnum 12 [1]) með Vagni.

Hákon jarl sat á trè einu skamt frá því, er Jómsvíkíngar voro höggnir, þá brast strengr á skipi því, er Búi hafði átt, en ör sú, er skotit var, kom á Gizur lendan mann af Valldresi, hann sat næstr jarli ok var allvegliga búinn, fèll hann þegar dauðr af trènu. Siþan gengu menn út á skipit, ok fundu þar Hávarð höggvanda, hann stóð á knjánum við borþit út, þvíat fætrnir voro af honum, hann hafði boga í hendi; en er þeir komu út á skipit, mælti Hávarðr: hverr fèll maðr af láginni? þeir segja, at sá hèt Gizör. Hann svarar: þá var minna happit enn ek vildi, jarli hafði ek ætlat. Þeir mæltó: ærit er úhappit [4]), ok eigi skaltu vinna fleiri. Drápu þeir hann þar; var þá kannaðr valrinn, ok borit

[1]) 10, B. [2]) í drápu þeirri, er hann hefir ort um Jómsvíkínga bardaga, *bætir við*, *B*, [3]) aðra, *B*.
[4]) óhapp þitt, *B*.

fè til lutskiptis; hálfr 3i tögr skipa var hroðinn af Jómsvíkíngum; svâ segir Tindr:

Vann á vâgh at sinni [1])
verðbjóðr hugins ferðar
beit sól gagarr seilar
sverðs eggja spor leggja;
áðr hjörmeiþar hrjóða
hættíng var þat mætti
leiþar lángra skeiða
liðs hálfan tög þriðja.

Síþan skildo þeir her þenna, fór Hákon jarl norðr til Þrándheims, ok líkaði stórilla, er Eiríkr jarl hafði gefit grið Vagni. Eiríkr fór til Upplanda ok svâ austr í Vík. Vagn Ákason fór austr með Eiríki jarli, þá gipti hann Vagni Íngibjörgu, dóttur Þorkels leiro; svâ segir Bjarni biskup:

Þá gekk Ullr at eiga
örlyndr þrymu randa
menn fýstu þess mæta
margir Íngibjörgu.

Um vârit eptir gaf Eiríkr jarl Vagni lángskip gott með öllum reiða, ok fèkk honum menn með, skildo þeir hinir kæruztu vinir; fór þá Vagn heim suðr til Danmarkar með Íngibjörgu kono sína, settist hann at Fjóni, ok varð ágætr höfþíngi, ok er mart stórmenni frá honum komit. Björn hinn bretski fór vestr til Bretlands, ok sett-

[1]) Vinda mönnum, B.

ist þar at eignum sínum, ok var þar til þess, er skip gengu meðal landa.

*Frá Ólafi konúngi ok Birni.*

91. Ólafr konúngr Tryggvason var fur vestan haf, ok tók at fýsast austr til Noregs at vitja frænda sinna ok föþurleifðar; gjörðist hann þá fréttinn um framferðir höfþíngja í Noregi ok svâ af fleirum löndum fyrir austan haf. En er Björn hinn bretski kom vestr, þá spurði Ólafr konúngr öll sönn tíþindi, þau er vorþit höfðo í Noregi á þeim vetri, um Jómsvíkínga bardaga; svâ þat at Hákon jarl hafði blótað syni sínum til sigrs sèr; þess varð hann ok viss, at jarlar Hákon ok Eiríkr vurðu allvinsælir við almúgann af sigri þeim, er þeir höfðo unnit á Jómsvíkíngum, ok frelst alt landsfólk af þessum hernaði. Ólafr konúngr lofaði sem aðrir menn hreysti Jómsvíkínga, en harmaði harðla mjök, er mikil ilska skyldi gánga yfir hans ættland. Við þessi tíþindi aukaðist mjök fýsi hans at fara austr um haf, hugsaði hann þat, ef guð gæfi honum at öðlast ríki í Noregi, at hann skyldi kostgæfa at snúa þessu fólki til réttrar trúar, því framarr sem fjandinn hefði allan þann lýð margfaldligarr svikit fyrir þenna sinn erendreka ok guþníðíng Hákon jarl; en í annann stað þótti Ólafi konúngi eigi mikil vân, at hann mætti vinna Noreg með litlu liði, meðan jarlar hefði styrk svâ mikinn ok vinsældir alþýðu, svâ erfiðliga sem Jómsvíkíngum hafði tiltekizt at herja á þá feðga með allmikinn afla; vissi hann ok engra

þeirra manna vânir í Noregi, at honum mundi mega eðr vilja nökkurn sturk veita, þvíat frændr hans, þeir er hann átti þar, margir ok göfgir, máttu eigi vita, hvârt hann var nú á lífi eðr eigi, þó at hann færi þaðan vetrgamall, en þeir höfðo, síþan hann fór af Sviþjóðu þrèvetr, ekki til hans spurt vístliga, þvíat fáir menn vissu alt hans nafn, síðan hann fór or Görðum, sem furr var sagt. Nú fyrir þessa hugsan alla jafnsaman gaf honum at skilja, at hann mátti eigi öðlast ríki í Noregi utan guðs miskun efldi hann enn framarr nú enn sem furr; þaðan af skaut hann öllu síno ráði uppá vald ok forseá allsvaldanda guþs.

[*Lodinn kaupir Ástríði*].

92. Nú skal segja þann atburð, er miklu varð furr. Maðr er nefndr Loðinn, hann var vikverskr, auðigr ok ættaðr vel, hann var optliga í kaupferðum en stundum í hernaþi. Þat var á einu sumri, er Loðinn fór kaupferð í Austrveg, átti hann einn skip þat er hann var á ok mikinn kaupeyri, hann hèlt til Vindlands [1]), ok var þar í kaupstefnu um sumarit; en meðan markaðrinn stóð, var þángat fluttr margskonar kaupskapr; þar kom mart man falt [2]), þar sá Loðinn konu nökkura, er seld hafði verit mansali, en er hann leit á konu þessa, kendi hann, at þar var Ástríðr Eiríksdóttir, er átt hafði Tryggvi konúngr Ólafsson; hún var þá úlík ok furr, þá er hann hafði seeth hana, þvíat nú var hún favl ok grannleit

[1]) Eistlands, *B*, *C*, *F*. [2]) margir mansmenn falir, *F*; mannfólk, *B*.

ok illa klædd. Loðinn gekk til Ástríðar, ok spurði, hvat væri ráðs hennar? Hún svarar: þúngt er frá því at segja; ek hefi verit seld mansali, ok nú enn er ek híngat flutt til þess at seljast. Síþan kannaðust þau við; vissi hún skyn á honum ok á ætt hans. Bað Ástríðr þá, at hann mundi kaupa hana, ok flytja hana heim til frænda hennar. Loðinn svarar: ek mun gera þèr kost á því at leysa þik or ánauð, ok flytja þik heim til mín, ef þú vill giptast mèr; en með því at Ástríðr var nauðuliga komin, ok þat annat, at hún vissi, at Loðinn var maðr stórættaðr, vaskr ok auðigr, þá heitr hún honum þessu til frelsis sèr. Síþan keypti Loðinn Ástríði, ok flutti hana með sèr til Noregs; fèkk Loðinn hennar þá at frænda ráði; voro þeirra börn Þorkell nefja, Íngiríðr ok Íngigerðr. Dætr þeirra Tryggva konúngs ok Ástríþar voro þær Íngibjörg [1]) ok Ástríðr. Þeir voro synir Eiríks bjóðaskalla ok bræþr Ástríðar: Sigurðr, Jósteinn, Karlshöfut ok Þorkell dyrðill; þeir voro allir göfgir menn, ok áttu bú stór austr í landi.

*Ráðagjörðir Hákonar jarls um Ólaf konúng.*

93. Hákon jarl rèð Noregi alt hit ytra með seánum, hafði hann til forráða 17 [2]) fylki, en Haraldr konúngr hinn hárfagri hafði svâ skipat, at jarl skyldi vera í hverju fylki; hèlzt þat lengi síþan; því hafði Hákon jarl undir sèr 16 jarla; svâ segir í Velleklu:

---

[1]) Ingigerðr, *B, C.* [2]) 16, *B, C, F.*

Hvar viti öld und einum [1])
jarð byggvis svâ liggja,
þat skyli herr of hugsa
hjarli 16 jarlar.

Meþan Hákon var í Noregi, var góð árferð í landi ok friðr góðr innanlands með bóndum, var jarl lengsta hríð allvinsæll af bóndum; en er á leið æfi Hákonar jarls, þá gerðist þat mjök at um hann, at hann var úsiðugr um kvennafar, gerðist þar svâ mikit bragð, at jarl lèt taka ríkra manna konur ok [dætr, ok [2]] flytja heim til sín, lá hjá þeim viku eðr tvær, sendi þær heim síþan; fèkk hann af því úþokka mikinn af frændum kvennanna, tóko bændr at kurra, sem Þrændir ero vanir um alt þat, sem þikkir móti skapi. Hákon jarl hafði fengit afspraka [3]) nökkurn, at sá maðr mun vera fyrir vestan haf, er Óli nefnist, ok haldi menn hann þar fyrir konúng, en jarl grunar af frásögn annarra manna, at vera muni nökkurr af konúnga ætt norænni; jarlinum var sagt, at Óli kallaðist girzkr at ætt, en hann hafði þat spurt at Tryggvi Ólafsson hafði átt son þann, er farit hafði austr í Garðaríki, ok þar uppfæðst með Valdamar konúngi, ok hèt sá Ólafr; hafði jarl mjök at spurníngum leidt um þann mann, grunaði hann, at sá enn sami mundi nú vera kominn í vestrlönd. Um vârit eptir Jómsvíkínga orusto stefndi jarl til sín mörgum höfþíngjum austr í landi, þar komu ok at orðsendíng jarls þeir bræðr,

[1]) *þannig F*; öðrum *A.* [2]) *bæta við B, C.* [3]) afspurn, *F.*

synir Eiríks af Ofrostöðum, Jósteinn ok Karlshöfuð; þar var ok sá maðr, er nefndr er Þórir ok var kallaðr klakka, hann var mikill vin Hákonar jarls; hann var vanr at fara í víkíng á sumrum, en stundum rak hann kaupferð til ýmissa landa, var honum því víða kunnigt fyrir. Hákon jarl átti húsþíng við höfþíngja sína, þá er hann hafði saman kallat; hann segir svâ: þat höfum vèr spurt, at sá maðr er fur vestan haf, er kallast Óli enn girzki, en ek hygg at sè Ólafr Tryggvason, ok ef svâ er, þá munu vèr skjótt eiga af honum von hins mesta úfriðar, ef hann færr nökkurn afla; nú vildi ek þau ráð til fá með yðru samþykki, at vèr mættim í ró hafa ríki þetta, þvíat mèr leiðist at eiga fyrir höndum slíkan úfriðar ágáng, sem vèr höfðum fyrir litlu af Jómsvíkíngum; hefir ek helzt hugsat, ef þèr vilit svâ, at koma honum með nökkurum brögðum við lítinn styrk híngat á vârt vald. Höfþíngjar kallaðu þetta hit bezta ráð, sögðo ok svâ, at þeir vildi Hákon jarl hafa yfir sèr, meðan hann væri til, en engan útlendan höfðíngja. Lèt jarl þá kalla til sín Þóri klavkku, vin sinn, ok mælti til hans: þú skalt fara kaupferð í sumar, sem nú er mörgum mönnum tídt, vestr til Dýflinnar á Írlandi, en reyndar skaltu skynja, hverr sá maðr er, sem vestr þar kallast Óli enn girzki, ok ef þú spyrr þat til sanns, at þar sè Ólafr Tryggvason eþr nökkurr annarr af norænni konúnga ætt, þá skaltu, Þórir! ef þú mátt, hafa við hann svikræði nökk-

ur, annathvârt at koma honum higat á mitt vald, ella drepa hann sjálfr. Þessu játar Þórir, voru þeir Jósteinn ok Karlshöfuð kallaðir á tal við jarl. Þá mælti jarl: þit skulut fara vestr um haf með þessum manni Þóri klökku, ok sverja þess áðr hina styrkaztu eiða, at þit skulit öllu því at fylgja, sem Þórir ferr fram, ef þit finnit Ólaf Tryggvason, ok alt skulit þit þat sanna, sem Þórir segir, ok skulut með engu móti Ólaf vita láta, hverja væl sem Þórir gerir honum, fyrr enn þèr komit híngat aptr til Noregs með Ólaf ok stígit fótum á meginland, þá mân ek gera ráð fyrir, svâ at ekki saki til, at þið gerit hann varan við vâra ráðagerð; en því skylda ek ykkr heldr til þessa enn aðra menn, at Ólafr mun heldr trúnat á leggja ykkra sögn náfrænda sinna heldr enn annarra manna sèr vandalaussa; en í annan stað erut þith reyndir svâ góþir drengir, at þith gángit ekki á þá eiða, sem þit sverit mèr ok öllum þessum höfþíngjum, sem hèr ero nú saman komnir. Þeir bræðr báðir senn svaraðo: aldri skal okkr henda svâ úheyrilig skömm, at við svíkim svâ úheyriliga náfrænda okkarn. Jarl mælti: þá er enn til annarr kostr, ef þit vilit eigi þenna, at þit skulut á þessum sama fundi vera kvaldir sárum píslum til bana, en þiggja af oss góþar gjafar ok vináttu, ef þit fullgerit þenna vârn boðskap. Nú hvârt er þeir talaðu hèr um lengr eðr skemmr, þá játaðu þeir um síðir at taka við þessu vælræði, bundo þeir þá svardögum við Hákon jarl

þarlenzkum höfþíngja, þó at jarl verði landit harðliga fyrir útlendum víkíngum, þá er landherr veitti honum; ok þaðan af er þat, er ek talaða furra daginn, at alt fólk vildi þar hafa konúng yfir sèr af ætt Haralds hárfagra; en til þess at þú megir eigi gruna sögn mína hèr um, þá ero hèr með mèr eptir ráði annarra frænda þinna 2 móþurfrændr þínir Jósteinn ok Karlshöfuð. En þegar er Ólafr vissi, at frændr hans voro þar komnir, þá sendi hann eptir þeim, ok fagnaði þeim með hinum mesta blíðskap; á hann þá ráð ok ræður við þá Þóri alla saman, frètti Ólafr þá at erendum þeirra, en Þórir segir alt sem furr; þeir Jósteinn höfðu fátt um, en sannaðu þat, er Þórir sagði. En með því at Ólafr trúði orðum þeirra, en var áðr fúss at fara til Noregs, þá bjó hann ferð sína, hann hafði 5 skip, sigldi hann af Írlandi, þegar hann var búinn, ok til Suðreyja, þaðan til Orkneyja. Þeir Þórir voro þar í ferð með honum.

*Ættmenn Rögnvalds Mæra jarls.*

95. Þá er Haraldr konúngr hinn hárfagri hafði lagt undir sik Norðmæri ok Raumsðal, en felda þá konúnga, er þar rèðu áðr fyrir, sem segir í sögu hans, fór hann norðr til Þrándheims um haustið, en setti jarl þann yfir bæði þau fylki, er Rögnvaldr hèt, son Eysteins glumru, hann var kallaðr Rögnvaldr enn ríki ok enn ráðspaki [1]), ok var þat mælt, at hvârttveggja

1) ráðsvinni, B, C.

væri sannnefni. Rögnvaldr var hinn mesti ástvin Haralds konúngs, ok var í mörgum bardögum ok herförum, virði konúngr hann mikils. Rögnvaldr jarl átti Hildi [1]), dóttur Hrólfs nefju; þeir voro synir þeirra: Rólfr, er kallaðr var Gaunguhrólfr ok Þórir þegjandi. Rögnvaldr jarl átti ok frillusonu: hèt einn Hallaðr, annarr Einarr, þriði Hrollaugr, þeir voro rosknir menn, þá er hinir skilbornu bræðr þeirra voro fæddir. Í þeim úfriði, er Haraldr konúngr gekk til ríkis í Noregi, flýðo margir útlagar hans vestr um haf ok gerðust víkingar, sátu þeir á vetrum í Orkneyjum ok Suðreyjum, en herjaðu á sumrum í Noregi, ok gerðo þar mikinn landskaða; hafði Haraldr konúngr þá leiðángr úti hvert sumar til landvarnar fyrir víkíngum; en hvar sem víkíngar vurðu varir við her konúngs, þá flýðo þeir undan ok flestir á hafit út; en er Haraldi konúngi leiddist leiðángr ok úfriðr, þá sigldi hann á einu sumri vestr um haf, hann kom furst við Hjaltland, ok drap þar alla víkínga, þá er eigi flýðu undan; síþan sigldi hann suðr til Orkneya, ok hreinsaði þar alt af víkíngum; þvínæst fór hann í Suðreyjar, ok herjaði þar, ok drap marga víkínga, þá er áðr rèðo fyrir liði, hann átti þar orustor margar ok hafði optazt sigr; þá herjaði hann á Skotland, ok átti þar orusto; en er hann kom vestr [2]) í Mavn, þá flýði alt fólk undan inn

[1]) Ragnhildi, *F.* [2]) austr, *C.*

á Skotland, ok hafði með sèr fè alt þat, er þat mátti; gengu þeir Haraldr konúngr þar á land, ok fengu ekki herfáng; svâ segir Þorbjörn hornklofi:

Menfergir bar margar
margspakr niðar varga
lunds vann sókn á sandi
sand mens í bý randir;
[áðr ferr eljum prúðum
allr her skota þverri
lavgðis seiðs af láði
láðbrautar varð flæja [1]).

Í þessum hernaði var Rögnvaldr Mæra jarl ok bróþir hans, er hèt Sigurðr, þar var ok með Haraldi konúngi Ívarr, son Rögnvalds jarls, ok fèll hann þar í orosto; en Haraldr konúngr gaf Rögnvaldi jarli í sonarbætr Hjaltland ok Orkneyjar, en jarl gaf Sigurði, bróður sínum, bæði löndin [2]). Þá er þeir Haraldr sigldu austr, kom til lags við Sigurð jarl sá maðr, er hèt Rauðr [3]), son Ólafs hvíta ok Auþar hinnar djúpauðgu; þeir herjaðu á Skotland, ok eignaðust Katanes ok Suðrland alt til Ekkjals. Sigurðr jarl drap jarl einn skozkan, er hèt Melbrigðatönn [4]), ok batt höfuð hans við slagálar sèr, ok laust kálfanum á tönnina, er stóð út or höfðinu, kom þar í blástr, svâ at hann fèkk af því bana,

[1]) *bætir við B.* [2]) en Haraldr konúngr gaf Sigurði jarlsnafn, ok var hann eptir vestr þar, *bæta við B, C.* [3]) Þorsteinn rauði, *B, C, F.* [4]) *þannig* hinir; *sèst ekki í A.*

ok er hann heygðr á Elfinnar [1]) bakka. Guthormr hèt son Sigurðar jarls, hann rèð löndunum eptir föður sinn einn vetr, ok dó hann barnlauss; settust þá enn víkíngar í löndin, Danir ok Norðmenn.

*Viðrtal Rögnvalds ok sona hans.*

96. Rögnvaldr jarl spurði austr til Noregs fall Sigurðar bróður síns, ok þat með, at víkíngar sátu í löndum hans, bæði á Hjaltlandi ok Orkneyjum, þá sendi hann vestr Hallað son sinn, ok gaf Haraldr konúngr honum jarlsnafn; Hallaðr hafði lið mikit, en er hann kom til Orkneyja, settist hann í löndin, en bæði á haustum ok vârum fóro víkíngar um eyjarnar, þeir námu þar nesnám, ok hjöggu strandhögg; þá leiddist Hallaði jarli at sitja í eyjunum, veltist hann or jarldóminum, ok tók havldsrètt ok fór við þat aptr til Noregs. Rögnvaldr faðir hans lèt illa yfir hans ferð, segir, at synir hans mundi verða úlíkir síno forellri. Einarr svarar föþur sínum: ek hefir litla ást af þér, ok við þá eina sæmð hèr uppvaxit, at mèr þikkir alllítit fyrir at missa, má mèr eigi annarstaðar verða síðr framkvæmðar auðit enn hèr; nú mun ek fara vestr til eyjanna, ef þú vill fá mèr styrk nökkurn, skal ek því heita þèr, sem þèr mun mikill fagnaðr á vera, at ek skal aldri koma aptr til Noregs. Jarl svarar: þat líkar mèr vel, at þú komir

[1]) Ekkjals, B, C, F.

eigi aptr, er mèr lítil vân, at frændum þínum verði sæmð at þèr, þvíat móþurætt þín er öll þrælborin. Fèkk jarl Einari eitt lángskip [1]), skipat til hlítar; sigldi Einarr vestr um haustið, en er hann kom til Orkneya, barðist hann við víkínga, þá er sezt höfðo í eyjarnar, feldi hann þá, ok gerðist síþan jarl yfir eyjunum. Hann varð höfþíngi mikill ok ríkr.

*Einarr jarl hefnir föður síns.*

97. Synir Haralds konúngs hárfagra gerðust ofstopamenn miklir, þegar þeir þroskuðust, tóko þeir af lífi jarla konúngs eðr aðra ríka menn. Á einu vâri fóro þeir Hálfðán háleggr ok Guþröðr ljómi með mikla sveit manna suðr á Mæri, þeir komu á úvart Rögnvaldi jarli, tóko þeir hús á honum, báru at eld ok brendo hann inni með 60 manna; settist Guþröðr þá í ríki þat, er jarl hafði áðr haft, ok litlu síðarr sættist hann við föþur sinn, ok gaf sik upp á hans vald. Þá gaf Haraldr konúngr Þóri, syni Rögnvalds jarls, alla föþurleifð sína, þar með jarls nafn, ok gipti honum dóttur sína Ólöfu árbót. Hálfðán háleggr tók tvav [2]) lángskip ok skipaði mönnum, sigldi hann vestr um haf þegar eptir brennu Rögnvalds jarls. Hálfðán kom í Orkneyjar mjök á úvart, fór Einarr jarl þegar or eyjunum, ok kom aptr á sama hausti at úvörum Hálfðáni; fóro þeirra skipti svâ, at jarl tók Hálfðán hálegg af lífi, sem segir í sögu Orkneyínga jarla. Litlu

[1]) tuttogsessu, *F.* [2]) þrjú, *B*, *C*.

síðarr fór Haraldr konúngr með her sinn vestr til Orkneyja. En er Einarr jarl spurði, at Haraldr konúngr var austan kominn, fór hann yfir á Nes; þá kvað jarl vísu þessa:

Margr verðr sekr um sauði
seggr með fögro skeggi,
en ek at úngs or eyjum
allvalds sonar falli;
hætt segja mèr höldar
við hugfullan stilli,
Haralds hefik skarð í skildi
skala ugga þat höggvit.

Þá fóro menn ok orðsendíngar milli þeirra konúngs ok jarls, ok sættust þeir at því, at Orkneyíngar skyldo gjalda konúngi [1]) 60 marka gulls; bóndum þótti gjaldit ofmikit, Einarr bauð bóndum þá at gjalda einn þetta fè, en þar fyrir skyldi hann eiga öll óðöl í Orkneyjum. Þessu játaðu bændr fyrir þá sök, at allir enir fátækari menn áttu litlar jarðir, en þeir, er auðigir voro, sögðust mundo leysa sín oðöl, þegar þeir vildi. Leysti jarl þá gjaldit alt við konúng; sigldi konúngr um haustit austr til Noregs; átti jarl lengi síþan öll óðöl í Orkneyjum, alt þar til er Sigurðr jarl Löðversson [2]) gaf bóndum aptr óðölin. Einarr jarl rèð Orkneyjum lánga æfi, ok varð sóttdauðr, hann átti 3 sono, hèt einn Arnkell, annarr Erlendr, 3i Þórfinnr hausakljúfr. Þeir bræðr,

[1]) skatt ok, *bæta við B*, C. [2]) Haraldsson. *B*; Hákonarson, *C*.

synir Einars jarls, Arnkell ok Erlendr fèllu á Englandi með Eiríki konúngi blóðöx, sem furr er ritat; en Þórfinnr, bróðir þeirra, var lengi jarl í Orkneyjum, hann var höfþíngi mikill ok herskárr, ok varð sóttdauðr; fimm voro synir hans: Arnfinnr, Hávarðr, Ljótr, Skúli ok Löðver. Arnfinnr átti Ragnhildi, dóttur Eiríks ok Gunnhildar, sem furr er getit; Ragnhildr rèð bana Arnfinni jarli, bónda sínum, en gekk at eiga Hávarð, bróður hans. Hávarðr var góðr höfþíngi ok ársæll. Þau Hávarðr jarl ok Ragnhildr voro eigi lengi ásamt, áðr Ragnhildr eggjaði til systurson jarls, þann er hèt Einarr ok var kallaðr klíníngr, at drepa Hávarð jarl; hèt hún Einari, ef hann gerði þetta verk, at hann skyldi vera jarl yfir eyjunum, en hún skyldi giptast honum; en er Einarr hafði drepit jarl, þá vildi Ragnhildr ekki giptast honum, kvað þat hina mestu lygi, at hún hefði í nökkurum ráðum verit um dráp jarls. Sendi Ragnhildr þá eptir öðrum systursyni Hávarðs jarls, sá hèt Einarr harðkjoptr; bað Ragnhildr hann hefna jarls, ok bauð honum þar til slíkt hit sama, sem hún hafði hinum boþit furr; en er Einarr harðkjoptr hafði drepit frænda sinn, vildi Ragnhildr ekki hann eiga. Giptist hún þá Ljóti, bróður þeirra Hávarþar ok Arnfins; Ljótr gerðist þá jarl yfir eyjunum, ok varð höfþíngi mikill, hann lèt drepa at ráði Ragnhildar Einar harðkjopt. Skúli, bróþir Ljóts jarls, fór upp á Skotland, ok gaf

Skota konúngr honum jarlsnafn; fór Skúli jarl ofan á Katanes ok efldist þaðan at liði, þaðan fór Skúli jarl út í Orkneyjar, ok barðist til ríkis við Ljót jarl, bróður sinn, ok fór úsigr, hann flýði yfir á Nes; aðra orusto áttu þeir í Dölum á Katanesi, þar fèll Skúli jarl, en Ljótr jarl lagði þá undir sik alt Katanes; var Ljótr jarl hinn mesti hermaðr; hina síþarstu orustu átti hann við jarl þann skozkan, er Margbjóðr hèt, ok hafði Ljótr meirr enn hálfu minna lið; en þá gekk Ljótr svâ fast fram, at Skotar viknaðu fur, ok varð skammr bardaginn, áðr þeir flýðo, er lífið þágu, en fjölði fèll; hafði Ljótr jarl sigr, en þó fèkk hann sár þau [1]), er hann leiddu til bana. Þá tók Löðver, bróðir hans, jarldóm í Orkneyjum, ok var mikill höfþingi, hann átti Eðno [2]), dóttur Kjarvals Írakonúngs, þeirra son var Sigurðr digri. Löðver jarl varð sóttdauðr, en Sigurðr, son hans, tók jarldóm eptir hann. Sigurðr varð ríkr jarl ok víðlendr, hann hèlt með valdi Katanes fyrir Skotum, ok hafði hvert sumar her úti, hann herjaði í Suðreyjar, á Skotland ok Írland. Þat var á einu sumri, at jarl sá, er Finnleikr hèt, kom ofan af Skotlandi með úflýjanda her; Finnleikr haslaði Sigurði jarli völl á Skíðamýri á Katanesi, ok ánefndi dag til orusto. Sigurðr jarl dró her saman; Orkneyíngar voro ekki fúsir til at berjast við ofrefli, þvíat svâ er sagt, at ei mundi minni liðsmunr

[1]) sótt þá, *B, C.* [2]) Auðnu, *F.*

enn 7 Skotar um einn Sigurðar mann, fèkk jarl þá ekki lið af Orkneyjum fürr enn hann gaf bóndum upp óðöl sín öll í eyjunum til liðs sèr. Síþan fór Sigurðr jarl til orosto við Finnleik, ok hafði Sigurðr sigr, en bændr eignaðust óðöl sín í Orkneyjum.

*Fundr Ólafs konúngs ok Sigurðar jarls.*

98. Ólafr konúngr Tryggvason sigldi liði síno vestan at Orkneyjum, sem fürr var getit. En þvíat Pettlands fjörðr var eigi færr, þá lagði hann skip sín til lægis við Rögnvaldsey (í Ásmundarvâg [1]); en þar á vâginum lá fyrir Sigurðr jarl Hlöðversson með eitt [2]) lángskip, ok ætlaði at fara yfir á Katanes; en þegar er Ólafr konúngr vissi, at Sigurðr jarl lá þar fyrir, þá lèt hann kalla hann til tals við sik; en er jarl kom á konúngs skipit, hóf Ólafr konúngr svâ sína ræðu: þat mân þèr kunnigt, Sigurðr jarl! at Haraldr konúngr hinn hárfagri fór með her sinn vestr um haf, þá er hann hafði áðr eignazt allan Noreg; vann Haraldr konúngr þá undir sik Orkneyjar ok Hjaltland ok mikit ríki annat hèr fyrir vestan hafit; gaf konúngr eyjarnar ok Hjaltland jarli sínum Rögnvaldi enum ríka í sonarbætr, en Rögnvaldr gaf bróður sínum Sigurði; gerðist Sigurðr þá jarl Haralds konúngs. Annann tíma fór Haraldr konúngr vestr híngat á hendr Einari jarli með allmikinn her, gengu þá góðgjarnir menn í milli þeirra Haralds konúngs ok

[1]) vantar í, B. [2]) 3, F.

Einars, ok sættust þeir at því, at konúngr kallaði sèr allar Orkneyjar ok Hjaltland, lauk svâ með þeim, at jarl galt konúngi fyrir dráp Hálfdánar háleggs, sonar hans, 60 marka gulls, en Einarr jarl hèlt löndin af Haraldi konúngi. Nökkuru síþarr kom austan af Noregi Eiríkr konúngr Haraldsson, voro þá jarlar, synir Torf-Einars, lýðskyldir undir Eirík konúng, ok þat til marks um, at þeir fengu konúngi mikit lið til hernaþar; en annann tíma er Eiríkr konúngr kom til eyjanna, hafði hann brottu með sèr jarlana Arnkel ok Erlend, en setti fyrir löndin Þórfinn jarl, bróður þeirra; en þeir báðir fèllu á Englandi með Eiríki konúngi. Eptir þat komu synir Eiríks af Englandi, höfðo þeir þá vald yfir eyjunum, en þá er þeir fóro heðan brautu, skipaðu þeir löndin Arnfinni [1]) jarli, mági sínum. Eptir hann tóko ríki bræðr hans, furst Hávarðr, þá Ljótr, síþarst Löðver, faðir þinn. Nú hefir þú, Sigurðr! jarldóm yfir ríki þessu, er ek kalla mína eign, sem alt annat ríki þat, er átt hefir Haraldr konúngr, ok hverr hans ættmanna tekit í arf eptir annann. En með því at nú hefir svâ tilborit, at þú ert kominn á mitt vald, þá átt þú 2 kosti fyrir höndum; sá er annarr: at þú skalt taka trú rètta ok láta skírast, ok alt þitt undirfólk, skaltu þá eiga vân af mèr ath halda slíkt ríki, sem þú hefir áðr, ok þar með þat, er meira er vert, at ríkja með alls-

[1]) Þórfinni, F.

valdanda guði eilífliga í himinríkis dýrð, ef þú heldr hans boðorð; hinn er kostr annarr, er mjök er dáligr ok þessum úlíkr: at nú í stað skaltu deyja, en ek man fara með eld ok usla um eyarnar ok eyða alt þetta ríki, nema fólk vili trúa á sannan guþ; ok ef þú vill þenna kost upptaka, þá muntu sem allir aðrir, þeir er trúa á skurðgoð, eptir bráðan bana hræðiliga kveljast með fjandanum í helvítis logha utan enda. En svâ sem jarl var þá kominn, kjöri [1]) hann þann af, er betr gegndi, at taka rètta trú. Var jarl þá skírðr ok alt hans fólk; síþan gerðist hann maðr Ólafs konúngs, ok batt þat eiðum; tók Sigurðr jarl þá löndin í lèn af konúngi, en fèkk honum son sinn í gislíng, er hèt Hvelpr eðr Hundi, lèt Ólafr konúngr þá skíra sveininn með Löðvers nafni, ok hafði hann með sèr til Noregs. Þvínæst sigldi Ólafr or Orkneyjum, en setti þar eptir kennimenn, at siða fólkit ok kenna þeim heilög fræði. Skildo þeir Ólafr konúngr ok jarl þá með vináttu.

[*Ólafr konúngr kemr til Noregs*].

99. Ólafr konúngr sigldi austr í hafið, ok höfðo þeir allblíðan byr, var konúngr þá enn kátazti, þvíat hann vissi sér engrar vælar [2]) von eðr háska, hvârki af frændum sínum nè avðrum þeim, er þar voro í ferð; en jafnan þótti honum undarligt, er frændr hans Jósteinn ok Karlshöfuð voro hljóðir en aldregi glaðir, síþan þeir

[1]) þannig B, keyri, A. [2]) vèlar, B.

fundust vestr á Írlandi. Ólafr konúngr kom af hafi utan at Mostr, gekk hann þar á land, ok lèt sèr messu sýngja í landtjaldi; síþan markaði konúngr grundvöll til kirkju í þeim sama stað, sem hann lèt messuna sýngja, fèkk hann þar smiði til ok alt annat þat er þurfti; lèt Ólafr konúngr þá kirkju furst reisa, lagði konúngr þar fè til ok fèkk í hendr Þángbrandi presti. Þórir klakka sagði Ólafi konúngi, þá er þeir komu við Mostr, at honum var þat eitt ráð, at gera ekki vart við, hverr hann var, ok fara sem ákafligazt norðr til Þrándheims á fund Hákonar jarls, svâ at engi njósn fæ," fyrir honum. Þetta sýndist konúngi vel tillagt ok vitrliga, görði hann svá, at hann fór dagfari ok náttfari útleið norðr með landi, sem leiði gaf; kom hann hvergi við meginland, en lá við úteyjar, þá er andviðri voro; en Þórir klakka gaf því þetta ráð til, at hann vissi, at flest alt landsfólkit var gjarnt á alla nýjúng, ok í annan stað, hversu frægr Ólafr Tryggvason var þá vorðinn í Noregi af margra manna frásögn; hugsaði hann þat, at svâ marga sem Ólafr átti frændr göfga ok tengðamenn, allra mest austr í landit, ef þeir tæki hann til höfþíngja yfir sik, sem vís vân var, ef þeir vissi hann í land kominn, at þá mundi þegar drífa þar til hans allr landherr, ok vilja ekki annat enn taka hann til konúngs ok efla til ríkis; en sturkr Hákonar jarls var mestr um Þrændalög, ok þótti Þóri jarli ekki ofrefli við vitrleik sinn ok liðs-

afla at ráða Ólaf af, ef hann kvæmi norðr þángat með eigi fleira lið, enn hann hafði, ef Þórir fengi eigi áðr færi [á] at taka Ólaf af lífi, sem þeir jarl höfðu ráð til sett, áðr. Þórir fór næsta sinn af Noregi. Fóro þeir nú svâ, at landsfólkit varð ekki vart við þá, furr enn eins dags at kveldi komu þeir norðr til Agðaness, lögðo þeir þar til lægis ok tjölduðu yfir; en þegar, er þeir fundo menn at máli, spurðu þeir, at Hákon jarl var þar inn í Þrándheimi, ok þat með, at hann er vorðinn missáttr við bændr. En er Þórir klakka heyrði þetta, brá honum mjök í brún, þvíat þá var öðruvís enn hann hugði, þvíat eptir Jómsvíkinga bardaga voro allir menn í Noregi fullkomliga vinir Hákonar jarls fyrir þann sigr, er hann hafði fengit ok frelst land alt af úfriði; en nú var illa at borit, at því er honum þótti, at höfþíngi mikill var kominn í landit, en bændr úsattir við jarl, jafnvel þar í landi sem heima á föþurleifð hans sjálfs. Þórir kallaði þá til sín Jóstein ok Karlshöfuð, hann talaði við þá lángt einmæli; en er náttaði ok allir menn voro sofnaðir á skipunum, þá stóðu þeir upp bræðr, klæddust hljóðliga, tóko vâpn sín ok stigu á einn bát, þeir rèru at skipi Ólafs konúngs, gengu þar upp leyniliga ok at rekkju konúngs, sögðo naudsýn beiða, at hann gengi á land með þeim; hann gerði svâ. En er konúngr hafði niðr sezt, þá fèllu þeir báðir til fóta honum, ok mælto með miklum harmi ok áhyggju: okkr

hefir hent hörmuligr glæpr, svâ at við erum dauða fyrir verðir sem vândir svikarar, ok því gefumst við nú upp á þitt vald, at þú gerir við okkr, hvört [1]) er þú vill láta okkr lifa eðr deyja. Konúngr spurði, hvat um er; þeir sögðu þá alt, hversu Hákon jarl hafði nauðgat þeim til at vera í svikræðum við hann með Þóri klökku; ok er þèr nú, sögðu þeir, ætlaðr bráðr bani; höfum við fyrir þessa sök verit jafnan hugsjúkir en aldri glaðir, síþan við fórum af Noregi. Konúngr mælti: standit upp skjótt, ekki skal ek ykkr kunna um þetta, þvíat ek vænti, at þetta ok alt annat gángi eptir guþligri forseá um minn hag, hafit þit vel farit með ykkru máli or því sem at ráða var, leggit nú til nökkut gott rád, hverju ek skal fram fara. Jósteinn svarar: þá í kveld, er Þórir hafði spurt tíþindi ofan af landi, leiddi hann okkr bræðr á eintal, ok þakkaði okkr, hversu vel við höfðum haldit heit okkr ok særi við Hákon jarl, siþan sagði hann okkr, at hann ætlar á morgin snimma at heimta þik á land upp einnsaman svâ sem til ráðagerðar; hann sagðist áðr mundi senda 2 trúnaðarmenn sína í skóg skamt hèðan í brott, skulu þeir, þegar hann gerir þeim nökkut mark til, laupa fram ok drepa þik, hefir þetta verit ráðagerð þeirra Hákonar jarls, áðr þeir skildu; ok því skyldo við báðir eiga frjálst at segja þèr svikin, þá er við kvæmim fótum á meginland, at þeir ætlaðu,

[1]) *þannig*, B; hvat, *A*.

at þú skyldir vera drepinn fyrr en við kvæmim á land; en nú hefir svâ til borit at þú lifir, en við erum lausir allra svardaga ok fastmæla við þá Hákon jarl. Nú er þat hit fyrsta okkart ráð, at þú setir í skóginn þína trúnaþarmenn, svâ at þú verþir skjótari at bragði, at veiða þenna níþíng Þóri í þeirri snöru, sem hann hefir yðr ætlat. Konúngr mælti: þetta ráð skal alt hafa, sem þit hafit hugsat, en hvârt vilit þif þetta verk vinna, eðr skal ek aðra menn til fá. Þeir svöruðo báðir senn: at þaðan í frá skulu þeir öllu því fram fara, sem honum er bezt viljat. Segir konúngr þá, at þeir skulu fara í skóginn ok laupa fram, þegar hann bregðr upp glófa sínum. Gekk þá konúngr út á skip sitt, svâ at enginn maðr varð varr við.

*Dráp Þóris klökku.*

100. Snemma um morgininn kom Þórir á skip Ólafs konúngs, ok bað, at þeir mundi gánga á land 2 samt til ráðagerþar. Konúngr segir þat vel mega; ok er þeir komu á land, ok ætlaðu niðr at setjast, þá vildi Þórir þar sitja, er hærra var undir, en konúngr vildi þat eigi, brá hann þá upp glófa sínum með hægri hendi. Þeir Jósteinn ljópu or merkinni ok 2 menn aðrir, vurðu þeir bræðr skjótari, þeir hjöggu báðir senn til þess ens vânda svikara Þóris, svâ at hann fekk þegar bana. En er menn Þóris, þeir er hann hafði ætlat til at drepa konúng, sá þessi tíþindi, þá námu þeir staðar, þeir Jósteinn snéru ímóti

þeim ok drápu þá báða. En aðrir menn Þóris, þeir sem á skipi voro, báðu sèr griða, ok þat veitti konúngr þeim, gerðust þeir allir hans menn ok bundo þat eiðum.

*Bardagi Hákonar jarls við bændur.*

101. Hákon jarl gerðist svâ mikill illlifnaðar maðr um kvenna far, at hann gerði sèr allar konur jafn heimilar, hvârt sem voro mæðgur eðr systr, meyjar ríkbornar eðr manna konur, ok í mörgu öðru gerðist hann grimdarfullr við sitt undirfólk, fyrir því var hann þá kallaðr, sem síþan hefir haldist, Hákon enn illi. Maðr er nefnðr Brynjólfr, ríkr maðr ok vinsæll, hann bjó í Gaulardal; Brynjólfr átti konu væna ok vel at sèr um marga luti. Á einni nótt sendi Hákon jarl sína menn til Brynjólfs þess erendis, at þeir hafi brottu konu Brynjólfs ok færi jarli; Brynjólfr var kominn í sæng hjá húsfreyju sinni, er jarlsmenn komu á bæinn, þeir báru upp fyrir Brynjólfi sitt eyrendi, sögðo, at þat var boðskapr jarls, at Brynjólfr sendi konu sína jarli. Brynjólfr svarar: fátt lætr jarl þessi úmælt eðr úgert, þat er ílt er, ok svâ er hann nú vanstiltr í sínum vândskap, at eigi er örvænt, at skjótt steypi hans ríki [1]), ok hann láti herfiliga sitt líf, þvíat þetta fólk er í miklum nauðum ok vandræðum, er undir honum verðr at búa; gerit þèr nú skjótt annattveggja, at þèr dragizt í brotto, ella bíþit þèr bráðliga þá skömm,

[1]) ofríki, C.

at þèr megit vel báðar hendr á festa. Þótti sendimönnum sinn kostr sá líkaztr at fara aptr við svâ búit, en er þeir komu til jarls, sögðo þeir honum sín erendis lok. Jarl svarar: alt skal Brynjólfi fyrir eitt koma, láta skal hann konona eðr liggja drepinn ella. Sendi jarl þá mikit lið, en er þeir menn komu á bæ Brynjólfs, báru þeir fram orð jarls. Brynjólfr svarar: þat er nú líkazt, at ek hafi eigi liðsafla við yðr at sinni, en þó má vera, at jarl taki um síðir makliga úsæmd ok niðran fyrir sinn ofsa ok údáðir. Spratt hann þá upp, ok tók herklæði sín ok vâpn, gekk síðan brotto með mikilli reiði; en sendimenn tóko konuna ok færðo jarli. Brynjólfr fór í bygðina, ok kallaði saman bændr ok kærði fyrir þeim sitt mál, ok hvern úsóma jarl sýndi honum. Nú er sú beiðni mín, segir hann, at vèr stefnim saman liði, ok förum at jarli, berjumst við hann eðr brennum hann inni; er oss þat hin mesta skömm, ef ver þorum eigi at reka af oss slíka ilsku. Nú þó at mèr sè mín svívirþíng nálæguzt, þá mân eigi lángt líða, áðr fleiri munu eiga um slík vandræði at tala, ef ekki er at gert, kann vera, at þá sè nökkurir svâ röskir at eigi þoli jarli hvern úsóma, þó at þèr vilit nú ekki víkjast undir mína nauðsýn. Allir bændr, þeir er þar voro saman komnir, rómaðu vel ræðu Brynjólfs; kallaðu ena mestu vârkun at hraustum manni lægi slíkt í miklu rúmi; var þá við sjálft at þeir mundi upphlaupa.

102. Litlu síþarr var Hákon jarl at veizlu í Gaulardal, þar sem heitir á Meðalhúsum, en skip hans lágu út við Viggju. Ormr lyrgja er nefndr ríkr bóndi, hann bjó á bæ þeim er heitir á Býnesi, Ormr átti þá konu, er Guþrún er nefnd, hún var dóttir Bergþórs af Lundum. Guðrún var kallut lundasól, þvíat hún var kvenna fríðust. Hákon jarl sendi þræla sína til Orms lyrgju þeirra erenda at færa jarli konu Orms; þrælar komu á Býnes ok báru fram sitt erendi; Ormr tók því ekki fjarri, bað þá fara furst til náttverþar, en áðr þrælarnir voro mettir, komu margir menn or bygðinni til Orms, sem hann hafði orð til sent; lèt Ormr þá engan kost at Guþrún færi með þrælunum. Guðrún mælti til þrælanna: segit þau mín orð jarli, at ek mân eigi til hans koma, nema hann sendi eptir mèr Þóro af Rímul; Þóra var húsfreyja rík ok ein af unnastum jarls. Þrælarnir fóro á brotto mjök reiðir, en heitaðust fast við bónda ok húsfreyju, sögðo at þau mundi þessa iðrast, áðr skamt liði þaðan, ok at þeir skyldi svâ koma þar öðru sinni, at þeim þætti sá hinn bezti báðum at gera vilja jarls; skildo þau við þat. Ormr skar upp herör ok sendi til Haldórs á Skerðíngssteðju, en Haldór lèt þegar fara ör frá sèr, sendu þeir Ormr örvarboð fjögurra vegna í bygðina, ok lètu þat boði fylgja, at allir vígir karlar

skyldo fara með vopnum at Hákoni jarli ok drepa hann; ok eptir örvarboði ljóp upp múgr manns, ok sótti þat lið alt til Meðalhúsa. Hákon jarl fèkk njósn af herhlaupi þessu, fór hann þá með alt lið sitt af bænum í dal einn djúpan, er síþan er kallaðr Jarlsdalr, leyndust þeir þar. Eptir um daginn hafði jarl njósn alt af bónda herinum; bændr tóko vegu alla, ætlaðu þeir helzt, at jarl mundi farinn út til skipa sinna, en fyrir skipunum rèð þá Erlendr, son jarls, hann var enn mannvænligazti maðr. En er náttaði, þá dreifði Hákon jarl liði síno, bað hann sína menn fara markleiði út til Orkadals; mân engi maðr gera yðr mein, segir hann, ef ek er hvergi í nánd, segit Erlendi syni mínum, at hann fari með skip vor út eptir firði, ok svâ suðr á Mæri til fundar við mik, þvíat ek mân þángat fara, þegar (nökkut [1]) dreifist herr bónda, en ek mun vel fá leynzt í fylsknum nær oss, meðan þeir leita sem ákafazt eptir mèr, ok þeir halda saman flokkinum. Fóro jarlsmenn þá brottu, sumir út til skipanna á fund Erlends, en þeir heim í bygð, er bú áttu; jarl var eptir ok þræll hans, sá er hèt Þormóðr [2]) karkr, þessi þræll hafði Hákoni verit gefinn at tannfè, þá er hann var barn, þvíat þeir voro jafngamlir báðir; fóro þeir jarl þá at leita sèr hælis, reið jarl en Karkr gekk; en er þeir komu at á þeirri, er Gaul heitir, var íss á ánni mjök vökóttr; jarl

[1]) er náttar ok, *B*, *C*. [2]) eðr *bætir við* B.

fór af baki, ok hratt hestinum í vök eina, ok þar lèt hann eptir möttul sinn, ok festi við ísbrúnina, svâ at eigi mátti með öllu ofan reka, fóro þeir þá til hellis þess, er síþan er kallaðr Jarlshellir; þeir lágu þar um hríð ok sofnuðu, en er þeir vaknaðu, mælti þrællinn: dreymdi mik nú, herra! jarl spurði, hvat hann dreymdi. Mèr þótti, segir hann, við vera hèr í hellinum, ek sá, at mikill maðr, svartr ok illiligr, fór neðan at hellinum, ok hræddumst við, at hann mundi inngánga í hellinn, mèr þótti hann stað nema fyrir hellisdurunum ok mæla: nú er ulli dauðr, síþan gekk hann brott ok upp til fjalls, en ek vaknaða. Jarl mælti: þar mun Erlendr, son minn, vera drepinn. Karkr sofnaði öðru sinni, ok lèt enn illa í svefninum sem furr, en er hann vaknaði, spurði jarl: hvat dreymdi þik nú? Þrællinn svarar: mèr þótti þessi hinn sami maðr aka ofan or fjallshlíðinni, en er hann kom at hellinum, mælti hann til mín: seg þú jarli, at nú ero lokin sund öll. Jarl svarar: skamt segir þú þá eptir lífdaga vârra.

*Dráp Erlends jarlssonar.*

103. Eptir dráp Þóris klökku hèlt Ólafr konúngr utan 5 lángskipum á fjörðinn, en þar rèri innan at móti Erlendr, son Hákonar jarls, með 3 [1]) skipum; logn var veðrs, ok nálgaðust skjótt skipin, er hvârir rèru á mót avðrum; en er skamt

[1]) 4, B.

var milli þeirra, grunaði þá Erlend, at úfriðr mundi vera, snèru þeir þá sínum skipum at landi. Ólafr konúngr sá þá lángskip róa innan móti sèr, ok hugði hann, at þar mundi fara Hákon jarl. En er þeir Erlendr snèru undan, þá bað konúngr sína menn róa eptir þeim sem ákafazt; en er þeir Erlendr voro mjök svâ komnir at landi, þá rèru þeir á grunn, ljópu þeir þegar fyrir borð, ok leituðu með sundi til lands; þá rendi at skip Ólafs konúngs; konúngr sá hvar maðr svam forkunnliga fríðr, hann greip hjálmvölinn, ok kastaði at þessum manni, kom þat högg í höfuð Erlendi, syni Hákonar jarls, svâ at haussinn brotnaði til heila, lèt Erlendr þar líf sitt; drápu þeir Ólafr þar margt manna; sumt liðit komst undan með flótta, sumt tóko þeir ok gáfu grið, ok höfðu af tíþinda sögn; var þá sagt konúngi, at þessi maðr, er hann hafði drepit með hjálmvelinum [1]), var Erlendr son Hákonar jarls, ok þat með, at bændr höfðo farit at Hákoni jarli með úfriði, ok hann var vorðinn forflótta fyrir þeim, ok dreift var öllu hans liði. Hákon jarl ok Karkr dvöldust skamma hríð í hellinum, stóðo síþan upp, ok gengu á bæinn Rímul; sendi jarl þá Kark til Þóru, ok bað hana koma leyniliga á sinn fund. Hún gerði svâ ok fagnaði vel jarli, er þau fundust; jarl mælti til hennar: veizt þú nökkut þat leyni hèr á bæ þínum, at þú megir fela mik um nökk-

[1]) *þannig: B*; hjálmunvelinum, *A.*

urra nátta sakir, þartil er bændr rjúfa samnaðinn? Þóra svaraði: þat mân mèr eigi verða auðveldt at varðveita þik hèr á laun; munu úvinir þínir hèr koma at ransaka bæ þenna sem vandligazt, ok avll nálæg leyni; mun því hèr framarr leitat enn hvarvitna annarstaðar, fyrir þá skyld, at mörgum mönnum er kunnigt, at ek mân hjálpa þèr alt slíkt er ek orka; en þó er sá staðr einn á þessum bæ at ek mundi eigi kunna at leita þvílíks höfðíngja sem þú ert, þat er svínabæli. Þóra fylgði þeim þángat. Þá mælti jarl: þetta fylskni er vel fengit ok vitrliga, hèr skulu vèr umbúast, lífsins skal nú furst gæta, meirr enn hirða hvârt herbergið er allríkmannligt; tók þá þrællinn, ok gjörði þar mikla gröf, ok bar brottu moldina, en þau jarl ok Þóra sátu meðan ok töluðu, sagði hún þá jarli þau tíðindi, er hún hafði ný spurt, at Ólafr Tryggvason var kominn í fjörðinn, ok hann hafi drepit Erlend son jarls. Síþan gekk Hákon jarl í gröfina, ok Karkr þræll með honum; Þóra fèkk þeim nóga vist ok drykk, ok þarmeð ljós ok aðra luti, þá er þeir þurftu at hafa, þvínæst burgði hún aptr gröfina með viðum, ok sópaði á ofan moldo ok myki, síþan rak hún þar yfir svínin, tráðu þau niðr taðit svâ, at ekki nývirki sá á. Gekk Þóra þá heim til bæjar, vissi engi maðr at jarl var þar nema hún ein; svínabæli þat var undir steini einum miklum.

*Drepinn Hákon jarl af Karki.*

104. Bændr þeir, er í atför höfðo verit við Hákon jarl, fóro þegar á fund Ólafs Tryggvasonar, er þeir spurðu, at hann var í land kominn, fagnáðu þeir honum með öllum blíðskap ok góðvilja, ok segja svâ: þess er oss vorðinn mikill tímadagr, er vèr náðum þik finna, ok svâ væntum vèr, at þèr skal verða; vèr ætlaðum eptir Jómsvíkinga bardaga, at enginn mundi slíkr höfþíngi sem Hákon jarl sakir sigrsæli ok margra annarra luta, er hann hafði til höfþíngskapar; vildi þá alt landsfólk ekki annat enn halda jarli til ríkis; en síþan hans ilska ok údáð hefir svâ mjök gengit or dæmum, at með engu móti er þolanda, þá er nú vorðinn öllum mönnum svâ leiðr hans úsómi, at því síðr heldr hann ríkinu hèðan af, at hann skal þegar týna lífinu sem vèr nám honum; trúum vèr, at þat verði gert með þínu fultíngi ok hamíngju, svâ giptusamliga sem þèr hefir tiltekizt um drápit Erlends, sonar hans; því viljum vèr biðja, at þú gerist höfþíngi yfir þessum flokki, ok bíðir svâ hærri tignar, þvíat vèr vitum, at allr landherr vildi helzt þjóna undir afkvæmi Haralds ens hárfagra, þó at eigi sè jafn ágætr maðr til sem þèr erut. Ólafr varð glaðr við ræðu þeirra. Gerðo þeir þá samlagh sitt, tóko bændr Ólaf til konúngs yfir sik, höfðo allir eitt ráð at leita eptir Hákoni jarli, þeir fóro upp í Gaulardal, þótti mönnum þat líkazt, at jarl mundi vera á Rímul, ef

hann hefði til mannabygða leitað, þvíat engi var jafnkærr vin jarls í þeim dal sem Þóra; en er þeir komo at ánni Gaul, fundo þeir möttul jarls í vökinni ok svâ hestinn nökkuru neþarr rekinn í eyri eina, en er þeir kannaðu möttulinn, talaðu nökkurir menn, at jarl mundi týnzt hafa í ánne, ok því þyrfti eigi lengr at leita hans. Þá mælti einn gamall maðr: eigi kunnit þèr við slægðarbrögð jarls, ef þer trúit hann týnzt hafa í á þessi, en þèr skilit eigi, at þetta er prettr hans at blekkja yðr. Konúngr segir at svâ var, samþyktu þat allir, ok hèldo fram ferð sinni, þar til er þeir komu á bæinn Rímul, þeir brutu þar upp hvert hús, ok leitaðu jarls bæði úti ok inni, sem Þóra hafði getið til, ok fundo hann eigi; þá átti Ólafr konúngr þíng úti í garðinum, stóð konúngr upp á stein þann hinn mikla, er þar var hjá svínabælinu, skaut konúngr á erendi, talaði hátt ok hvelt, ok segir svâ: þat er mönnum kunnigt, at vèr höfum leitað eptir Hákoni jarli, en fyrir því at vèr finnum hann eigi at sinni, þá skulu þat allir vita, at þeim skal ek gjalda makliga ömbun ok mikit verkakaup, er verðr banamaðr jarls. Því næst fór Ólafr konúngr með alt lið sitt brotto af bænum Rímul ok inn á Hlaðir, ok settist þar. Hakon jarl ok þræll-inn voro í gröfinni, þeir heyrðo fullgerla, hvat Ólafr konúngr talaði. En er konúngr var brottu ok hans menn, mælti jarl við Kark: mikill máttr ok ógn fylgir þessa manns mali, ek hefir verit

staddr í mörgum háska ok mannraunum, ok hefir þat mælt verit, at ek væra eigi manna hrædd-aztr, en nú við einsaman orð Ólafs þessa greip óttinn mitt hjarta svâ fast sem aldri furr, at minn hugr fyllist áhyggju ok hræðslu af hans ógnar orðum; leit jarl þá til þrælsins, ok sá hans yfirbragð ok áseónu mjök dökkna ok litverpast. Jarl mælti til hans: hvat er nú, hví ertu svâ bleikr en stundum svartr sem jörð, er eigi þat, at þú vilir svíkja mik? Karkr svarar: eigi er þat, en hitt má þèr eigi undarligt þikkja, at ek hræðumst orð þessa manns eigi síðr enn þú. Jarl mælti: má þat fyrir því, at vèr vorum á einum degi fæddir, mân ok skamt verða millum dauða okkars. En er náttaði snæddu þeir báðir samt, ok drukku af einu keri. Jarl hèlt vöku fyrir sèr um nóttina, þvíat hann trúði illa þrælinum, en Karkr svaf bæði fast ok lengi, en þó vaknaði hann um síðir, sá hann jarl vaka. Karkr mælti: dreymdi mik enn, herra! ek þótti sem við værim báðir á einu skipi, ok skyldi ek stýra. Jarl mælti: þar ræðr þú nú fyrir lífsstundum hvârstveggja okkars, ok ver þú mèr trúrr, sem þú átt at vera, þarfyrir skaltu hafa af mèr góða ömbun, ef hèr aðrir dagar koma. Karkr sofnaði öðru sinni ok lèt illilega, en er hann vaknaði, spurði jarl, hvat hann dreymdi? Hann svarar: á Hlöðum var ek nú, ok lagði Ólafr Tryggvason gullmen [1]) á háls mèr, ok

[1]) gullhring, F.

enn þótti mèr hann gefa mèr einn mikinn hest. Jarl mælti: þar mân Ólafr láta hríng blóðrauðan um háls þèr, ef þú kemr til hans, vara þik svâ, at hann mân láta afhöfða þik, ok þó eigi örvænt at síþan láti hann þik uppfesta til háðúngar, ok gefi þèr svâ hest. En af mèr muntu gott hljóta, svo sem furr hefir verit, ef þú svíkr mik eigi. Siþan vökðu þeir báðir, svâ sem hvârgi tryði öðrum, en móti deginum sofnaði jarl, hann lèt brátt illa í svefninum, æpti ógurliga, ok skaut undir sik hælunum ok hnakkanum, svâ sem hann mundi vilja upprísa; við þat varð þrællinn felmsfullr af [1]) hræðslu; hann greip mikinn kníf ok hvassan af linda sèr, hann lagði knífinum í gegnum barka jarls ok skar út or, þat var bani Hákonar jarls; síþan sneið Karkr höfuþ af jarli, ok ljóp á brottu með; kom þrællinn inn á Hlaðir um daginn eptir, hann færði Ólafi konúngi höfut Hákonar jarls, ok segir alla atburði um ferð þeirra jarls, svâ sem nú var áðr tíndt. Þá mælti Ólafr konúngr: fyrir hverja sök sveikt þú jarl? Karkr svarar: ek drap mest jarl fyrir þau hin fögru fyrirheit, er þú hèzt þeim manni, er banamaðr hans vyrði, ok þat annat, at ek vissi varla, hvat ek skyldi athafazt við þau hræðiligu læti, sem jarl hafði í svefninum. Konúngr mælti: þat skal ek efna, sem ek hèt þarum, at láta þik hafa makliga ömbun fyrir þitt starf, ok leiða svâ þeim, er eptir lifa, at svíkja sína lánar-

[1]) *þannig F*; ok, *A.*

drottna; þó ath þú þjónaðir illum, þá var hann þó alt at einu þinn herra, ok áttir þú honum gott at launa, ok eigi mundir þú at síðr hafa svikit, þó at þú hefðir átt góþan lánardrottin; lèt konúngr hann þá útleiða, ok lèt höggva af honum höfuð; síþan lèt konúngr taka höfuð Hákonar jarls ok Karks, fór þá Ólafr konúngr ok fjöldi bónda með honum út til Niðarhólms [1]), sá hólmr var þá hafðr til þess at drepa þar þjófa ok illmenni, stóð þar gálgi, þar lèt konúngr atbera höfuðin bæði ok festa upp, gekk þá til allr herrinn, ok æpti upp ok grýtti at höfði jarls, ok mælti, at þar skyldi fara níðíngr með öðrum níðíngum. Eptir þat voro menn sendir upp í Gaulardal, ok tóko þeir búk jarls or gröfinni, drógu brott ok brendo; ok svâ varð mikill rómr at fjandskap þeim, er Þrændir gerðo til Hákonar jarls, at engi maðr mátti nefna hann annann veg enn jarl enn illa, var þat kall haft um allan Þrándheim ok víða annarstaðar bæði innanlands ok utanlands. En þó má þat segja af Hakoni jarli, at hann hafði marga luti til at vera höfþíngi, hann var maðr stórættaðr í allar kynkvíslir, spakr at viti, ef hann hefði viljat til góðs hafa, ok kænn við alla ríkisstjórn, snarpr ok harðfengr í orostom, ok bar opt hamíngju til at vega sigr á sínum úvinum; svâ segir Þorleifr Rauðfeldarson:

Hákon vitum hvergi
hafizt hefir runn af gunni

[1]) Nidaróss ok hólms, *B.*

fremra jarl und ferli
fólk ránar þèr mána.

Hákon jarl var avrlyndr af fé við sína menn ok lángan tíma vinsæll af alþýðu innanlands; en hina mestu úhamíngju bar slíkr höfþíngi til dánardægrs síns, ok var þat í öðru lagi eigi undarligt, þvíat Hákon jarl var allar stundir undirhyggjufullr, útrúr ok svikall bæði við vini ok úvini, hinn rammazti guþníþíngr ok blótmaðr, var þá ok sá tími kominn, er alsvąldandi guþ hafði furætlat, at blótskapr ok heiðnin ok þessi hinn vândi úvinarins erendreki Hákon jarl skyldi fyrirdæmast, en í staðinn skyldi koma heilög trúa, ok rèttir siðir blómgast fagrliga um norðrlönd fyrir góðviljafulla ástundan þessa blezaða guðs drottins sendiboða Ólafs Tryggvasonar. Þá er Hákon jarl var drepinn, hafði hann verit jarl 30 ok 5 vetr frá því er Sigurðr jarl fèll faðir hans; þá var Hákon hálfþrítögr, er faðir hans fèll, en nú skorti hann 2 vetur á sextígi, er hann var drepinn.

### *Ólafr Tryggvason til konúngs tekinn yfir Noreg.*

105. Ólafr konúngr sat at Hlöðum furst eptir fall Hákonar jarls. En er þessi tíþindi spurðust, at Hákon jarl var drepinn, en Ólafr Tryggvason kominn í stað hans, þá sóttu á hans fund allir höfþíngjar ok ríkismenn or Þrændalögum ok margt annat fólk, voro allir með einu samþykki, at þeir báðu hann vera konúng yfir sèr,

ok buðu honum sína þjónusto ok góðviljafulla lýðni; tjáðu þat fyrir honum, at þeir máttu eigi lengi höfðíngjalausir vera við þau tilfelli, sem þá höfðo vorþit; sögðo þat, sem satt var, at þeir áttu vân af jörlum Eiríki ok Sveini hinna mestu harðinda fur þys þann, er þeir höfðo gert at Hákoni jarli föður þeirra. Ólafi þóknaðist vel tal þeirra. Var þat þá ráð þeirra allra samt, at stefna 8 fylkna þíng í Þrándheimi, kom þar saman allmikit fjölmenni, er til sótti um öll Þrændalög. En er þíngit var sett, stóð Ólafr upp, ok kvaddi sèr hljóðs, tók hann síþan til máls: þat mân öllum mönnum kunnigt, þeim sem hèr ero saman komnir, at Haraldr hinn hárfagri var lánga æfvi einvalds konúngr yfir öllum Noregi, tók hann sumt ríki með náðum [1]), en sumt vann hann undir sik með hernaði; setti hann þau lög, at hverr hans ættmanna, sá er karlsift væri at lángfeðga tali frá honum kominn, skyldi vera konúngr ok taka ríki eptir föður sinn; en þvíat Haraldr konúngr átti marga sono, þá skipti hann ríki með þeim, svâ sem honum þótti hæfa, ok setti þat með, at einn skyldi vera yfirkonúngr (í senn [2]) landsins, þó at fleiri væri jafnkomnir til fyrir ættar sakir. Nú með því at þetta fólk er höfðíngjalaust, en hefir þolat áðr lengi rángligt ríki ok yfirboð, þá vil ek bjóðast til, eptir því sem margir höfðíngjar ok ríkismenn hafa áðr beidt, at gerast yðvarr konúngr, ef þèr vilit

[1]) at erfðum *B, C, F.* [2]) *betir við C.*

vera mínir þegnar; sýnist mèr svâ fyrir sumra luta sakir, sem vârt samfèlagh væri eigi úmakligt; at hvârir mætti aðra styðja ok styrkja til rèttra framferða; hefir yðr borit mikinn vanda til handa at sitja fyrir fullkominni reiði sona Hákonar jarls ok annarra frænda hans ok vina fyrir aftöku jarls; eigit þèr þaðan vân hinna mestu afarkosta, ef þèr hafit engan höfðíngja styrk í móti, sem þèr hafið áðr kært fyrir mèr; en í annann stað á ek at drífa mikinn vanda, svâ lángan missi sem ek hefir beðit minnar sæmdar, þvíat lánga æfi hefir ríki í þessu landi verit deilt gripdeildum, ok löngum viðgengizt öfund ok rángindi; þar furst er Eiríkr blóðöx drap Ólaf föðurföður minn ok marga aðra bræðr sína, þvíat fyrir ágirni sakir vildi hann einn hafa ríki þeirra: þar næst kom til ríkis Hakon Aðalsteinsfóstri, ok unni hann sæmdar frændum sínum, þeim sem eigi risu með ofbeldi ígegn honum; skipaði hann þá Tryggva, föður mínum, þat ríki, sem faðir hans hafði áðr átt, ok gaf honum konúngsnafn; hèlt hann því ríki, meþan Hákon konúngr föðurbróðir hans lifði, ok voro þeir hinir mestu ástvinir: en er Eiríkssynir höfðo ríki tekit, þá sviku þeir Tryggva konúng föður minn, ok drápu hann í trygð, at ráði Gunnhildar móður sinnar, þá er ek var í móðurkviði. Sú hin sama Gunnhildr setti margar gildrur með sinni slægð at veiða mik ok af lífi taka, þegar ek var fæddr; var Ástríðr móðir mín ok ek enn fursta vetr leyni–

ligą á Ofrostöðum með Eiríki föður hennar, en fyrir umsát ok vælræði Gunnhildar treystist hann eigi at halda okkr lengr hèr í landi; fór móþir mín þá með mik huldu höfði ok heldr fátækliga austr í Svíþjóð, þar dvöldumst við 2 ár í útlegð með Hákoni gamla, hefði Gunnhildr þá fángit mik með svikræðum fyrir sína sendimenn, ef sá góði maðr Hákon gamli hefði eigi haldit mik með valdi ok höfðíngskap fyrir hennar eptirsókn, fyrir sakir vinskapar við Eiríkmóðurföþur minn. Þvínærst þá er ek var þrèvetr, fórum við móðir mín or Svíþjóð skipferðir, ok ætlaðum austr í Garðaríki á fund Sigurðar bróður hennar; þá mættu við víkíngum, ok vorum hertekin ok seld mansali, en sumt föroneyti okkart drepit, skildi þar með okkr móþur minni, svâ at ek sá hana aldri síþan; ek var þá seldr við verði sem aðrir mansalsmenn [1]); var ek 6 vetr í þeirri ánauð á Eistlandi, þar til er Sigurðr, móðurbróðir minn, leysti mik þaðan, ok flutti mik þaðan með sèr austr í Garðaríki, þá var ek 9 vetra; aðra 9 vetr var ek í Görðum enn í útlegð, þó at fyrir manndóms sakir góðra höfðíngja væra ek þar vel haldinn; þar næst var ek á Vindlandi 3 vetr, en 4 fyrir vestan haf í hernaði; hefir ek þessar stundir, sem ætla má, þolat vâs ok erfiði, en haft þat eina frelsit, er ek var með útlendum þjóðum ok úkunnum, haft nú náliga þat eina til framfluttníngar liði mínu, er ek hefi vorþit til at

[1]) þannig B; manns menn A.

hætta lífi mínu ok minna manna, ok þar með haft í háska þat er enn er meira verdt, þó at ek greina þat eigi at sinni, þvíat margan mann saklausan höfum vèr rænt síno gódsi, en suma lífinu með, sem hermanna háttr er; en þeir menn hafa setit yfir eignum vorum ok ættleifð, sem eigi voro mjök makligir, er sátu um líf vârt ok vârra frænda með margföldum svikræðum, sem var Gunnhildr konúnga móðir ok synir hennar, en þó höfðo þeir ætt til þess at vera konúngar, ef þeir hefði eigi meira ágirnzt enn þeir áttu at rètto. En þessi höfþingi, sem hèr var nú fur skemztu, Hákon jarl, hafði burði til þess at halda föðurleifð sinni ok hafa jarlsnafn ok lèn af rèttum Noregs konúngi; en hitt voro hin mestu rángindi ok úlög, at hann rèði náliga einn öllum Noregi, en hann drap niðr konúnga þá, er hann átti undir at þjóna, suma með bardögum, en suma með svikræðum, sem ek mundi hafa mið á mèr, ef hans illvili hefði fengit framkvæmd, þvíat hann sendi Þóri klökku vestr um haf at koma mèr með vælum vestan ok á vald jarls, ella skyldi Þórir drepa mik, sem þeir menn sumir vitu, sem hèr ero á þínginu. Nú vænti ek þess, at engi maðr sè hèr í þessu landi, at rèttum lögum, jafnnærr konúngdóminum sem ek fyrir ættar sakir, ef þat er vili höfþíngja ok samþykki alþýðu. Lauk Ólafr svâ sinni ræðu, at allir harmaðu, hversu lánga eymd ok útlegð hann hafði þolat; hljóp þá upp múgr ok marg-

menni, ok vildo ekki annat heyra enn Ólafr Tryggvason væri konúngr; var þá Ólafr Tryggvason til konúngs tekinn á alsherjarþíngi yfir land alt, svâ vídt sem haft hafði Haraldr enn hárfagri, ok dæmt honum ríki at fornum lögum; hètu bændr at fá honum styrk fjölmennis til at fá ríkit ok síþan at halda, en konúngr hèt þeim ímóti lögum ok landsrètt, ok at halda þá við ágángi ok ofsókn Hákonar sona ok allra annarra, þeirra er eptirmál vildo veita [um] aftöku jarls: Tók Ólafr konúngr sèr þá hirð; þess getr Þórðr Kolbeinsson í Eiríks drápu:

Meinremmir [1]) brá manna
margs fýsa sköp varga
ljóða litlu síðarr
læ Hákonar æfi;
en til lands þess er lindar
láðstafr vegit hafði
hraustr þá er herr fór vestan
hygg ek komi [2]) son Tryggva.

*Frá lífláti Albani ok Sunnifu.*

106. Á dögum Hákonar jarls andaðist einn konúngr vestr á Írlandi, hann átti eptir eina dóttur, er hèt Sunnifva, hún var vitr snimma ok vel kristin, þvíat Írland hafði lengi kristit verit. Sunnifa var hin fegrsta mær ok þá roskin at aldri, er þessi frásögn gerðist, hèlt hún ríkit eptir föþur sinn með forræði göfugra frænda sinna ok vina; en með því at Sunnifa hafði ríki mikit, en

[1]) meinrennir, *F.* [2]) komu, *A.*

var sjálf hin fríðazta sýnum, þá gerðist til einn heiðinn hervíkíngr at biðja hennar; Sunnifa vildi því síðr giptast heiðnum manni, at hún hafði staðfest í hug sèr at þjóna einum guði í hreinlífi ok eiga engan mann á jarðríki; tók víkíngrinn þá at herja á ríki Sunnifo, ok marga vega þröngva hennar kosti, ætlaði hann svâ at nauðga henni til samlags við sik. Sunnifa stefndi þíng með sínum mönnum, ok er saman voro komnir frændr hennar ok vinir, segir hún svâ: ek hefi yðr samankallat, hinir kæraztu vinir! til ráðagerðar um ríki þetta, er ek hefir stjórnat nökkura stund með yðr, en nú tekr mik at þröngva ofsi ok ágángr illra manna, sem allra þeirra er stunda til fallvaltra fagnaða þessa ens skammæliga lífs; fyrir því hefi ek hugsat at ek skal aldri lengr bera avnn ok áhyggju, sem ein ambátt, fyrir þessu vesæla ríki, sem engu er nýtt hjá eilífum fagnaði, heldr skal ek svâ sem ríkborin gera mik freálsa ok gefast á vald ok forseá míns drottins Jesú krists, ok svâ munu þeir gera er mèr vilja fylgja, en allir skulu freálsir ok sjálfráðir at halda síno fóstrlandi, þó at ek ráðumst frá. En svâ var Sunnifa elskuligh öllu fólki, at fjöldi manna vildi fara brotto með henni, bæði karlar ok konur, ok fyrirláta sína óðalsjörð. Eptir þat aflaði Sunnifa þeim skipa; bjóst til ferðar með henni mikit lið; þau hèldo undan landi skipum sínum, þegar er þau voro buin,

með því móti at þau höfðo hvårki segl nè árar, eigi stýri ok engan skipreiða, engi vopn nè herklæði; merkti Sunnifa þat í þessu, at hún treysti meirr almætti alsvaldanda guðs enn veraldligum fararbeina eðr fulltíngi; fal hún sik ok alt sitt föroneyti á hendr lifanda guði, ok bað hann vísa þeim leið, ok stýra þeim hvert er hann vildi. Rak þau síðan um haf innan, þartil er þau bar með guðs fulltíngi at eyjum þeim, er liggja við Noreg fyrir sunnan Staði, heitir önnur eyjin Selja en önnur Kinn; þessar eyjar voro úbygðar af mönnum, en fènaðr var þar landsmanna, sem víða í úteyjum, þvíat miklar bygðir voro inn á landit af eyjunum. Sunnifa gekk á land í Selju ok fólk hennar, þat er þar kom við, fjall mikit var vestr á eyna, þar voro í fjallinu hamrar ok hellar stórir, bjöggust þau þar fyrir ok bygðo hellana; þar dvöldust þau lánga hríð ok þjónaðu guði með miklum góðvilja ok margfaldri bindandi, ok fæddust við fiska þá, er menn Sunnifo veiddu or vötnum. En er bygðarmenn af meginlandi vurðu varir við mannavist í eyjunum, þá hugðu þeir, at spellvirkjar mundi vera ok leggjast á fè þeirra; fóro bændr þá til fundar við Hákon jarl, ok segja at fjöldi illvirkja ok útilegumanna voro í eyjunum Selju ok Kinn, ok gjörðo mikinn skaða á fènaði landsmanna, báðo þeir hann tilfara með fjölmenni ok drepa víkínga þá, er í eyjunum voro; jarl gjörði sem þeir báðu, fór hann til eyjanna með

miklu herliði, vopnaðu sem til bardaga; en er þeir góðu guðs vinir, sem fyrir voro, sá ferð þeirra, þóttust þeir vita, at þeim mundi atsókn veitt, þeir gengu þá inn í hella sína ok báðu almáttigan guð, at hann gæfi öndum þeirra eilífa hvíld paradísar sælu hverjum dauða sem þau dæi, ok þar með báðu þau guð veita þeim þann gröft, sem hans var mildi til ok miskun, svâ at eigi hefði vândir heiþíngjar vald yfir líkamum þeirra; alsvaldandi guð veitti þeim þat er þau báðu, at þeir guðs dýrðlíngar endaðu sitt líf með því móti, at stór björg fèllu fur hella þá er þau voro inni; tóko þau svâ ömbun eilífrar sælu fyrir sína stundliga góðgerninga. En heiðíngjar komu til eyjanna ok leitaðu mannanna, ok þótti mjök undarligt, er þeir fundo þá eigi, þar sem þeir höfðo sjeth þá litlu áðr enn þeir komo at eyjunum; fóro þeir aptr við svâ gert.

*Þórðarnir komu við eyjuna Selju.*

107. Nökkuru síðarr þá er Hákon jarl var dauðr, en Ólafr Tryggvason kominn til ríkis í Noregi, þá bar svâ til, at tveir ríkir bændr [1]) fóro á skipi með nökkura menn sunnan or Fjörðum, ok ætlaðu norðr til Þrándheims á fund Hákonar jarls, þvíat þeir höfðo þá enn eigi spurt höfþíngja skiptit. Þeir fóro nærr eyjunni Seljo [2]), þvíat hún liggr við þjóðleið,

[1]) annarr Þórðr Egileifarson en annarr Þórðr Jórunnarson, *bætir við F.* [2]) ok komu í Úlfssund, *bætir við F.*

þá sá þeir skína or himninum ofan mikit ljós ok fagurt á sjóinn náliga við eyna, svâ at þessi bjartleikr tók landit á eyjunni, þeim þótti þessi sýn mjök undarlig, lètu þó at landi ok vildo forvitnast, hvat þar var undir, sem þessi geisli skein ofan; en er þeir gengu á land í eyjunni, fundu þeir skamt frá sjónum, þar rètt sem þeir höfðo ljósit sèð, mannshöfuð, þat var bjart ok þekkiligt, þar með kendo þeir svâ sætan ilm at þeir höfðo aldri furr slíkan kendan, en með því, at þeir voro heiðnir, skildo þeir eigi, hvat sá hinn ágæti ilmr merkti, en þótti þó mikils umverdt; tóko þeir upp höfuþit með vegsemð, vöfðu í hreinum dúki, ok höfðo með sèr, ok ætlaðu at færa Hákoni jarli, þvíat þeir ætlaðu at hann mundi skynja með sínum vitrleik, hvat þetta táknaði, fóro síþan leiðar sinnar. En er þeir komu norðr um Stað, frèttu þeir þá, at Hákon jarl var drepinn, en til ríkis í stað hans var kominn ágætr konúngr Ólafr Tryggvason; þessir menn hèldo fram sinni ferð ei at síðr, ætlaðu nú at finna þenna hinn nýja konúng, þvíat þeim var mikit sagt af hans gæzku ok höfþíngskap; lèttu þeir eigi furr sinni ferð enn þeir komu norðr á Hlaðir á fund Ólafs konúngs, hann tók við þeim með miklum blíðskap, þegar hann vissi hverir þeir voro; tók hann brátt at boða þeim helga trú, ok bað þá skírast láta, ok ef þith gerit þetta, segir konúngr, eptir mínu boði, þá skulit þith hafa þar í mót fullkomna

mína vináttu. Þeir tóko því ekki fjarri, sögðo, at þeir voro fúsir at veita honum sína þjónusto; talaþust þeir við um hríð, frètti konúngr tíþinda sunnan or landi; þeir segja slíkt sem hann spurði; því næst sögðo þeir konúngi alt um ferðir sínar, ok sýndo honum höfuþit, er þeir höfðo fundit í eynni Selju. Hirðbiskup Ólafs konúngs, er hann hafði flutt vestan af Englandi, hèt Sigurðr, ok var kallaðr Sigurðr ríki, hann var bæði vitr ok góðgjarn ok klerkr mikill. Nú sem þeir konúngr ok biskup sá höfuþit, sögðu þeir, at þat var sannliga heilags manns höfut; tók konúngr þá at telja trú fyrir þessum mönnum, er höfðu fundit, ok sagði svâ til þeirra: mikill fagnaðr ok gleði má verða öllum góðum mönnum ok rètttrúaðum af umhugsan almáttigs guðs miskunar, þó at ekki auga megi seá eðr eyra heyra ok engis manns hugr hugsa, hversu ágæta ömbun vârr drottinn veitir sínum þjónustomönnum fyrir stundligt erfiði, en til þess hefir hans mikla mildi sýnt ykkr þetta tákn at þith skyldit því skjótara sjálfviljandi snúast frá skurðgoða villu til sannrar trúar ok heilagrar skírnar, sem öllum verðr augljósara ef um hugsa, at hinn háleite himna konúngr mân allmikla dýrð veita sálum sinna ástvina í himinríkis fagnaði, þar er hann lætr kennast svâ ágætan ilm af dauðum ok þornaðum limum þeirra líkama, at eigi mætti slíkr verða af öllum ilmandi grösum. Þessum hinum góðum mönnum fanst svâ mikit um ræðu konúngs, at þeir játaðu þegar

at trúa á sannan guð; voro þeir þá skírðir ok þeirra föroneyti; síþan hafði konúngr þá í boði síno, ok veitti þeim hina virðuligaztu veizlu meðan þeir voro í hvítavâðum, ok lèt kenna þeim heilög fræði; síþan fóro þeir með góðum gjöfum ok vináttu konúngs heim suðr til búa sinna. En þeir konúngr ok biskup höfðu þat hit helga höfut í sinni varðveizlu alt þar til er Ólafr konúngr átti þíng suðr á Staði á Dragsheiði, sem síðarr mân getið verða. Eptir þíngit leitaði konúngr eptir við þá menn, er næstir bjöggu eyunni Seljo ef nökkura nýjúng hefði fyrir þá borit; var honum sagt, at þángat var optliga at seá fagurt ljós. Síþan fóro þeir Ólafr konúngr ok Sigurðr biskup til eyjarinnar Seljo með miklu liði, ok sá þeir, er þeir komu vestr á eyna at hömrunum, at þar höfðo verit stórir hellar ok höfðo fallit eigi fyrir mörgum vetrum; þar fundo þeir ok hvarvitna *milli steinanna* manna-bein með hinum sætazta ilm; um síðir komu þeir at, þar er bjargit hafði nýliga sprúngit frá einum hellismunna, þar fundo þeir líkama hinnar helgu meyjar Sunnifo heilan ok úskaddan með holdi ok hári, sem hún væri með öllu ný öndut; þeir tóko upp helgan dóm ok bjöggu um virðuliga með miklum fagnaði ok háleito guðs lofi. Síþan var bygð eyin ok þar reistar kirkjur, ok var þar í eyunni dýrðkaðr heilagr dómr hinnar sælu Sunnifo, þar til er hennar blezaðr líkamr var fluttr suðr til Björgynjar, ok hvílir

hún þar nú í miklu skríni ok virðuligu yfir háaltari í Krists kirkju.

*Frá Albanó, bróður Sunnifu.*

108. Ólafr konúngr gaf úaflátliga þakkir alsvaldanda guði, einkanliga fyrir þat, er hann virðist með sinni háleitri miskun á hans dögum at birta dýrð sinnar þjonustokonu Sunnifo ok hennar hinnar háleitu sveitar; þvíat allir skynsamir menn kveiktust til ástar við almáttkan guþ ok lýðni við konúnginn þaðan af, er þeir sá opinberliga birtast af slíkum stórmerkjum, at sú var sönn trúa, er Ólafr konúngr boðaði, ok þat eitt er at ríkja at þjóna lifanda guþi. Þat finst skrifat, at bróðir Sunnifó, sá er Albanus er nefndr, hafi verit í þesso hinu helga liði ok farit vestan um haf með Sunnifo, en því er hèr ekki af honum sagt, at þat sýnist efanligt, þvíat þat segja þeir menn, er í Selju hafa verit ok þar er kunnigt, at þar sè mikil kirkja helgut guðs píslarvâtt Albanó, þeim er furstr var píndr fyrir guðs nafni, ok segja þeir menn svâ, at þar sè háleitliga dýrkat höfut heilags Albaní, er drepinn var á Englandi. At þeirri kirkju, er þessum Albanó var helgut, [er [1]) svart-múnkaklaustr; þar í [kirkjunni ero mörg [2]) skrín bæði stór ok smá, er gjör hafa verit helgum dómum þeirra enna góðu manna, er í ferð voro með Sunnifo; en Sunnifo kirkja er upp í fjallit hjá

[1]) *þannig B, C*; þvíat, *A.* [2]) *þannig B, C*; eyjunni ero mörg ok svâ, *A.*

klaustrinu. Svâ er sagt, at í helli þeim, er fanst líkami ennar sælu Sunnifo, spretti vatn or berginu, ok rennr þaðan lítill lækr, ok fá margir sjúkir menn heilsu er bergja. Messudagr guðs meyjar Sunnifo ok hennar sælu sveitar er haldin af Norðmönnum enn 8 *idus* dag Júlíí mánaðar, er vër köllum Seljumannamessu. Í Selju veitir vârr drottinn Jesús kristr mörg stórtákn fyrir verðleika þeirra sinna dýrðlínga, sem þar ero dýrkaðir [1]) at eilífu.

*Eiríkr ok Sveinn bræðr stukku or landi.*

109. Ólafr konúngr fór yfir landit um vetrinn eptir, er hann var til konúngs tekinn í Þrándheimi, ok lagði undir sik; var hann til konúngs tekinn á hverju lögþíngi, ok snèrust til lýðni við hann allir menn í Noregi, jafnvel þeir höfþíngjar á Upplöndum eðr austr í Vík, er áðr höfðo haldit land af Dana konúngi, þá gerðust þeir menn Ólafs konúngs ok hèldo lönd ok lèn af honum; fór konúngr svâ enn fursta vetr ok um sumarit eptir. Eiríkr jarl Hákonarson ok Sveinn bróðir hans ok aðrir frændr þeirra ok vinir flýðu landit, ok sótto austr [2]) í Svíaveldi til Ólafs Svía konúngs, fengu þeir þar góþar viðtökur; svâ segir Þórðr Kolbeinsson:

Hafði sèr við særi
slíks var vân at hânum
auðs, en upp of kvæði

[1]) þannig *B*; eignaðir, *A*. [2]) þannig *B*, *C*; aptr, *A*.

Eiríkr í hug meira;
sótti reiðr at ráðum
rann engi því manna
þrályndi gafst Þrændum
þrænzkr jarl gram sænskan.

*Fundr Íslands af Norðmönnum.*

110. Svâ segir heilagr prestr Beða í aldarfarsbók þeirri, er hann gerði um landaskipan í heiminum, at eyland þat, er Thíle er kallat í bókum, liggi svâ lángt í norðrhálfu heims, at þar komi eigi dagr á vetrinn, þá er nótt var lengzt, ok eigi nótt á sumar, þá er dagr er lengztr. Fyrir því ætla vitrir menn, at Ísland sè Thíle kallat, at þat er víða á því landi, at sól sezt eigi um nætr, þá er dagr er lengztr; þar er ok þat víða, at sól má eigi seá um daga, þá er nótt er lengzt. En hinn heilagi Beða prestr andaðist 735 árum eptir holdgan vârs drottins Jesú krists, meirr enn hundraði ára furr enn Ísland bygðist af Norðmönnum. En áðr Ísland bygðist af Noregi, höfðo þar verit þeir menn, er Norðmenn kalla Papa, þeir höfðo verit kristnir, þvíat fundost eptir þeim bækr írskar, bjöllur ok baglar, ok enn fleiri lutir, þeir er þaðan af mátti skilja, at þeir voro kristnir menn, ok komnir til vestan um haf; vísa ok svâ til bækr enskar, at í þann tíma hafi verit farit í milli landanna.

111. Þá er Ísland fanst ok bygðist, var Aðríanus pávi í Rómaborg, ok eptir hann Jóhannes, sá er hinn 5ti var eptir hann með því

nafni í postuliga sæti; en Löðver Löðversson keisari fur norþan fjall, en Leó ok Alexander, synir hans, yfir Miklagarði; þá var Haraldr enn hárfagri konúngr yfir Noregi, en Eiríkr Eymundarson í Svíþjóð ok Björn son hans; Gormr enn gamli at Danmerk; Elfráðr hinn ríki í Englandi ok Eátvarðr son hans; Kjarvall at Dýflinni á Írlandi, en Sigurðr hinn ríki jarl at Orkneyjum, bróðir Rögnvalds Mæra jarls.

112. Svâ segja vitrir menn, at or Noregi frá Staði sè 7 dægra siglíng í vestr til Horns á austanverðo Íslandi. En frá Snæfellsnesi, þar sem skemst er, til Grænlands 4 dægra haf í vestr at sigla. En svâ er sagt, ef siglt er or Björgyn til Hvarfsins á Grænlandi [1]), at þá mun siglt vera tylft fyrir sunnan Ísland; frá Reykjanesi á sunnanverðo Íslandi er 5 dægra haf til Jölduhlaups á Írlandi í suðr; en frá Lánganesi á norþanverðu Íslandi 4 norðr til Svalbarða í hafsbotn.

*Frá landnámsmönnum.*

113. Svâ er sagt, at menn skyldo fara or Noregi til Færeyja, nefna sumir menn til þess víkíng þann, er hèt Naddoddr, en þá rak lángt vestr í haf, þeir fundo þar land mikit, komu þeir austan at landinu, ok gengu þar upp á fjall eitt hátt ok sást um víða, ef þeir sæi reyki eðr nökkur líkindi til þess, at þat land væri bygt, ok vurðo þeir ekki við þat varir; þeir fóro aptr um haustið til Færeyja, en áðr þeir sigldo brott,

[1]) í vestr fult, *bætir við C.*

snjáfaði mjök á fjöll, ok fyrir því kallaðu þeir þat Snjóland, þeir lofaðu mjök landit. Þat heitir nú [Reiðarfjörðr [1]) í Austfjörðum, er þeir höfðo at komit; svâ segir Sæmundr prestr hinn fróði.

114. Maðr hèt Garðarr Svavarsson, sænskr at ætt, hann fór at leita Snjólands at tilvísan [moðr [1]) sinnar [framsýnnar [1]) ok Odds; hann kom at landinu fyrir austan horn hit eystra, þar var þá höfn góð. Garðarr sigldi umhverfis landit, vissi hann því, at þat var eyland. Garðarr hèlt inn á fjörð þann, er hèt síþan Aspandi [2]). Hann lagði til hafnar fyrir austan fjörðinn, ok var þar um vetr, ok gerði sèr hús, því hèt þar Húsavík. Um vârit, er Garðarr var búinn til hafs, sleit frá honum mann á báti, er hèt Náttfari, ok með honum þræll ok ambátt, hann kom at landi fur vestan fjörðinn, ok bygðo þau þar sem síþan hèt Náttfaravík. Garðarr fór þá til Noregs, lofaði mjök land þat, er hann hafði fundit, var þá landit kallat Garðarshólmr; þá var um alt landit skógr milli fjalls ok fjöru. Garðarr var faðir Una, föður Hróars túngugoða.

115. Flóki Vígerðarson hèt víkíngr mikill, hann fór at leita Garþarshólms, ok siglði þar út sem heitir Flókavarði, þar mætist Rogaland ok Hörðaland; hann fór furst til Hjaltlands, ok lá þar í Flókavâgi, þar týndist Geirhildr dóttir hans í Geirhildar-vatni. Með Flóka var á skipi bóndi sá noræenn, er hèt

[1]) *þannig B, sèst ekki í A.* [2]) Skjálfandi, *B, C.*

Herjólfr ok annarr Þórólfr; þar var ok sá maðr suðreyskr, er hèt Faxi, flutti hann 3 hrafna með sèr í haf, en er hann lèt lausan hinn fursta hrafnin, þá fló hann aptr um stafnin, en annarr fló í lopt upp ok aptr til skipsins, hinn þriði fló fram um stafn í þá ætt, sem þeir fundo landit; þeir komo austan at horni, ok sigldu fyrir sunnan landit; en er þeir siglde vestr um Reykjanes ok upplauk firðinum svâ, at þeir sá Snæfellsnes; þá mælti Faxi: þetta mân vera mikit land, sem vèr höfum hèr fundit, hèr ero vatnföll stór; þeir sá þá ós mikinn falla í sjóinn, síþan er þat kallat Faxaóss. Þeir Flóki sigldo vestr yfir Breiðafjörð, ok tóko þar land sem heitir Vatzfjörðr við Barðaströnd, þá var fjörðrinn fullr af veiðiskap, ok gáðo þeir eigi fyrir veiðum at fá heyjanna, ok dó fyrir þeim alt kvikfè um vetrinn; vârit var heldr kalt; þá gekk Flóki upp á fjall hátt, ok sá norðr yfir fjöllin fjörð fullan af hafísum, því kölluðo þeir landit Ísland, sem síþan hefir heitit. Þeir Flóki ætlaðo brotto um sumarit, ok vurðu búnir litlu fyrir vetr, en er þeir sigldu, beit þeim eigi fyrir Reykjanes, ok sleit frá þeim bátin ok þar á Herjólf, hann rak þar á land, sem nú heitir Herjólfshöfn [1]). Flóki var um vetrinn í Borgarfirði, ok fundust þeir Herjólfr; þeir sigldo um sumarit eptir til Noregs, en er menn spurðu af landinu, lèt Flóki illa yfir, Herjólfr sagði kost

[1]) Herjólfshöfði, C.

ok lavst á landinu, en Þórólfr lofaði svâ mjök landit, at hann kvað þar drjúpa smjör af hverju stráe, því var hann kallaðr Þórólfr smjör.

116. Björnólfr hèt maðr, en annarr Hróaldr, þeir voro synir Hrómundar Gripssonar, þeir fóro af Þelamerk fyrir víga sakir, ok staðfestust í Dalsfirði á Fjölum í Sogni. Son Björnólfs hèt Örn; Örn átti 2 börn, son hans hèt Íngólfr, en Helga dóttir, hún var kvenna vænst. Hróaldr átti þann son, er Hróðmarr hèt, son Hróðmars hèt Leifr. Þeir Íngólfr ok Leifr gerðust fóstbræðr. Í þann tíma var Atli hinn mjóvi jarl á Gaulum; hans synir voro þeir Hásteinn, Hersteinn ok Hólmsteinn. Þeir fóstbræðr Íngólfr ok Leifr gerðo fèlag við sono Atla, ok fóro í hernat allir samt, þeir komu heim at hausti með herfáng mikit; fóro með þeim öll skipti vel, skilðu þeir með vináttu, ok mælto til samfara með sèr annat sumar eptir. En um vetrinn gerðo þeir fóstbræðr jarlssonum veizlu; at þeirri veizlu strengði Hólmsteinn heit, at hann skyldi eiga Helgu Arnar dóttur eðr enga konu ella; um þessa heitstrengíng fanst mönnum fátt, en Leifr roðnaði á at seá, ok skildo þeir Hólmsteinn heldr fáliga. Um vârit eptir bjöggust þeir fóstbræðr at fara í hernat, ok ætlaðu til fundar við sono Atla jarls, sem mælt hafði verit um haustið, þeir fundost [1]), ok lögðo þeir Hólmsteinn bræðr þegar til orosto við þá Leif. En er þeir höfðo barizt um hríð, þá kom

[1]) við Hísargafl, *bæta við B, C.*

at þeim Ölmóðr hinn gamli son Hörðakára, hann var frændi Leifs, ok veitti hann þeim liðsinni, í þeirri orosto fèll Hólmsteinn en Hèrsteinn flýði; þeir Leifr fóro þá í hernat um sumarit, ok kom heim at hausti; en um vetrinn eptir fór Hersteinn at þeim Íngólfi ok vildi drepa þá; þeir Íngólfr höfðo njósn af ferðum hans, ok gjörðo í móti honum, varð þá enn orosta, ok fèll þar Hersteinn; eptir þat kom at þeim fóstbræðrum vinir þeirra or Firðafylki, voro þá sendir menn á fund þeirra Atla jarls ok Hróðmars [1]), at bjóða sættir, ok varð þat at sættum með þeim, at þeir Leifr guldo þeim feðgum jarþir sínar, en þeir fóstbræðr bjöggu skiph mikit, ok fóro at leita lands þess, er Hrafnaflóki hafði fundit; þeir fundu landit ok voro um vetrinn í Austfjördum í Álptafirði enum syðra; en er þeir kannaðu landit, virðist þeim betra suðr enn norðr. Á næsta sumri fóro þeir aptr til Noregs; varði Íngólfr þá fè síno til Íslandsferðar, en Leifr fór í vestrvíkingh, hann herjaði á Írland, þar fann hann jarðhús mikit; Leifr gekk í jarðhúsit ok var þar murkt alt þartil er lýsti af sverði því, er maðr sá hèlt á, er flýit hafði undan Leifi, Leifr drap þann mann, en tók sverþit ok mikit fè annat; sverð þat var allgóðr gripr, þaðan af var hann kallaðr Hjörleifr. Hjörleifr herjaði víða um sumarit um vestrlönd, ok fèkk þar mikit herfáng, þar tók hann þræla 10, hèt sá Dúfþakr, er helzt var fyrir þeim. Síþan

[1]) Hásteins, *B*, *C*.

fór Hjörleifr til Noregs, ok fann þar Íngólf fóstbróður sinn, hann hafði áðr fengit Helgu Arnar dóttur systur Íngólfs. Þann vetr fèkk Íngólfr at blóti miklu, ok gekk til frèttar um forlögh sín, vísaði frèttin honum til Íslands; Hjörleifr vildi aldri blóta. Eptir um vârit bjó sitt skip hverr þeirra mága til Íslands, hafði Hjörleifr herfáng sitt á skipi, en Íngólfr fèlagsfè þeirra, ok lögðu til hafs þegar þeir voro búnir. Þat var á sètta áre ríkis Haralds konúngs hins hárfagra, er menn fóro at leita Íslands, en 7 vetrum síðarr fóro þeir Hjörleifr at byggja landit, sem nú var sagt. Þat var á 13 áre konúngdóms Haralds hins hárfagra, þá hafði hann verit tvâ vetr einvalds konúngr at Noregi síþan Hafursfjarðar orosta var; þat var fjórum vetrum eptir fall Eátmundar konúngs á Englandi ens helga. Þá var liþit frá upphafi heims þessa 6000 vetra 70 ok 3 [1]) vetr; en fra holdgan vârs drottins Jesú Krists 870 ok 4 ár. Þeir Íngólfr höfðo samflot til þess er þeir sá Ísland, síþan skildi með þeim. Þá er Íngólfr sá landit, skaut hann fyrir borð önðvegis súlum sínum, sagði at hann skyldi þar byggja sem súlurnar ræki á land. Íngólfr tók þar land, sem nú heitir Íngólfshöfði; en Hjörleif rak vestr fyrir, ok fèkk hann vatnfátt, þá tóko þrælarnir írsku þat ráð at bræða [2]) saman mjöl ok smjör, ok sögðu þat úþorstlátt, þat kallaðu þeir minðak, en er þat [3]) var tilbúit, þá kom regn mikit ok

[1]) 4, C. [2]) knoða, B, C. [3]) hann, B, C.

tóko þeir sèr vatn á tjöldum, en er minðakit [1]) tók at mygla, kastaðo þeir því fyrir borð, ok rak þat á land sem síþan heitir Minðakseyr. Hjörleifr tók land við Hjörleifshöfða, þar var þá fjörðr ok horfði botnin at höfðanum, hann lèt þar gera skála 2, er önnr tóptin 18 faðma, en önnr 19, sat Hjörleifr þar um vetrinn. Um vârit vildi Hjörleifr sá, hann átti einn uxa, ok lèt hann þrælana draga arðrinn; en er þeir Hjörleifr voro at skálasmíð en þrælarnir skyldo erja, þá gerði Dúfþakr þat ráð at drepa uxann, ok segja at skógarbjörn hefði drepit, en síþan skyldo þeir ráða á þá Hjörleif, ef þeir leitaði bjarnarins. Þetta sögðo þeir Hjörleifi ok hans fèlagum at björn hefði drepit uxann; en er þeir dreifðust á skóginn at leita bjarnarins, þá sóttu þrælarnir at sèrhverjum þeirra, ok myrðu þá alla jafnmarga sèr, síþan fóro þeir þaðan brottu með konur þeirra er drepnir voro ok lausafè ok bátinn frá skipinu, þrælarnir fóro í eyjar þær er þeir sá í útsuðr til hafs ok bjöggust þar fyrir. Vívill ok Karli hètu þrælar Íngólfs, þá sendi Íngólfr vestr með sjó at leita önðvegissúlna sinna, en er þeir komo til Hjörleifshöfða, fundu þeir Hjörleif dauðan, þá fóro þeir aptr ok sögðu Íngólfi þau tíþindi, hann lèt illa yfir drápi Hjörleifs; fór Íngólfr þá vestr til Hjörleifshöfða. En er Íngólfr sá Hjörleif dauðan, þá mælti hann: lítit lagðist hèr fyrir

[1]) *gizkat fyrir* minðakann, *A*; mindakin, *B*.

góðan dreing, er þrælar skyldo þèr at bana verða, ok sè ek svâ flestum fara, ef eigi vilja blóta. Íngólfr lèt grefta þá Hjörleif ok seá fyrir skipi þeirra ok fjárlut. Síþan gekk Íngólfr upp á höfðann, hann sá eyjar til útsuðrs í hafit, kom honum þá í hug, at þrælarnir mundi þángat hafa leitat, því at bátrinn var horfinn; fóro þeir Íngólfr út til eyjanna, ok fundo þá þar, sem heitir Eið [1]). Þrælarnir sátu at mat, er þeir Íngólfr komo at þeim, þeir vurðu þegar felmsfullir, ok ljóp sinn veg hverr þeirra. Íngólfr drap þá alla, suma með vopnum, sumir stukku fyrir björg ofan, svâ sem örnefni ero viðkend, heita þar síþan Vestmannaeyjar, þvíat þrælarnir voro kynjaðir vestan um haf. Þeir Íngólfr höfðo með sèr konur þeirra, er myrðir höfðo verit, fóro þeir Íngólfr aptr til Hjörleifshöfða, voro þeir þar vetr annann. En um vârit eptir fór hann vestr með seá, var hann hinn 3ja vetr undir Íngólfsfelli fyrir vestan Ölfusár [2]). Á þeim misserum fundu þeir Vívill ok Karli öndvegissúlur Íngólfs við Arnarhvâl fyrir norþan heiði. Íngólfr fór úm vârit ofan um heiði, hann tók sèr bústað þar sem öndvegissúlur hans hafði á land rekit; hann bjó í Reykjarvík.

117. Íngólfr var göfgaztr allra landnámsmanna, þvíat hann bygði furstr Ísland. Gjörðo þat síþan allir landnámsmenn at hans dæmum. Íngólfr átti Hallveigu Fróðadóttur, systur Lopts

[1]) Þrælaeið, B, C. [2]) Ölfusá, B, C.

ens gamla; þeirra synir voro Þorsteinn, er þíng lèt setja á Kjalarnesi áðr alþíngi var sett. Son Þorsteins var Þorkell máni lögsögumaðr, er einn heiðinna manna hefir verit siðaðr nærr betr enn menn viti dæmi til; hann lèt bera sik í sólar geisla í banasótt sinni, ok fal sik á hendi þeim guði, er sólina hafði skapat; hann hafði ok lifat svâ rèttvísliga sem þeir kristnir menn, er nærr bezt hafa verit siðaðir. Son Þorkels mána var Þormóðr, er þá var allsherjar goði, er kristni kom á Ísland; hans son var Hamall, faðir Máss ok Þormóþar ok Torfva.

118. Björn buna hèt hersir ágætr í Noregi, hann var son Veðrgríms; móþir Gríms var Hervör, dóttir [Þorgerðar Eylaugs dóttur [1]), hersis or Sogni. Frá Birni bunu er komit nærr alt stórmenni á Íslandi. Kona Bjarnar hèt Velaug, þau áttu 3 sono: hèt einn Ketill flatnefr, annarr Hrappr, þriði Helgi, þeir voro ágætir menn, ok ero margar sögur frá þeim ok þeirra afkvæmi. Þórðr skeggi hèt son Hrapps Bjarnarsonar bunu; Þórðr átti Vilborgu Osvaldsdóttur; Helga hèt dóttir þeirra, hana átti Ketilbjörn enn gamli. Þórðr skeggi fór til Íslands. Þórðr bjó á Skeggjastöðum at ráði Íngólfs í hans landnámi. Frá Þórði skeggja er komit mart stórmenni á Íslandi.

119. Avrlýgr hèt annarr son Hrapps Bjarnarsonar, hann var at fóstri með Patrechi bisk-

[1]) Þorgeirs sonar, *C*; Þorgerðar Eylaugs sona, *B*.

upi í Suðreyjum. Avrlýgr fýstist at fara til Íslands, ok bað Patrech biskup at hann sæi um með honum. Biskup svarar: veita mân ek þèr umseá, ef þú vill mínum ráðum fara; nem þú þar land sem þú sèrr fjöll tvav af hafi, ok er dalr í hvârutveggja fjallinu, reis þú bústað þinn undir hinu syðra fjallinu, þar skaltu láta kirkju gera til dýrðar guði ok hinum heilaga Columbe; biskup lèt hann með sèr hafa kirkjuviðinn ok járnklokku, ok plenaríum ok mold vígða, er hann skyldi leggja undir hornstafi kirkjunnar; biskup bað hann vel halda trú sína, er hann hafði kent honum. Síþan lèt Avrlýgr í haf með síno föroneyti, þeir fengu útivist harða, ok vissu þeir eigi hvar þeir fóro, þá hèt Avrlýgr á guð til landtöku þeim, ok þar með á Patrech biskup, ef hann mætti þeim nökkura hjálp veita, at hann skyldi af hans nafni gefa örnefni þar sem þeir tæki furst land; litlu síðarr sá þeir land ok voro komnir vestr um landit, þeir komo þar at, er nú heitir Örlýgshöfn, en fjörðinn inn frá kallaðu þeir Patrechsfjörð; þeir voro þar um vetrinn; en um vârit bjó Örlýgr skip sitt, hann sigldi suðr um Snæfellsjökul, en er hann kom á fjörðinn inn, þá sá hann fjöll tvav ok dal í hvârutveggja, kendi hann þá at Patrechr biskup mun honum þar hafa til vísat, hèlt hann at enu syðra fjallinu, ok var þat Kjalarnes; þar hafði áðr numit land Helgi bjóla bræðrúngr Avrlýgs. Helgi bjóla var

son Ketils flatnefs, Bjarnarsonar bunu. Avrlýgr var hinn næsta vetr með Helga frænda sínum, en um vârit setti hann bú saman at ráði Helga; hann bjó at Esjubergi, ok lèt þar kirkju gera, sem hann hafði heitið Patrechi biskupi; hèlt hann rètta trú sem biskup hafði kent honum, ok svâ segist, at hans son hafi aldri blótað skurðgoð. Margir voro þeir menn aðrir, er skírðir komu út higat til Íslands ok námu hèr land; en fyrir því at miklu voro fleiri landnámamenn heiðnir ok blótmenn miklir, þeir er með öllu afli stóðu móti rèttum átrúnaði, ok með illgirnd amaða ok fyrirdæmdu kristna menn, sem sagt mun verða síðarr, en hinir sjálfir úngir í trúnni, þá hurfu þeir sumir aptr til heiðni, er áðr voro kristnir at kalla; en þó at nökkurir landnámamenn kastaði eigi með öllu kristni, þá voro náliga öll þeirra börn heiðin ok afkvæmi, þvíat kennimenn voro enghir á landinu nè aðrir þeir, at fólkit siðaði.

120. En fyrir því er hèr ritað af nökkurum landnámsmönnum, at þat sýnist eigi úviðrkvæmiligt at geta í þessi frásögn nökkurra þeirra manna, er hèr hafa trúat á sannan guþ, furr enn kristnin var lögtekin á Íslandi, ok segja hverrar ættar þeir menn hafa verit, svâ sem þat sè fyrirboðan eða tilruðníng þess hins fagnaðarfulla umskiptis sem eptir ferr, at alt landsfólkit snèrist frá fjandans villu til sanns drottins þjónusto, svâ at æ síþan hefir kristindómr haldizt

ok próvazt, en aldregi eyðst. Avrlýgr hinn gamli at Esiubergi átti mörg börn ok mikit afkvæmi.

*Frá Katli Flatnef ok hans niðjum.*

121. Haraldr konúngr hinn hárfagri herjaði vestr um haf, sem furr er ritað; hann lagði undir sik allar Suðreyjar, svâ lángt vestr, at engi konúngr hefir lengra eignazt síþan. En þegar er konúngr hafði austr siglt til Noregs, þá slógust í Suðreyjar víkíngar Írar ok Skotar, herjaðu þar ok rændu víða; en er Haraldr konúngr spurði þat, sendi hann vestr Ketil flatnef, son Bjarnar bunu, at vinna aptr Suðreyjar undir Harald konúng. Ketill flatnefr átti Yngvildi dóttur Ketils veðrs, hersis af Hríngaríki; þeirra synir voro þeir Björn enn austræni ok Helgi bjóla; dætr þeirra voro þær Auðr en djúpauðga ok Þórunn hyrna. Ketill setti Björn son sinn til at gæta eigna sinna eptir í Noregi, en hann fór vestr með önnur börn sín ok konu; hann lagði undir sik allar Suðreyjar, ok gerðist höfþíngi yfir, en galt enga skatta Haraldi konúngi, sem ætlat hafði verit; fyrir því tók Haraldr undir sik allar þær eignir, er Ketill átti í Noregi, en rak á brottu Björn son hans. Björn fór furst vestr um haf til Suðreyja, ok vildi ekki þar staðfestast, því var hann kallaðr Björn enn austræni; hann fór til Íslands ok nam land í Breiðafirði, ok bjó í Bjarnarhöfn; hann er heygðr við Borgarlæk, þvíat hann einn var eigi skírðr af börn-

um Ketils flatnefs, en Ketill var skírðr fyrir vestan haf, ok alt hans skulda lið, þat er með honum var.

*Auðr hin djúpauðga kom til Íslands.*

122. Ólafr [1]) hèt herkonúngr, er kallaðr var Ólafr hvíti; hann var son Íngjalds konúngs, Helgasonar, Guþröðarsonar, Hálfdánarsonar hvítbeins Upplendínga konúngs. Ólafr hvíti herjaði í vestrvíkíng, ok vann Dýflina á Írlandi ok Dýflinnarskíri, ok gerðist þar konúngr yfir. Ólafr fèkk Auþar hinnar djúpauðgu, dóttur Ketils flatnefs; Þorsteinn rauðr hèt son þeirra; [Óleifr fèll á Írlandi í orosto, en Auðr ok Þorsteinn son hennar foro þá í Suðreyjar, þar fèkk Þorsteinn Þuríðar, dóttur Eyvindar, er kalladr var austmaðr; Þuríðr var systir Helga ens magra, er átti Þórunni hyrnu Ketilsdóttur; þau Þorsteinn áttu mörg börn: Óleifr feilan hèt son þeirra [2]), en dætr Gróa, Ólof, Ósk, Þórhildr, Þorgerðr, Vigdís. Þorsteinn gerðist herkonúngr, hann rèðst til fèlags við Sigurð jarl hinn ríka, son Eysteins glumro; þeir vunnu Katanes ok Suðrland; Ros ok Mærhæfi, ok meirr enn hálft Skotland, gerðist Þorsteinn þar konúngr yfir, áðr Skotar sviku hann, ok fèll hann í þeirri orusto. Auðr var þá á Katanesi, er hún spurði fall Þorsteins sonar síns, hún lèt þá gera knör í skógi á laun; en er hún var búin, hèlt hún út í Orkneyjar, þar gipti hún Gró, dóttur Þor-

[1]) Oleifr, *B*, *C*. [2]) *bæta við B*, *C*, S.

s..ins rauðs. Síþan bjóst Auðr at leita Íslands, hún hafði á skipi með sèr 20 [1]) karla frjálsa; sá hèt Kollr, er æðstr var af þeim, ok mest virðr af Auði, var hann helzt at ráðum með henni. Kollr var son Veðrargríms, Ása sonar hersis; Kollr átti Þorgerði, dóttur Þorsteins rauðs. Auðr fór furst til Færeyja, ok gipti þar Ólofu dóttur Þorsteins rauðs, þaðan ero komnir Götuskeggjar í Færeyjum. Síþan fór Auðr at leita Íslands, hún kom at fyrir sunnan land, ok braut skipit á Vikarsskeiði; fór Auðr þá á Kjalarnes til Helga bjólo bróður síns; hann bauð henni at vera þar um vetrinn með helmíng liðs síns; henni þótti varboþit, ok kvaðst eigi vita hvaþan honum kom slík lítilmennska; fór hún þaðan vestr í Breiðafjörð til Bjarnar bróður síns. Björn sagðist kunna stórmennsku ok veglyndi systur sinnar, gekk hann í móti systur sinni með húskarla sína, ok bauð henni þar at vera með alla sína menn; Auðr tók þat með þökkum, var hún þar um vetrinn með alt lið sitt, ok var henni veitt hit sköruligazta; en um vârit eptir fór hún í laudaleitan inn í Breiðafjörð, ok nam alla Breiðafjarðardali, ok bjó í Hvammi. Auðr gaf Kolli mági sínum allan Laxárdal, gerðist hann hinn mesti rausnarmaðr, hann var kallaðr Dalakollr. Auðr bjó í Hvammi til elli, þar heita nú Auðartóptir við Avrriðaárós, hún var kristin ok vel trúað; hún lèt reisa krossa, þar sem

[1]) 70, *F, S.*

Krosshólar heita síþan, hafði hún þar bænahald sitt. Ólafr feilan var ýngztr barna Þorsteins rauðs, hann var mikill maðr ok styrkr, fríðr sýnum ok hinn mesti atgervimaðr; hann virði Auðr umfram alla menn, ok vâttaði hún því fyrir hverjum manni, at hún ætlaði honum alla sína eign eptir sinn dag. Ólafr kvângaðist at ráði Auþar, hann fèkk Aldísar ennar breysku [1]), dóttur Konals Steinmóðssonar, Ölvissonar barnakarls; hún hafði þá gipt allar dætr Þorsteins rauðs. Auðr var vegskona mikil; þá er hún var ellimóð, bauð hún til sín frændum sínum ok vinum, ok bjó þeim ágæta veizlu; en er sú veizla hafði staðit 3 nætr, þá gaf hún at öllum boðsmönnum áheyrandum Ólafi frænda sínum landit í Hvammi, ok allar aðrar eignir sínar ok jarðir, þær er hún hafði eigi áðr gefit skipverjum sínum ok leysíngjum, ok alt þat fè sem þar stæði saman eptir hennar dag; síþan gaf hún öllum vinum sínum gjafar, ok rèð þeim mörg heilræði. Eptir þat þakkaði hún boðsmönnum öllum sína [2]) þángatkvâmu, segir hún at sú en sama veizla skyldi enn standa aðrar 3 nætr, sagði hún at þat skyldi vera erfi hennar; þá nótt eptir andaðist hún. Auðr var grafin í sand, þar er flæðr gekk yfir, sem hún hafði áðr sjálf fyrirsagt, því at hún vildi eigi liggja í úvígðri moldo, er hún var skírð. En eptir andlát hennar viltust

[1]) barcysku, *B*, *C*. [2]) *þannig B*, *C*; sínum, *A*.

frændr hennar af rèttri trú; var síþan gert hof á Krosshólum, þá er blót tóko til.

*Frá Laxdœlum.*

123. Dalakollr átti Þorgerði dóttur Þorsteins rauðs, sem furr er ritat; þeirra börn voro Havskuldr ok Gróa, er átti Veleifr enn gamli, ok Þorkatla, er Þorgeirr [1]) goði átti. Havskuldr Kollsson bjó í Laxárdal eptir föður sinn, þar heitir síþan á Havskuldsstöðum, hann átti Hallfríði dóttur Þorbjarnar frá Vatni í Haukadal; Þorleikr [2]) var son þeirra, er átti Þuríði Arnbjarnardottur, Sleitubjarnarsonar; þeirra son hèt Bolli, er átti Guþrúnu Ósvífrsdóttur. Havskuldr keypti Melkorku [3]), dóttur Mýrkjartans fra konúngs; þeirra son var Ólafr páe. Ólafr pái Höskuldsson átti Þorgerði Egils dóttur Skallagrímssonar; voro þeirra synir: Kjartan, Egill, Haldór, Steinþór [4]) ok Þorbergr [5]); Kjartan átti Hrefnu dóttur Ásgeirs æðikolls; voro þeirra synir Ásgeirr ok Skúmr. Dóttir Ólafs pá var Þuríðr, er átti Guþmundr Sölmundarson í Ásbjarnarnesi; þeirra synir voro Hallr ok Vígabarði. Dóttir Höskulds Kollssonar var Hallgerðr snúinbrók, er átti Gunnar at Hlíðarenda. [Þorgerði, dóttur Þorsteins rauðs, átti síðarr Herjólfr, son Eyvindar elds, ok var hans son Hrútr á Kambsnesi [6]).

---

1) Þorgrímr, *B*, *C*. 2) Þorleifr, *F*. 3) Melkollu, *C*.
4) Steindór, *B*, *C*, *S*. 5) Þorgerðr dóttir, *F*.
6) *bæta við B*, *C*.

### *Útkoma Helga hins magra.*

124. Björn hèt maðr agætr á Gautlandi, hann var son Hrólfs frá Ám; kona Bjarnar hèt Hlíf, dóttir Hrólfs Íngjaldssonar, Fróðasonar konúngs. Eyvindr hèt son þeirra. Björn varð úsáttr við Sigfast, mág Sölvars Gota [1]) konúngs, ok brendi Björn Sigfast inni með 30 manna; síþan fór Björn til Noregs með 12ta mann, ok tók við honum Grímr hersir, son Kolbjarnar sneypis; var Björn með honum einn vetr, þá vildi Grímr drepa Björn til fjár; þá fór Björn til Öndóts kraka, er bjó á Ögðum í Hvívisfirði [2]), ok tók hann við honum. Björn var á sumrum í vestrvíkíng, en á vetrum með Öndótti, þar til er Hlíf kona hans andaðist á Gotlandi, þá kom Eyvindr son hans austan þaðan, ok tók við herskipum föður síns. Eyvindr fór þá í vestrvíkíng, ok hafði útgerð fyrir Írlandi; hann fèkk Rafavrtar, dóttur Kjarvals konúngs, ok staðfestist hann þar, hann var kallaðr Eyvindr enn austræni; þau Rafavrt áttu son þann er Helgi hèt, hann seldu þau til fóstrs í Suðreyjar; en er þau komo þar 2 vetrum síðarr, þá var hann sveltr svâ, at þau kendu hann eigi, höfðo þau hann þá með sèr, ok kallaðu Helga enn magra, hann fæddist upp á Írlandi; en er hann var [roskinn, gjörðist hann [3]) virþíngamaðr mikill; gekk hann þá at eiga Þórunni hyrnu, dóttur Ketils flatnefs, ok áttu þau mörg börn; Hrólfr ok Íngjaldr hètu synir þeirra. Helgi hinn magri fór til Íslands

[1]) Skota, *F.* [2]) Hrímsfirði, *F, S.* [3]) *bæta inn B, C, S.*

með kono sína ok börn. Helgi var kristinn at kalla, ok þó blandinn mjök í trúnni; hann var skírðr ok sagðist trúa á Krist, en hann hèt á Þór til sjófara ok harðræða. Helgi enn magri nam allan Eyjafjörð milli Sigluness ok Reyninness, ok bjó í Kristnesi. Helgi gaf Íngjaldi syni sínum land fyrir austan Eyjafjarðará, ofanfrá Arnarhóli til Þverár hinnar ytri; Íngjaldr bjó at Þverá enni syðri, ok reisti þar hof mikit; hann átti Salgerði Steinólfsdóttur, þeirra son var Eyjólfr hrúga; hann átti Ástríði Vigfúsdóttur, hersis af Vors í Noregi; Víga-Glúmr var son þeirra [1]). Þeir voro bræðrsynir Víkíngakára: Eiríkr bjóðaskalli, faðir Ástríþar, móður Ólafs konúngs Tryggvasonar, ok Vigfús af Vors, faþir Ástríþar, móður Víga-Glúms.

125. Ketill hèt maðr son Jórunnar mannvitsbrekku, hún var dóttir Ketils flatnefs. Ketill fór til Íslands af Sudreyjum, hann var vel kristinn, því kallaðu heiðíngjar hann Ketil enn fíflska. Ketill enn fíflski nam land austr í Veri, hann bjó í Kirkjubæ, þar máttu eigi heiðnir menn búa. Ketill var faðir Ásbjarnar, föður Þorsteins, föður Surts, föður Sighvats lögsögumanns.

126. Eysteinn hinn digri hèt maðr, hann fór af Noregi til Íslands, hann nam land fyrir austan Geirlandsá til móts við Ketil fíflska, ok bjó á Geirlandi. Eysteinn son Hrana Hildissonar fór til Íslands af Noregi. Eysteinn Hrana-

[1]) Vigfússon, B.

son keypti at Eysteini hinum digra lönd þau, er hann hafði numit, ok bjó at Skarði; Hildarr [1]) hèt son hans; Hildarr [1]) ætlaði at færa búnat sinn á Kirkjubæ, þá er Ketill hinn fíflski var andaðr, ætlaði hann þat ekki satt, at þar mundi eigi meiga búa heiðnir menn sem í öðrum stöðum, en er hann var kominn nærr at túngarði á Kirkjubæ, varð hann bráðdauðr; þar liggr hann í Hildishaugi, ok svâ segist at fleirum varð heiðnum mönnum, ef þángat vildu færa bú sitt, þvíat guð hafði þann stað valit sèr til dýrðkanar; þar er nú nunnuklaustr.

*Frá Ásólfi enum kristna.*

127. Bræðr 2 námu Akranes alt í Borgarfirði, hèt annarr Þormóðr en annarr Ketill. Ketill átti Akranes alt fyrir vestan ok fyrir norþan Akrafell; hans son var Jörundr enn kristni, er bjó í Görðum. Ásólfr er maðr nefndr, hann var frændi Jörundar í Görðum, hann kom út austr í Ósum; Ásólfr var vel kristinn, ok vildi ekki eiga við heiðna menn ok eigi þiggja fæðu af þeim; hann gerði sèr skála undir Eyjafjöllum, þar sem nú heitir at Ásólfsskála enum austarsta [2]); hann fann ekki menn furr enn heiðíngjar fóro at forvitnast, hvat hann hefði til fæðu, ok sá þeir í skálanum marga fiska; en er þeir gengu til lækjar þess, er þar var hjá skálanum, þá var hann svâ fullr af fiskum, at menn þóttust eigi slík undr sèth hafa; ok er hèraðsmenn vurðo þessa varir, ráku þeir Ásólf

[1]) Hildirr, *B*, *C*. [2]) eystra, *B*, *C*.

í brott, ok vildo eigi, at hann nyti svâ mikilla gæða; Ásólfr færði þá bygð sína til Miðskála, ok var þar um hríð, en allir fiskar voro horfnir or lækmum, þá er heiðnir menn komo til ok ætlaðu at veiða; en er komit var til Ásólfs, þá var vatnfall þat fult af fiskum, er fèll hjá Miðskála, var hann þá brott rekinn þaðan; hann gerði sèr enn skála hinn 3ja, ok fór alt á sömu leið ok furr, at veiðin hvarf þegar; ok er Ásólfr var þaðan brott rekinn, fór hann út á Akranes til Jörundar frænda síns; Jörundr tók vel við Ásólfi, ok bauð honum at vera með sèr; Ásólfr vildi eigi vera hjá öðrum mönnum; þá gerði Jörundr honum hús at Hólmi hinum iðra, ok lèt færa honum fæðu, ok var Ásólfr þar síðan, meðan hann lifði, ok var þar grafinn.

128. Úlfr hèt maðr, son Gríms ens háleyska, Þórissonar, Gunnlaugssonar, Hrólfssonar, Ketilssonar kjölfara. Móðir Úlfs var Svanlaug, dóttir Þormóþar af Akranesi. Ulfr bjó á Geirlandi í Hvítársíðu, hans son var Hrólfr hinn auðgi, faðir Haldóru, er átti Gizurr enn hvíti, þeirra dóttir var Vilborg, er átti Hjalti Skeggjason; annarr son Úlfs var Hróaldr, faðir Hrólfs ens ýngra; Hrólfr hinn ýngri átti Þuríði Valþjófsdóttur, Avrlýgssonar hins gamla; þeirra son var Illugi enn rauði, er furst bjó í Hraunsási, en síþan á Hofstöðum í Reykjardal; síðazt bjó Illugi á Hólmi enum iðra á Akranesi, Haldór hèt son hans, er þar bjó eptir hann. Haldór var vel kristinn; á einu vâri sýndist

honum í svefni, at maðr kom at honum bjartr ok vegligr, ok segir svâ til hans: 'þat vil ek þèr kunnigt gera, Haldór! at mèr mislíkar er griðkona þín þerrir fætr sína á leiði mínu jafnan, er hún gengr frá stavðli; en því segi ek þèr til þessa, at þú ætlar at láta gjöra kirkju á bæ þínum, ok vil ek at kirkjan standi yfir legi mínu. Haldór spur í svefninum, hverr þessi maðr væri. Hann svarar: Ásólfr heiti ek, kom ek higat til lands þessa á landnámatíð, ok vel kristinn, sem þú munt heyrt hafa getit; lofaði allsvaldandi guð, at ek segði þèr til graptar míns. Því-næst vaknaði Haldór, ok hugsaði draum sinn, hann þóttist vita at satt mundi vera þat, er faðir hans hafi borit, þvíat hann mundi, at Illugi faðir hans hafi getið, at þessi maðr Ásólfr væri þar leiddr. Síþan merkði hann þúfu þá, er griðkonan þerði fætr sína á, ok bannaði henni at gera svâ þaðan í frá. Þat sama sumar sigldi Haldór snimma til Noregs, ok kom aptr at hausti með kirkjuvið, lèt hann kirkjuna setja rètt yfir leiði Ásólfs, sem hann hafði fyrirsagt, ok er hann kallaðr heilagr.

129. Kalman hèt maðr suðreyskr, er land hafði numit fyrir vestan Hvítá, hann var faðir Sturlu goða; son Sturlu hèt Bjarni, er bjó eptir föður sinn á ættleifð sinni í Kalmanstúngu. Bjarni deildi við Rólf enn ýngra [föður Illuga hins rauða [1]) um Túnguna litlu, þá hèt Bjarni at taka við kristni, ef hann fengi þat, er hann

[1]) Illugason, C.

kallaði til; eptir þat braut Hvítá út farveg þann, er hún fellr nú, eignaðist Bjarni þá Túnguna litlu, ok ofan um Grindr ok Sölmundarhöfða; Bjarni efndi vel heit sitt, tók hann rètta trú ok hèlt til dauðadags.

*Frá Þorvaldi Koðránssyni.*

130. Maðr er nefndr Eilífr örn, við hann er kent eitt hit hæzta fjall á Reykjaströnd í Skagafirði. Eilífr örn var son Atla, Skíðasonar hins gamla, Bárðarsonar jarls. Eilífr örn átti Þorlaugu dóttur Sæmundar ens suðreyska, er nam Sæmundarhlíð; þau áttu 3 sono: hèt einn Sölmundr, faðir Guþmundar, faðir Vígabarða ok bræðra hans: annarr var Atli hinn rammi, hann átti Herdísi, dóttur Þórðar frá Höfða; þeirra dóttir var Þorlaug, er átti Guþmundr hinn ríki á Möðruvöllum: þriði son Eilífs arnar hèt Koðrán, er bjó at Giljá í Vatzdal, hann var auðigr maðr; kona hans hèt Járngerðr, son þeirra hèt Ormr, en annarr Þorvaldr. Koðrán unni mikit Ormi syni sínum, en Þorvaldi lítit eðr ekki, var honum haldit til vinnu, þegar hann mátti sèr nökkut, hann var klæddr lítt ok gjör í hvívitna hornúngr bróður síns, hann þjónaði í húsi föður síns, þat er hann var tilskipaðr, með öllum góðvilja. Þann tíma bjó Þórdís spákona útá Skagaströnd, þar sem síðan heitir at Spákonufelli; á einu sumri þá hún heimboð at Koðráni at Giljá, þvíat hann var vin hennar; en er Þórdís var at veizlunni, ok hún sá hverr munr var gjör þeirra bræðra, þá mælti hún til Koðráns:

þat legg ek til ráðs með þèr, at þú sýnir meira manndóm hèðan af Þorvaldi syni þínum, enn þú hefir gert hèr til, þvíat ek sè þat með sannindum, at fyrir margra luta sakir mun hann verða ágætari enn allir aðrir þínir frændr; en ef þú hefir á honum litla elsku at sinni, þá fá þú honum kaupeyri, ok lát hann lausan, ef nökkurr verðr til at seá um með honum, meþan hann er úngr. Koðrán sá at hún talaði slíkt af góðvilja, ok sagðist víst mundo fá honum nökkut silfr; lèt hann þá fram einn sjóð ok sýndi henni; Þórdís leit á silfrit ok mælti: ekki skal hann hafa þetta fè, þvíat þetta fè hefir þú tekit með afli ok ofríki af mönnum í sakeyri; hann bar þá fram annann sjóðinn ok bað hana þar á líta; hún gerði svâ, ok mælti síþan: ekki tek ek þetta fè fyrir hans hönd. Koðrán spurði: hvat finnr þú [at] þessu silfri? Þórdís svarar: þessa penníngha hefir þú samandregit fyrir ágirndar sakir í landskyldum ok fjárleigum meirum enn rèttligt er, fyrir því heyrir slíkt fè þeim manni eigi til meðferðar, er bæði mun verða rèttlátr ok mildr. Síþan sýndi Koðrán hinn digri fèsjóð ok var fullr af silfri, vâ Þórdís þar af 3 merkr til handa Þorvaldi, en fèkk Koðráni aptr þat er meira var. Þá mælti Koðrán: fyrir hví vildir þú taka heldr af þessum penníngum fyrir hönd sonar míns, enn af hinum, sem ek færða þèr furr? hún svarar: því at þú hefir at þessum vel komizt, er þú hefir tekit í arf eptir föþur þinn.

Eptir þat fór Þórdís brotto frá veizlunni með sæmiligum gjöfum ok vináttu Koðráns; hafði hún Þorvald heim með sèr til Spákonufells, var hann með henni um hríð vel haldinn at klæðum ok avðrum lutum þeim er hann þurfti, ok þroskaðist mikit; en er hann var vel frumvaxti, fór hann utan at ráði Þórdísar, lètti hann eigi furr enn hann kom fram í Danmerku; þar fann hann Svein, er kallaðr var tjúguskegg; Sveinn var lítillar ættar í móþur kyn, en hann sagðist vera son Haralds Gormssonar Dana konúngs. Sveinn varð ekki ílendr í þann tíma í Danmerk, þvíat Haraldr konúngr vildi ekki gánga við faðerni hans, lá hann þá löngum í hernaði, ok var kallaðr konúngr af liðsmönnum, sem víkínga siðr var. En er Þorvaldr kom á fund Sveins, tók hann vel við honum, ok gerðist Þorvaldr hans maðr, ok var með honum nökkur sumur í hernaði fyrir vestan haf; Þorvaldr hafði eigi lengi verit með Sveini konúngi, áðr konúngr virði hann um fram aþra menn ok alla sína vini, þvíat Þorvaldr var mikill ráðagerðarmaðr, öllum auðsærr at dygð ok skýnsemd, styrkr at afli ok hugaðr vel, vígkænn ok snarpr í orostom, mildr ok örlyndr af pengum, ok reyndr at fullkomnum trúleik ok lítillætis þjónosto, hugþekkr ok ástúðigr öllum liðsmönnum ok eigi úmakliga, þvíat þá enn heiðinn sýndi hann rèttlæti um framhátt annarra heiðinna manna, svâ at lutskipti

þat alt, er hann fèkk í hernaði, veitti hann þurfandum ok til útlausnar herteknum mönnum, ok hjálpaði mörgum þeim er meinstaddir voro; en ef honum hlotnaðust herteknir menn, sendi hann þá aptr til feðra sinna eðr frænda svâ sem hina, er hann hafði með pengum útleyst. Nú þvíat hann var fræknari í orostum enn aðrir liðsmenn, þá gerðu þeir lögtekit, at hann skyldi hafa kostgrip af hverri tekju; en hann neytti svâ þeirrar frumtignar, at hann keyri ríkra manna sonu eðr þá luti aðra, er þeim var mest eptirsjá at, er látit höfðu, en hans fèlögum þætti minzt fyrir at gefa upp, ok sendi síþan þeim er átt höfðu; þarfyrir elskaðu hann jafnvel þeir, er fyrir ránum vurðu af Sveins mönnum, ok víðfrægðu lof hans góðleika; þaðan af frelsti hann auðveldliga sína menn; þóat gripnir vyrði af sínum úvinum, ok eigi síðr enn um sjálfan Svein konúng. Svâ bar til, at einn *tíma*, er Sveinn herjaði á Bretland, ok í furstu vann hann sigr ok fèkk mikit herfáng, en er hann sótti lángt á land upp frá skipunum, þá kom á móti honum svâ mikit riddaralið, at hann hafði enga viðtöku; varð Sveinn konúngr þar fánginn, bundinn ok kastat inn, ok með honum Þorvaldr Koðránsson ok margir aðrir göfgir menn ok mikilsverðir; á næsta degi kom einn ríkr hertogi til murkvastofu með miklu liði, at taka Þorvald út af dýflizu, þvíat litlu áðr hafði hann hertekna sono þessa sama hertoga leyst ok sent

heim frjálsa til föður síns; hertoginn bað Þorvald útgánga ok fara frjálsan á brott; Þorvaldr sór um, at hann skyldi fyrir engan mun þaðan lífs fara, nema Sveinn konúngr væri útleystr ok frelstr með öllum sínum mönnum; hertoginn gerði þetta þegar fyrir hans skyld, sem Sveinn konúngr vâttaði síþan, þá er hann sat at einni ágætri veizlu með tveim konúngum avðrum, ok er sendíngar komu inn, mælti einn dróttseti, sagði at ei mundi verða síþan einn skutill svâ vegliga skipaðr, sem þá er 3 svâ voldugir konúngir snæddu af einum diski; þá svarar Sveinn konúngr brosandi: finna mun ek þann útlendan bóndason, at einn hefir með sèr, ef rètt virþíng er á höfð, í engan stað minna göfugleik ok sómasæmd enn vèr allir 3 konúngar. Nú varð af þessu gleði mikil í höllinni, ok spurðu hlæjandi allir: hverr eðr hvílíkr þessi maðr væri, er hann sagði svâ mikla frægð af? hann svarar: þessi maðr, er ek tala hèr til, er svâ vitr sem spavkum konúngi hæfði at vera, styrkr ok hugðjarfr sem hinn öruggazti berserkr, svâ siðugr ok góðhattaðr sem hinn siðugazti spekíngr; sagði hann síþan af Þorvaldi þenna atburð, sem nú var ritaðr, er hann frelsti konúnginn fyrir sína vinsæld ok fyrir marga ágæta luti ok lofsamliga.

131. Þessu nærst sem Þorvaldr hafði farit víða um lönd, tók hann trú rètta, ok var skírðr

af saxlenzkum biskupi þeim er Friðrekr hèt, ok eptir þat bað hann Friðrek biskup með öllu kostgæfi, at hann mundi fara til Íslands með honum at prèdika guðs eyrindi, ok leita at snúa til guðs föþur hans ok móður, ok avðrum náfrændum hans; biskup játaði því gjarna, ok fór til Íslands síþan, ok greiddist vel þeirra ferð. Koðrán tók vel við syni sínum, voro þeir Þorvaldr ok biskup hinn fursta vetr at Giljá með Koðráni við 13da mann; tók Þorvaldr þegar at boða guðs eyrindi frændum sínum ok þeim öllum, er hann komu at finna, þvíat biskupi var úkunnig túnga landsmanna, ok snèrust nökkurir menn til rèttrar trúar fyrir orð Þorvalds á þeim vetri. En nú skal furst segja, hversu hann leiddi til sanns átrúnaþar föður sinn ok hans heimamenn: á nökkurri hátíð, þá er Friðrekr biskup með sínum klerkum framdi tíðagjörð ok guþligt embætti, var Koðrán nær staddr, meirr sakir forvitni, enn hann ætlaði sèr at samþykkja at sinni þeirra siðferði; en er hann heyrði klokna hljóð ok fagran klerka saung, ok kendi sætan reykelsisilm, en sá biskup vegligum skrúða skrýddan ok alla þá, er honum þjónaðu, klædda hvítum klæðum með björtu yfirbragði, ok þarmeð birti mikla um alt húsit af fögru vaxkerta ljósi ok aðra þá luti, sem tilheyrðu því hátíðar haldi, þá þókknaðust honum allir þessir lutir heldr vel; en á þeim sama degi kom hann at Þorvaldi syni sínum ok mælti: nú hefi ek sèð

ok nökkut hugleidt, hversu alvörusamliga þjónusto þèr veitit guði yðrum, en þó eptir því sem mèr skilja, ero mjök sundrleitir siðir vârir, þvíat mèr sýnist, at guð yðvarr mân gleðjast af ljósi því, er vârir guðar hræðast; en ef svâ er, sem ek ætla, þá er þessi maðr, sem þú kallar biskup yðvarn, spámaðr þinn, þvíat ek veit, at þú nemr at honum alla þá luti, er þú boðar oss af guðs þíns hálfu; en ek á mèr annann spámann, þann er mèr veitir mikla nytsemd, hann segir mèr fyrir marga úvorðna luti, hann varðveitir kvikfè mitt, ok minnir mik á, hvat ek skal framfara, eðr hvat ek skal varast, ok fyrir því á ek mikit traust undir honum, ok hefi ek hann dýrðkat lánga æfi, en misþókknast þú honum mjök ok svâ spámaðr þinn ok siðferði ykkart, ok afletr hann mik at veita ykkr nökkura viðsæmíng ok einna mest at taka ykkarn sið. Þorvaldr mælti: hvar byggir spámaðr þinn? Koðrán svarar: hann býr hèr skamt frá bæ mínum í einum miklum steini ok vegligum. Þorvaldr spur, hversu lengi hann hefði þar búit. Koðrán segir hann þar bygt hafa lánga æfi. Þá mân ek, segir Þorvaldr, setja hèr til máldaga með okkr, faðir! þú kallar þinn spámann mjök styrkan, ok segir þik á honum hafa mikit traust, en biskup, er þú kallar minn spámann, er auðgætligr ok ekki aflmikill; en ef hann má fyrir krapt himna guðs, þess er vèr trúum á, reka brottu spámann þinn af svâ styrku herbergi, þá

er rètt, at þú fyrirlátir hann ok snúist til þess hins styrkazta guðs skapara þíns, sem er at sönnu guþ ok engi styrkleikr má sigra, hann byggir í eilífu ljósi, þángat er hann leiðir alla á sik trúandi ok sèr trúliga þjónandi, at þeir lifi þar með honum í óumræðiligri sælu utan enda; ok ef þú vill snúast til hins háleita himnakonúngs, þá mátt þú skjótt skilja, at þessi, er þik afletr at trúa á hann, er þinn fullkominn svikari, ok hann girnist at draga þik með sèr frá eilífu ljósi til úendanligra myrkra; en ef þèr sýnist sem hann geri þèr nökkura góða luti, þá gerir hann þat alt til þess, at hann megi því auðveldligarr þik fá svikit, ef þú trúir hann þèr góðan ok nauðsýnligan. Koðrán svarar: auðsèð er mèr þat, at sundrleit er skilníng ykkr biskups ok hans, ok eigi síðr skil ek þat at með kappi miklu fylgja hvârir síno máli; ok alla þá luti, sem þit segit af honum, slíkt hit sama flytr hann af ykkr; en hvat þarf hèr at tala mart um? þessi máldagi, sem þú hefir ásett, mân prófa sannindi. Þorvaldr varð glaðr við ræðu föður síns, ok sagði biskupi allan þenna málavöxt ok samtal þeirra. Á næsta degi eptir vígði biskup vatn, fór síþan með bænum ok sálmasöng, ok dreifði vatninu umhverfis steininn, ok svâ steypti hann því yfir ofan, at allr varð vâtr steinninn. Um nóttina eptir kom spámaðr Koðráns at honum í svefni, ok með daprligri ásjónu ok skjálfafullr sem af hræðslu, ok mælti til Koð-

ráns: illa hefir þú gert, er þú baudt híngat mönnum þeim, er á svikum sitja við þik, svâ at þeir leita at reka mik brottu af bústað mínum, þvíat þeir steyptu vellanda vatni yfir mitt herbergi, svâ at börn mín þola eigi litla kvöl af þeim brennandi dropum, er innan renna um þekjuna; en þó at slíkt skaði sjálfan mik eigi mjök, þá er alt at einu þúngt at heyra þyt smábarna, er þau æpa af bruna. En at morni komanda sagði Koðrán syni sínum eptirspyrjanda þessa alla luti. Þorvaldr gladdist við, ok eggjaði biskup at hann skyldi halda fram uppteknu efni; biskup fór til steinsins með sína menn, ok gerði alt sem furra dag, ok bað almátkan guð kostgæfilega, at hann ræki fjandann á brottu, ok leiði manninn til hjálpar. Á næstu nótt eptir sýndist sá enn flærðarfulli spámaðr Koðráni mjök gagnstaðligr því sem furr var hann vanr at birtast honum með björtu ok blíðligu yfirliti ok ágætliga búinn, en nú var hann í svörtum ok herfviligum skinnstakki, davkkr ok illiligr í áseónu, ok mælti svâ til bónda með sorgfullri ok skjálfandi raust: þessir menn stunda fast á at ræna okkr báða okkrum gæðum ok nytsemdum, er þeir vilja elta mik á brottu af minni eiginligri erfð, en svipta þik vârri elskuligri umhyggju ok framsýniligum fornspám; nú gjör þú svâ mannliga, at þú rek þá brottu, svâ at við þarnimst eigi alla góða luti fyrir þeirra údygð, þvíat aldri skal ek flýja, en þó er þúngt at þola

leingr allar þeirra illgerðir ok úhægindi. Alla þessa luti ok marga aðra, er sá fjandi hafði talat fyrir Koðráni, sagði hann syni sínum um morginin. Biskup fór til steinsins hinn 3ja dag með því móti sem furr, en sá hinn illgjarni andi sýndist bónda um nóttina eptir hit 3ja sinn með hryggiligu yfirbragði, ok bar upp fyrir hann þesshattar kvein með snöktandi röddu, ok segir svâ: þessi vândr svikari, biskup kristinna manna, hefir afsett mik allri minni eign, herbergi mínu hefir hann spilt, steypt yfir mik vellanda vatni, vætt klæði mín, rifit ok ónýtt með öllu, en mèr ok mínu hyski hefir hann veitt bótlausan bruna, ok hèr með rekit mik nauðgan lángt í brott í auðn ok útlegð; nú hljótum við at skilja bæði samvistu ok vinfengi, ok gerist þetta alt af einusaman þínu dygðarleysi; hugsa þú nú, hverr þitt góds mân heðan af varðveita svâ dyggiliga sem ek hefi áðr varðveitt; þú kallast maðr rèttlátr ok trúlyndr, en þú hefir ömbunat mèr *illu* gott. Þá svarar Koðrán: ek hefi þik dýrðkat svâ sem nytsamligan ok styrkan guð, meþan ek var úvitandi ens sanna; en nú með því at ek hefir reynt þik flærðarfullan ok mjök úmeginn, þá er mèr nú rètt ok utan allan glæp, at fyrirláta þik, en flýja undir skjól þess guðdóms, er miklu er betri ok styrkari enn þú. Við þetta skildu þeir með stygð en engum blíðskap. Þvínæst var skírðr Koðrán bóndi ok kona hans Járngerðr ok aðrir heimamenn, utan Ormr son hans vildi eigi skírast láta þat sinn.

132. Um vârit eptir fóro þeir biskup ok Þorvaldr vestr til Víðidals með lið sitt, ok settu bú saman at Lækjamóti, ok bjöggu þar 4 vetr, ok fóro á þeim árum víða um Ísland at prèdika guðs orð. Á enum fyrstum misserum, er þeir voro at Lækjamóti, bað Þorvaldr til handa sèr konu þeirrar, er Vigdís hèt, hún var dóttir Ólafs, er bjó at Haukagili í Vatzdal; en er þeir biskup ok Þorvaldr komo til veizlunnar, var þar fyrir fjöldi boðsmanna heiðinna; þar var mikill skáli, sem þá var víða siðr til, ok fèll einn lítill lækr um þveran skálann, ok búit um vel; en því at [1]) hvârigir vildu öðrum samneyta kristnir menn ok heiðnir, þá var þat ráð tekit, at tjaldat var um þveran skálann í milli þeirra, þar sem lækrinn var, skyldi biskup vera fram í skálann með kristna menn, en heiðíngjar fyrir innan tjaldit. At því sama bruðlaupi voro með auðrum heiðnum mönnum 2 bræðr hinir rammaztu berserkir, ok mjök fjölkunnigir, hèt hvârtveggi Haukr; en því at þeir stóðu með öllu afli einna mest í móti rèttri trú, ok kostgæfðu at eyða kristilegu siðlæti, þá buðu þeir biskupi, ef hann hefði þoran til eðr nökkut traust á guði sínum, at hann skyldi reyna við þá íþróttir þær, sem þeir voro vanir at fremja: at vaða loganda eld með berum fótum eðr láta fallast á vâpn, svâ at þá skaðaði ekki; en biskup, treystandi á guðs miskun, neitaði eigi; voro þá gjörvir eldar stórir

[1]) *þannig B*; þeir, *A*.

eptir endilöngum skálanum, sem í þann tíma var tídt, at drekka avl við eld; biskup skrýddist öllum biskups skrúða, ok vigði vatn, gekk þá at eldinum svâ búinn, hafði mítr á höfði ok bagal í hendi; hann vígði eldinn ok dreifði vatninu yfir; þvínæst gengu inn þessir 2 berserkir grimmliga grenjandi, bitu í skjaldar rendr, ok höfðu ber sverð í höndum, ætlaðu nú at vaða eldinn; en þá bar skjótara at fram enn þeir ætluðu, ok drápu fótum í eldstokkana, svâ at þeir fèllu báðir á fram, en eldinn lagði at þeim, ok brendi þá á lítilli stundu með svâ mikilli ákefð, at þeir voro þaðan dauðir dregnir; þeir voro færðir upp með gilinu, ok grafnir þar, því heitir þat síþan Haukagil; Friðrekr biskup gerði fyrir sèr krossmark, ok gekk á eldinn miðjan ok svâ fram eptir endilaungum skálanum, en logan lagði tvâ vega frá honum, sem vindr blèsi, ok því síðr kendi hann meinsamligs hita af eldinnm, at eigi með nökkuru móti sviðnaðu hinar minstu trefr á skrúða hans; snèrust þá margir til guðs, er sá þetta hit háleita stórtákn. Þenna atburð segir Gunnlaugr múnkr, at hann heyrði segja sannorðan mann Glúm Þorgilsson, en Glúmr hafði numið at þeim manni, er hèt Arnór ok var Arndísar son. Ólafr at Haukagili gerði síðan kirkju á bæ sínum, en Þorvaldr fèkk honum viðinn til.

135. Þeir biskup ok Þorvaldr lögðu á alla stund með hinu mesta kostgæfi, at leiða sem flesta menn guði *til* handa, eigi at eins þar í næstum

sveitum, heldr fóro þeir víða um Ísland at boða orð guðs; þeir komo vestr í Hvamm í Breiðafjarðar dölum um alþíngi; Þórarinn bóndi var eigi heima, en Friþgerðr húsfrey, dóttir Þórðar [1]) frá Höfða, tók vel við þeim í furstu. Þorvaldr taldi þar trú fyrir mönnum, en Friðgerðr blótaði meþan inni, ok heyrði hvárt þeirra annars orð; Friðgerðr svarar orðum Þorvalds fá ok þó illa, en Skeggi, son þeirra Þórarins, hafði í spotti orð Þorvalds; þarum orti Þorvaldr vísu:

Fór ek með dóm enn dýra
drengr hlýddi mèr engi,
gátum hríngs frá hreyti
hróðr varliga góðan;
en með enga svinnu
öldin rýgr við skáldi,
þá greypi guð gyðju!
gall af heiðnum stalli.

Ekki er þess getit, at nökkurir menn í Vestfirðínga fjórðúngi kristnaðust af þeirra orðum; en norðr í sveitum, er þeir fóro þar yfir, tóko rètta trú nökkurir göfgir menn. Önundr í Reykjadal, son Þorgils Grenjaðarsonar [2]), ok Hlenni af Saurbæ í Eyjafirði, ok Þorvarðr í Ási við Hjáltadal; bróþir Þorvarðs hèt Arngeirr ok annarr Þórðr, hann var son Spakböðvars Öndótssonar landnámamanns, er bjó í Viðvík; þessir ok enn fleiri menn vorðu fullkomliga kristnir í Norðlendínga fjórþúngi; en þeir voro margir,

[1]) gellis *bætir við B.* [2]) Greinaðarsonar, *B*, *S.*

þóat þá lèti eigi skírast at sinni, at trúðu Kristi ok fyrirlètu skurðgoða blót ok allan heiðinn sið, ok vildo eigi gjalda hoftolla; fyrir þat reiddust heiðíngjar Friðreki biskupi, ok lögðo fjandskap á alla þá, er honum samþyktu. Þorvarðr Spak-böðvarsson lèt gera kirkju á bæ sínum í Ási, ok hafði með sèr prest, er biskup fèkk honum, at sýngja sèr tíðir, ok veita honum guþliga þjónosto; við þat varð mjök reiðr Klaufi, son Þorvalds Refssonar frá Barði í Fljótum; Klaufi var mikilsháttar maðr, hann fór til fundar við bræðr Þorvalds, Arngeir ok Þórð, þess eyrindis, at hann bauð þeim kost á, hvârt þeir vildi heldr drepa prestinn eðr brenna kirkjuna. Arngeirr svarar: let ek þik þess, ok svâ hvern annan minn vin, at drepa prestinn, þvíat Þorvarðr bróðir minn hefir fyrrum grimmliga hefnt smæri meingerða enn ek get at honum þikki þessi; en hins vil ek eggja, at þú brennir kirkjuna. Ekki vildi Þórðr samþykkja þeim at þessu ráði. Lítlu síþarr fór Klaufi til um nótt við 10da mann at brenna kirkjuna; en er þeir nálgaðust ok gengu í kirkjugarðinn, kendu þeir ákafligan hita, ok sá mikla gneistaflavg út í glugga kirkjunnar, fóro þeir brotto við þat, at þeim þótti kirkjan full af eldi. Annan tíma fór Arngeirr til við marga menn, ok ætlaði at brenna þessa sömu kirkju, en er þeir höfðu brotit upp hurðina, ætlaði hann at tendra eld á gólfinu við þurran fjallrapa, en þvíat eigi logaði svâ skjótt

sem hann vildi, þá lagðist hann inn yfir þröskjöldinn, ok ætlaði at blása at, er glóðin var nóg, en eigi vildi festa í viðinum, þá kom ör ok stóð favst í kirkjugólfinu rètt við höfuð honum, ok þegar kom önnur, sú nisti klæði hans við gólfit, svâ at örin flaug í millum síðu hans ok skyrtunnar, er hann var í; hann ljóp þá upp hart ok mælti: svâ flaug þessi örin nærr síðu minni, at ek em ráðinn í, at bíða eigi hèr hinnar þriðju; nú hlífði guð svâ húsi síno. Fór Arngeirr á brottu með sína menn, ok leitaðu heiðíngjar eigi optarr at brenna þá kirkju; þessi kirkja var gjör 16 árum furr enn kristni var lögtekin á Íslandi, en hún stóð svâ, at ekki var at gert.

134. Eitt sumar á alþíngi taldi Þorvaldr Koðránsson trú, eptir bæn biskups, opinberliga fyrir öllum lýð; en er hann hafði framborit með mikilli snild mörg ok sönn stórmerki almáttigs guðs, þá svarar furstr kynstór maðr ok göfugr, þóat heiðinn væri ok grimmr, Heðin frá Svalbarði af Eyjafjarðarströnd, sonr Þorbjarnar Skagasonar [1]) Skoptasonar; Heðin átti Ragneiði stjúpdóttur ok bróþurdóttur Eyjólfs Valgerðarsonar; Heðin mælti mart ílt við Þorvald ok guðlastaði mjök imóti heilagri trú, ok svâ gat hann með sinni illgirnd umtalit fyrir fólkinu, at engi maðr lagði trúnat á þat, er Þorvaldr hafði sagt, heldr tók þaðan af svâ mjök at vaxa illviljafull ofsókn ok hatr heiðíngja við þá bisk-

[1]) Skeggjasonar, B.

up ok Þorvald, at þeir gáfu skáldum fè til at yrkja níð um þá; þar er þetta í:

Hefir börn borit
biskup níu,
þeirra er allra
Þorvaldr faðir.

Fyrir þat drap Þorvaldr tvâ þá, er ort höfðu kvæþit, en biskup þoldi allar meingerðir með hinni mestu hógværi; en er þeir Þorvaldr höfðu drepit skáldin, fór hann til biskups at segja honum, hvat hann hafði gert; biskup sat inni ok sá á bók, ok áðr Þorvaldr gekk inn, komu 2 blóðdropar á bókina fyrir biskupi, skildi biskup þegar, at þat var nökkur fyrirbendíng; en er Þorvaldr kom inn til hans, mælti biskup: annathvârt hefir þú framit manndráp, ella hefir þú þat í hug þèr. Þorvaldr segir þá, hvat hann hafði gert. Biskup mælti: hví fórt þú svâ með? Þorvaldr svarar: ek þolda eigi, er þeir kölluðu okkr raga. Biskup mælti: þat var lítil þolraun, þó at þeir lýgi þat, at þú ættir börn, en þú hefvir fært orð þeirra á verra veg, þvíat vel mætta ek bera börn þín, ef þú ættir nökkur, eigi skyldi kristinn maðr sjálfr leita at hefna sín, þóat hann væri haturliga smáðr, heldr þola fyrir guðs sakir brígsli ok meingerðir.

135. Nú þóat þeir þyldi mörg vandræði af vândum mönnum, þá lèttu þeir eigi því heldr af at fara um sveitir ok boða guðs erendi. Þeir komu út í Laxárdal, ok dvöldust um hríð undir

Eilífsfelli hjá Atla enum ramma, föþurbróður Þorvalds; var Atli þá skírðr með heimamenn sína, ok margir aðrir menn þeir er komu til, þvíat heilags anda miskun nálgaðist af orðum þeirra. Þá flaug fræði af biskupi með guðs gjöf í eyru einum smásveini 5 vetra gömlum, er hèt Íngimundr, son Hafrs í Goðdali [1]), hann var at fóstri á Reykjaströnd. Íngimundr kom at máli einn dag við smalamann fóstra síns, ok bað hann fylgja sèr leyniliga til Eilífsfjalls at seá biskupinn; þetta veitti sauðamaðrinn honum, þeir fóro yfir Kjartansgjá ok vestr yfir fjallit til Laxárdals; en þegar er þeir komu til bæjar Atla at Eilífsfelli, þá tók sveinninn at biðja at hann væri skírðr. Atli tók í hönd sveininum, ok leiddi hann fyrir biskup svâ segjandi: sveinn þessi er son göfugs manns ok þó heiðins, en sveinninn beiþir skírnar utan ráð ok vitorð föþur síns ok fóstra; nú seá fyrir, hvat at er geranda, þvíat vís vân er, at hvârumtveggja þeirra mân mjök mislíka, ef hann er skírðr. Biskup svarar hlæjandi: sannliga, segir hann, er úngum smásveini eigi neitanda svâ heilagt embætti, allra helzt er hann hefir heilsamligri [2]) skilníng á sínu ráði enn frændr hans rosknir. Síþan skírði biskup Íngimund, ok kendi honum áðr hann fór í brott, hvat honum var einna skyldazt at varðveita meðr kristninni.

---

[1]) Guðdavlum, *B.* [2]) þ*annig B*; heilsamliga, *A.*

136. Svâ er sagt, at Friðrekr biskup hafi skírt þann mann, er hèt Máni, ok fyrir því at hann hèlt helga trú með mörgum manndygðum ok góðlifnaði, var hann kallaðr Máni enn kristni; hann bjó í Holti á Kólgumýrum, hann gerði þar kirkju, í þeirri kirkju þjónaði hann guði bæði nætr ok daga með helgum bænum ok ölmösogerðum, er hann veitti marghâttaðar fátækum mönnum. Hann átti veiðistöð í á þeirri, er þaðan var skamt í brottu, þar sem enn í dag heitir af hans nafni Mánafors; þvíat á nökkurum tíma, þá er hallæri var mikit ok sultr, hafði hann ekki til at fæða húngraða, þá fór hann til árinnar ok hafði þar nóga laxveiði í hylnum undir forsinum; þessa laxveiði gaf hann undir kirkjuna í Holti, ok segir Gunnlaugr múnkr, at sú veiðr hafi þar jafnan síðan tillegit; hjá þeirri kirkju sèrr enn merki, at hann hefir bygt svâ sem einsetumaðr, þvíat svâ sem hann var fjarlægr flestum mönnum þann tíma í hugskotinu, svâ vildi hann ok at líkamligri samvistu firrast alþýðu þys, þvíat við kirkjugarðinn sèrr at verit hefir garðhverfa nökkr, er segist at hann hafi vunnit á heyverk á sumrum, til þess at fóðra við eina kú, þá er hann fæddist við, þvíat hann vildi [heldr] afla sèr atvinnu með erfiði eginligra handa, enn samneyta heiðíngjum þeim, er hann hataðu, ok heitir þar síðan Mánagerði.

*Herferð at Friðreki biskupi.*

137. En at segja fátt af mörgum mein-

gerðum ok ofsóknum, er heiðnir menn veittu Friðreki biskupi ok Þorvaldi fyrir boðan rèttrar trúar, þá bar svâ til, at þeir vildo ríða til vârþíngs í Hegranes; en er þeir nálgaðust þíngstöðina, þá ljóp upp allr múgr heiðinna manna, ok runnu í móti þeim með miklu ópi, sumir börðu grjóti, sumir skóku at þeim vâpn ok skjöldu með harki ok háreysti, báðu guðin steypa sínum úvinum, ok var engi vân at þeir mætti koma á þíngit; þá mælti biskup: nú kemr þat fram er móþur mína dreymdi forðum daga, at hún þottist finna vargshár í höfði mèr, þvíat nú ero vèr gjörvir rækir, ok reknir sem skæðir vargar með hræðiligu ópi ok sturjöld. Eptir þat fóro þeir biskup heim til Lækjamóts ok dvöldust þar um sumarit; á því sama sumri eptir alþíngi, sömnuðu nökkurir heiðnir höfðíngjar liði, svâ at þeir höfðu 200 manna tólfræð; þeir ætlaðu til Lækjamóts at brenna biskup inni ok alt lið hans; en er þeir áttu skamt til bæjar at Lækjamóti, þá stigu þeir af hestum sínum ok ætluðu at æja, sem þeir gerðu; en í því er þeir voro á bak komnir, flugu hjá þeim fuglar margir vâveifliga, við þat fældust hestar þeirra ok vurðu svâ óðir, at þeir fèllu allir ofan, er á bak voro komnir ok meiddust, sumir fèllu á grjót ok brutu fætr sína eðr hendr eða fengu önnr mein, sumir fèllu á vâpn sín ok fengu þar stór sár af; hestarnir ljópu á suma ok meiddu; þeim

ar fósturjarþar, at eigi væri víst hvârt hann þyldi svâ í alla staði, sem vera ætti fyrir guðs ást, mótgáng ok meingerðir sinna samlanda; fyrir því tók hann þat ráð, at vitja eigi optarr út til Íslands. Gerði hann þá ferð sína út í heim ok alt til Jórsala at kanna helga staði, hann fór um alt Grikkjaríki ok kom til Miklagarðs, tók sjálfr stólkonúngrinn við honum með mikilli virðíng, ok veitti honum margar vingjafir ágætar, því-at svâ var guðs miskun honum nákvæm, ok flaug hans frægð fyrir alþýðu hvar sem hann kom, at hann var virðr ok vegsamaðr svâ af minnum mönnum sem meirum, sem einn stólpi ok upphaldsmaðr rèttrar trúar, ok svâ sæmdr, sem dyrðarfullr játari vârs herra Jesú krists, af sjálfum Miklagarðs keisara ok öllum hans höfþíngjum ok eigi síðr af öllum biskupum ok ábótum um alt Grikkland ok Sýrland; allramest var hann tignaðr um Austrvegh, þángat sendr af keisaranum svâ sem foríngi eðr valdsmaðr skipaðr yfir alla konúnga á Rúzlandi ok í öllu Garðaríki. Þorvaldr Koðránsson reisti þar af grundvelli eitt ágætt múnklíf hjá þeirri höfuðkirkju, er helgut er Jóhanne baptista, ok lagði þar til nógar eignir, hèt þar æ síðan af hans nafni Þorvaldsklaustr; í því múnklífi endi hann sitt líf, ok er þar grafinn; þat klaustr stendr undir hábjargi, er heitir Dravfn. Þá er Friðrekr biskup ok Þorvaldr komu til Íslands, voro liðin frá

holdgan vârs herra Jesú krists 900 ára ok eitt ár ens níunda tigar, en 100 tíræđt ok 6 vetr frá upphafi Íslands bygđar. Þrim vetrum síþarr görđi Þorvarđr Spakböđvarsson kirkju í Ási.

*Frá Stefni Þorgilssyni.*

139. Mađr er nefndr Stefnir, hann var sonr Þorgils Eilífssonar, Helgasonar bjólo, Ketilssonar flatnefs, Bjarnarsonar bunu. Stefnir var fæddr á Kjalarnesi, ok vóx þar upp meþan hann var barn. Stefnir fór utan, þá er hann var á úngum aldri, ok tók trú í Danmerk, ok varđ göfugr mađr. Stefnir kom til móts viđ Þorvald Kǫđránsson, ok fór međ honum víđa um heim, at kanna helga stađi ok ríkra manna siđu. Um síđir hvarf Stefnir aptr í Norđrlönd, fann hann þá Ólaf Tryggvason fyrir vestan haf ok gerđist hans mađr, fór hann vestan međ Ólafi konúngi til Noregs.

*Kristniborđ Ólafs konúngs.*

140. Ólafr konúngr Tryggvason fór þann sama vetr er á leiđ, sem hann var til konúngs tekinn í Þrándheimi, austr í land hit efra alt til landsenda, ok lagđi undir sik land alt, sem áđr er sagt; fór konúngr snimma um vârit út í Víkina, ok hafđi liđ mikit, dvaldist hann þar lengi um vârit, komo þar til hans margir ríkir menn, þeir er voro frændr hans, en sumir höfđo verit vinir Tryggva konúngs föđur hans, var honum þar fagnat međ allmiklum kærleik. Bræđr 2 bjöggu þar í Víkinni, auđigir ok kynstórir, hèt

annarr Þorgeirr en annarr Hyrníngr, þeir komo á fund Ólafs konúngs; þeir höfðo vakit þat mál við Loðin stjúpföþur konúngs, at þeir vildo biþja dætra Loðins ok Ástríðar móður Ólafs konúngs; en Loðinn svaraði vel, en veik þeim ráðum til Ólafs konúngs, þvíat þær voro systr hans. Einn dag kallaði konúngr til tals við sik móðurbræðr sína Jóstein ok Karlshöfuð, Þorkel dyðril ok Loðin stjúpföður þeirra, svâ Þorgeir ok Hyrníng, þvíat þeir voro ríkaztir menn austr um Víkina. Síþan hóf konúngr svâ sitt mál með hinni mestu áhyggju ok alvöro: þat vil ek yðr kunnigt gera, segir hann, at ek vil kristniboð hefja hèr í landi, skal ek því á leið koma at kristna allan Noreg, eðr deyja at öðrum kosti; vil ek at þèr takit undir þetta mál með mèr, ok fylgit síþan með öllum mætti því enu ágæta erendi, svâ at þetta hit hjálpsamliga ráð mætti framgengt verða; hefi ek ok þessa mína fyrirætlan fyrir yðr uppborit fyrr enn öðru fólki hèr í landi, at mèr þikkir þat vænast til sakir valds ok ríkdóms, at þessi boðskapr gángist við, ef þit bræðr vilit fylgja Þorgeirr ok Hyrníngr, en ek trúi frændum mínum bezt til at mèr sè góðviljaðir, ok þar með Loðni stjúpföður mínum fyrir tengða sakir. Þá svarar Þorgeirr: skjótr em ek í andsvörum um þetta mál; vilir þú, konúngr! gipta okkr bræðrum systr þínar Íngiríði ok Íngigerði með ráði föður þeirra Loðins ok annarra frænda, þá skulu vèr með allan okkarn

styrk ok afla veita þèr, hverju sem þú vill framfara, ok alla okkra vini ok frændr leiða til hlýðni við þik, þá er við megum ræðum ok ráði viðkoma; þèr er nú ok kunnig ætt okkur ok eignir stórar af sannorðra manna frásögn, þó at þú hafir eigi verit lengi í þessu landi. Konúngr svarar: veit ek at þit erut menn ríkir ok stórættaðir, en sjálfir reyndir at trúleik ok drengskap, fyrir því vil ek unna ykkr þessa ráða sem þit beiðit, ef þat er eigi móti vilja meyjanna eða frænda [1]) þeirra; skal ek alla yðr mína tengðamenn ok frændr efla [yðr] bæði at ríki ok sæmdum, ef þèr vilit efla kristindóm með mèr, þvíat þat gerit þèr nú svâ at mèr þikkir mestu máli varða. Allir þeir, er þar voro á málstefnu, sögðo, at þeir skyldu öllu því at fylgja sem konúngr vildi vera láta, ok allir þeir er þeirra orðum vildi hlýða. Síþan var talat bónorð þeirra bræðra, ok varð þat framgengt, at þeir fengu dætra Loðins ok Ástríþar, skyldi sú veizla vera snimma sumars í Víkinni. Eptir þessa málstefnu gerði Ólafr konúngr bert fyrir alþýðunni, at hann vill bjóða kristni öllum mönnum í ríki síno; játaðu furst þesso boði þeir sem áðr höfðo undirgengit, sem nú var sagt, voro þeir ok ríkaztir þeirra manna sem þar voro viðstaddir, gerðu þat aðrir eptir þeirra dæmum; voro síþan skírðir allir menn um Víkina austan fjarðar. Síþan sat konúngr at brúðkaupi þeirra bræðra, fór sú veizla vel fram ok

[1]) föður, B.

sköruliga. Eptir veizluna fór Ólafr konúngr norðr í Víkina, ok bauð öllum mönnum at taka rètta trú, en þeim, er í móti mæltu, veitti hann stórar refsíngar, lèt suma drepa, suma hamla at höndum eðr fótum, suma rak hann or landi; kom þá svâ, at um alt þat ríki, er átt hafði Tryggvi konúngr faðir hans, ok svâ þat ríki, er átt hafði Haraldr konúngr grænski frændi hans, þá gekk þat fólk alt undir kristniboð þat er Ólafr konúngr boðaði; varð þá alkristit alt um Víkina.

*Prèdikan Ólafs konúngs við bændr.*

141. Ólafr konúngr rèð til skipa í Víkinni, ok fór þá norðr á Agðir [1]), hann hafði lið mikit ok fridt, en hvar sem hann átti þíng við bændr, bauð hann öllum mönnum at láta skírast, ok gengu allir menn undir kristni, þvíat engi fèkkst uppreist af bóndum í móti, ok var fólk skírt hvar sem hann kom. Ólafr konúngr stefndi þíng í Morstr á Sunnhörðalandi; en er bóndum kom þíngboð konúngs, samnast þeir saman fjölmennt, taka tal með sèr ok ráðagjörðir um vandkvæði þat, er þeir hafa spurt, at Ólafr konúngr boþar á hverju þíngi nýjan átrúnat ok úkunnan, ok skyldar alla menn til þann at hafa ok halda, en hinn upp at gefa, eyða ok ónýta, er landsfólkit hefir áðr haldit; verþa þeir á þat sáttir, at þessu boði skulu þeir í móti standa með öllu afli; velja síþan til 3 menn, þá er vitraztir ok málsnjallaztir voro í þeirra flokki, at mæla

[1]) Grænland, *F.*

í móti konúngi, ef hann vildi þetta erendi frambera, ok segja djarfliga, at þeir vilja undir engi úlög gánga, þó at konúngr bjóði þeim. Á næstu nótt, áðr þíngit skyldi vera, vitraðist hinn heilagi Martínus biskup Ólafi konúngi í svefni ok segir sva: þat hefir verit háttr manna hèr í landi sem víða annarstaðar, þar sem heiðit fólk er, at Þór ok Óðni er avl gefit, ok Ásum ero full eignut, þar sem samdrykkjur eðr gildi ero haldin, en nú vil ek at þú látir hinn veg til skipta at veizlum eðr samkundum, þar sem fyrir minnum er mælt, at sá úvandi leggist sem áðr hefir verit, en þú látir mik nefna til minna með guði ok hans helgum mönnum, en ek skal styðja ok styrkja þitt erendi á morgin, svâ at þat fáe framkvæmd, þvíat margir ætla móti at standa, ok jafnan skal ek þèr liðsinni veita til góðra framferða. Konúngr þóttist þessu játa, þvínæst vaknaði hann, ok hugsaði hvat fyrir hann hafði borit, ok þótti honum betra enn eigi dreymt. Konúngr fór til þíngs um daginn, ok var þar kominn mikill fjöldi bónda ok allir með vâpnum; en er þíngit var sett, stóð konúngr á bergi nökkuru ok hans menn umhyerfis, voro þeir ok með vâpnum, en bóndamúgrinn sat firr meirr. Svâ segja sannfróðir menn at enn seái á berginu svâ sem smá koppa, þar sem konúngsmenn settu niðr avrfalina, er þeir stóðu ok studdust við spjót sín, ok eigi síðr fótspor Ólafs konúngs þvílíkazt sem hann hafi staðit í krömum

snjó. Konúngr talaði blíðliga til bónda ok segir svâ. Hèr ero nú samankomnir margir höfðíngjar ok mikilsverðir, þar með fjöldi fólks, vil ek öllum mönnum kunna þökk, er þetta þíng hafa sótt eptir vâro boði, þvíat ek vænti at þessi yður hèrkvâma verði öllum oss til sæmdar bæði bráð ok lengðar. Þat er yðr kunnigt, at alt þetta landsfólk hefir játh mèr höfþíngskap yfir alt Noregs ríki, ok heitit mèr at veita lýðni ok góðvilja þjónusto í alla staði eptir minni vild; en fyrir því at ek vænti, at allir menn efni vel sín heit hèr um, þá heyrir mèr at leggja yðr eigi í ánauð sem verðkeypta þræla, heldr at skipa yðr sæmiliga þjónusto, þá sem hæfverskir riddarar eigu at [þiggja af [1]) sínum konúngi, því vil ek eigi at þèr sèth hlutlausir heilsamligra áminnínga, hvat yðr hæfir at gera eðr hverjum yðr heyrir at þjóna. Ef þèr vilit mèr hlýðnast, þá skal ek gera yðr riddara ens æðsta konúngs, er alla sèr trúliga þjónandi elskar ok auðgar, eigi at eins stundligu ríki, heldr gerir hann sína þræla bræðr síns sæta sonar ok samerfíngja eilífs fagnaðar. Þvíat jarðligt ríki er engu nýtt, nema at kaupa með því þat eilífa ríki, er aldri verðr endir á; því skulut þèr trúa á allsvaldanda guþ föður, skapara allra luta, ok á hans blezaða son, er virðist at láta berast híngat í heim af sinni blezaðri móður ok mey Maríe til lausnar öllu mannkyni, ok á helgan anda, einn guþ í þrenníngu ok þrennan í einíngu, ok með þessi trú skulut þèr láta

[1]) veita, F.

skírast í nafni föþur ok sonar ok anda heilags, ok görast svâ synir almáttigs guðs ok erfíngjar eilífs ríkis; en þèr skulut neita fjandanum ok allri skurðgoða villu, er hann hefir yðr ínetjat, ok ætlar svâ yðr at leiða, sem yðra fúrri frændr, til eilífra kvala með sèr sjálfum, ef þèr haldizt í hans þjónusto. Er yðr þat nú skjótazt hèr af at segja, at allir svâ úríkir sem auðigir, þeir er auðvèldliga ok sjálfviljandi gánga undir þenna boðskap, skulu eiga af mèr vísa vináttu ok þar með eilífa ömbun af allsvaldanda guði; en þeir sem í móti mæla ok eigi vilja hlýða þessu fagnaðar erendi, er þeim liggr sjálfum mest við at hafa ok halda, þá skulu þeir sæta af mèr reiði ok refsíngum, þar sem ek má því viðkoma. Talaði konúngr bæði lángt ok snjalt, en er hann hætti ræðu sinni, þá stóð upp sá af bóndum, er einna var snjallaztr, ok til þess var ætlaðr af þeim, at svara furstr konúngi ok mæla í móti kristniboði hans; en er hann vilde til máls taka, þá setti at honum hórsta ok þröngð svâ mikla, at hann fèkk engu orði uppkomit, ok settist hann niðr. Þá stóð upp annarr bóndi ok vilde eigi annsvörin falla láta, þóat hinum furra hefði eigi vel tiltekizt; en er hann hóf sitt mál, þá varð hann svâ stammr, at hann fèkk ekki orð talat svâ at skilja mætti; tóko þá allir at hlæja at hönum, þeir er nærr voro, settist hann við þat niðr. Þá stóð upp hinn þriði með mikilli reiði ok ofmetnaði, ok vildi tala í móti konúngi; hugs-

aði hann at hefna sinna fèlaga með mjúku túngubragði ok mikilli snild, en hann varð svâ háss ok rámr, at engi maðr heyrði hvat hann mælti; settist sá niðr með skömm ok svívirþíng, er uppreis með ofbeldi ok drambi. Síþan varð á því þíngi engi til at mæla í móti konúngi, kom þá svâ, at allir játaðu því er konúngr bauð; skildi konúngr eigi furr við, enn alt þíngfólk var skírt. Bauð konúngr þá um Þángbrandi presti at skíra kvennafólk ok úngmenni, ok alt þat fólk, er nærr var, ok eigi hafði komit til þíngsins; en allsstaðar þar sem konúngr fór yfir, ok landslýðrinn tók rètta trú, þá lèt Ólafr konúngr brjóta ok brenna hof ok hörga, en reisa í staðin kirkjur, ok fèkk til kennimenn, þar er honum þótti mest nauðsýn tilbera; lèt hann ok eyða öllum skurðgoðum, brenna þau eðr brjóta; svâ segir Hallarsteinn [1]):

Fèmildr fylkir vildi
firna mörg ok hörga
blóthús brenna láta,
bað hann heiðin goð meiða;
siðvandr síþan kendi
sannfróðum trú góða
herlundr hölða kindum
hann er ríkztr konúngr manna.

*Útkoma Stefnis Þorgilssonar.*

142. Stefnir enn íslenzki var með Ólafi konúngi, sem áðr er getit; konúngr átti optliga tal við hann, þvíat Stefnir var maðr vitr, ok

[1]) Markús, *F.*

hafði farit víða; frètti konúngr hann mjök at framferði ok siðum ríkra höfþíngja í avðrum löndum, svâ um ferðir þeirra Þorvalds Koðránssonar. Stefnir sagði konúngi slíkt er hann spurði. Konúngr frètti Stefni, ef honum væri hugr á at vitja frænda sinna á Íslandi ok boða þeim helga trú. Stefnir svarir: svâ var þar tekit af flestum mönnum við Þorvaldi, þá er hann fór þess erendis til Íslands með Friðreki biskupi, at mik lángar ekki til þess, ok var hann í alla staði betr tilfærr enn ek at flytja þenna boðskap. Konúngr mælti: með því at ek hefi svâ upphafvit at flytja kristniboð hèr í Noregi, at et hefvir fullkomliga stadt upp á hjarta mitt, at lètta eigi furr þessu starfi, enn alt landsfólk er hèr rètt trúat, þá skal ek eigi siðr ástunda með öllu kostgæfi, at leiða guði til handa þann lýð, er Ísland byggir eðr önnur Norðrlönd, þau sem híngat liggja undir vârt ríki til kaupferða ok atflutnínga þeirra gæða, sem vèr megum eigi missa, en þau lönd megu hálfu síðr þarnast þeirra luta sumra, er hèðan flytjast; en þat er eigi heyriligt, at kristnir menn saurgi sína trú svâ, at þeir eigi kaup við heiðíngja ok annat vinskapar samneyti sem við sína bræðr; nú hefi ek helzt hugsat at senda þik til Íslands ok boða guðs nafn, ok vita hversu við láti; sè ek eigi hèr með oss annann mann líkara til þessa erendis, þvíat þú ert þeim samlendr ok ættaðr vel, algjörr í heilagri trú ok siðferði. Stefnir svarar: gjarna vil ek fara yðra sendiför,

hvârt sem þèr vilit, til Íslands eðr í annann stað, en uggr er mèr á, at til lítils komi mín ferð, þvíat Íslendíngar, frændr mínir, ero harðir viðreignar, ok vilja seint láta af því, sem þeir taka upp. Því næst bjóst Stefnir til Íslandsferðar, lèt síðan í haf með nökkurum lærðum mönnum ok avðru föroneyti, er Ólafr konúngr fèkk honum; greiddist þeirra ferð vel, þeir höfðu útivist bæði skamma ok hægja. Stefnir kom skipi síno í Gufárós nökkuru fyrir alþíngi, tók hann þegar opinberliga at boða guðs erendi; en er menn vissu, at hann var kristinn, ok með hverju erendi hann fór, þá tóko þeir við honum illa ok úmannliga, en þó frændr hans allra verst; hann fór djarfliga yfir við roda mann bæði vestr ok suðr; ok er hann sá, at engir vildo við skipast hans fortölur í þeim hèröðum, þvíat alt fólk var heiðit fyrir sunnan land ok um Vestfirðínga fjórðúng, þá reiddist Stefnir ok tók at brjóta hof ok hörga ok brenna skurðgoð með styrk sinna föronauta; samnaðust þá saman heiðíngjar, ok lètu þá eigi ná at brjóta hof sín eðr meiða guðin. Á því sama sumri var þat í lög tekit á alþíngi: at hvern þann mann skyldi gera sekjan ok útlægan, er lastaði goðin eðr gerði þeim nökkura meingerð eðr úsæmd; skyldo þær sakar sækja frændr þeirra, er fyrir sökum voro hafðir, þrímenníngar ok fjórmenníngar ok þar í milli, þvíat heiðnir menn kallaðu kristnina frændaskömm; fyrir því stefndu Stefni

frændr hans, synir Ósvífurs Helgasonar, Ó
sonar, Bjarnarsonar, Ketilssonar flatnefs;
hètu svâ: Þórólfr ok Áskell, Torráðr ok
ráðr, en Óspakr bróðir þeirra vildi eigi
hann. Stefnir svaraði þeim svâ, er þeir
sekðan hann: þessi sekt, er þèr hafit mik
ir dæmdan, mân mik ekki skaða, en
munu eigi líða margir vetr, áðr yðr m
þessa sök at hendi koma mikil úgipta
íngjuleysi. Skip Stefnis stóð uppi um
Gufárósi, en um vârit, er snjófa leysti
um, þá tók út skipit alt saman árvöxtr
veðrs, rak skipit til hafs, þótti heiði
auðsýnt, at goðin voro reið Stefni, ok þ
valda þessum atburð; þar um kváðu
þessa:

Nú hefir stafnvalinn Stefnis,
straumr ferr um hol knerri,
felle-veðr af fjalli
fjallrænt brotit allan;
heldr kveð ek víst at valdi,
vera munu bönd í landi,
geisar á með ísi,
ásríki gný slíkum.

Litlu síðarr kom skip Stefnis at landi, ok v
lest eðr ekki, ok fór Stefnir á því utan.

*Frá ættmönnum Hörðakára.*

143. Ólafr konúngr, þá er hann
kristnat alt fólk í Víkinni, fór norðr með
þat sama sumar, er Stefnir fór til Íslands, se

var sagt; snèri konúngr öllum mönnum til kristni, hvar sem hann kom, ok kendi þeim rètta siðu. Á Hördalandi voro þá menn margir ríkir ok ágætir, er komnir voro af ætt Hörðakára. Hörðakári átti 4 sonu: einn var Þorleifr hinn spaki; annarr Ögmundr, faðir Þórólfs skjálgs, föður Erlíngs á Sola; Þórðr hinn þriði faðir Klypps hersis, er drap Sigurð konúng slefu Gunnhildarson; fiórði son Hörðakára var Ölmóðr hinn gamli, faðir Áskels, föður Ásláks fitjaskalla: var þessi ættbogi þá mestr ok göfgaztr á Hörðalandi, er kominn var af ætt Hördakára. En er þeir frændr spurðu til þessa vandkvæðis, at Ólafr konúngr fór austan með landi, ok hafði lið mikit ok braut forn lög á mönnum, en allir sættu refsíngum ok afarkostum, þeim sem í móti mæltu því, er hann vildi vera láta; þá gerðu þeir stefnulag milli sín at göra ráð fyrir sèr, þvíat þeir vissu, at konúngr mundi brátt koma á fund þeirra; en er þeir fundust allir frændr, þá mælti sá er mest var fyrir þeim: þat vita allir menn, þeir sem hèr ero samankomnir, at Ólafr konúngr Tryggvason mun skjótt koma at vitja vâr, er hann ágætr maðr af íþróttum sínum, styrk ok stórvirkjum, er hann hefir unnit víða lönðin; því flýgr hans frægð ok frami um alla norðrhálfu heimsins, fur þá skyld er gott ok sæmiligt slíkum konúngi at þjóna, ok honum at hlýðnast um allan heyriligan boðskap ok viðrkvæmiligar krafir; en siðr sá enn úkunni, er hann boðar, mislíkar oss

mjök; nú er þat mitt ráð, at vèr frændr gán
im eigi undir þenna boðskap, utan konúngr l
til vârs lyndis nökkurn þann lut, er aukist v
virþíng ok sæmd. Þetta ráð var af öllum v
rómat. Lauk svâ þeirri stefnu, at þat var al
þeirra samþykki ok ráð, at þeir skyldo al
koma fjölmennt til Gulaþíngs, ok finna þar Ó
konúng, ef hann vildi.

144. Þessi frændbálkr afkvæmi Hörðaká
hafði lengi æfi ráðit fur á Hörðalandi. Þóró
skjálgr Ögmundarson rèð fyrir á Jaðri, ha
var ríkr maðr ok fjölmennr, hermaðr mikill
újafnaðarmaðr; son hans hèt Erlíngr, sem fi
var getit, hann fæddist upp at fóstri, meþan ha
var úngr; snemma var hann mikill ok sterkr,
þótti heldr údæll.

*Frá Rögnvaldi ok Rauð.*

145. Maðr er nefndr Loðinn, hann bjó
Ærvík fyrir sunnan Stað, hann var maðr auðigr
engi ofrhugi í skapi; kona hans hèt Gyða, hún v
væn ok svarri mikill; þau áttu 2 sonu: hèt anna
Rögnvaldr, en annarr Úlfr. Loðinn var vi
Þórólfs skjálgs, en þó var kona hans ho
um enn kærri; var Þórólfr skjálgr optliga
veizlu með Loðni, ok sat þar laungum; jafn
var hann lángtalaðr við húsfreyju Loðins,
lèk þat orð á, at hann mundi eigi dyggli
ömbuna honum góðar veizlur ok vingjafir. S
bar til eitt sinn, at Skjálgr var at veizlu í Ærv
at menn ljópu inn í skálann fyrir dag, ok sög

Þórólfi, at lopt þat var brotið, er Loðinn svaf í, ok hann sjálfr drepinn, en menn vissu eigi, hverr verks þess var valdr. Þórólfr sagði þá hart leikit; en ekki er þess getið, at hann gæfi sèr mikit um; höfðo margir menn mikinn grun á Þórólfi um þetta verk, þvíat mjök þótti saman bera ok þarvist hans, en engir þorðo þat upp at bera í hávaða. Þórólfr bauð sik til áseá við Gyðo; hún játti því, ok hafði hann hana heim með sèr, en kastaði þar sinni eign á lendur ok lausafè; sono Loðins vildi hann þjá undir þrældóm, lèt Rögnvaldr þjást en Úlfr eigi, því var hann seldr mansali til fjarlægra landa, ok kemr hann ekki við þessa sögu. Rögnvaldr þroskaðist skjótt, var hann maðr mikill ok sturkr, ok vænn at seá, hann aflaði brátt mikilli vinnu ok var hagr vel; Þórólfr hafði hann í þrælatölu, en er hann var roskinn at aldri, þá setti Þórólfr hann yfir aðra mansmenn at stjórna þeim, ok halda til vinnu. Einn tíma mælti Rögnvaldr til Þórólfs: una munda ek með þèr, ef þú fengir mèr konu þá, er mèr gætist at. Hann svarar: þar þikkir mèr eigi vant um, ok eigi skorta til þræla ættirnar; kona heitir Sigríðr, er ek mân til láta, hún er dóttir eins lítils bónda, er hèðan býr skamt í brott, er þèr sá kostr fullgóðr, ok vil ek þar hafa hollostu þína í mót. Rögnvaldr sagði sik honum eigi útrúliga hafa þjónat. Var nú þetta at ráðum

gert, at Rögnvaldr fèkk Sigríðar, hún var væn ok vel at sèr; þau gátu brátt son ok nefndo hann Gunnar, hann var snimma mikill vexti ok vænligr at seá; Þórólfr skjálgr tók frá þeim sveininn ok elskaði sem hann væri hans son; liðo svâ fram 3 vetr. Þórólfr skjálgr fór hvert sumar í hernað, ok setti Rögnvald heima ræðismann fyrir bú sitt; en hann sat um kyrt á vetrum, ok hafði jafnan mannmart með sèr. Á því vâri, er sveinninn Gunnarr, son Rögnvalds, var þrèvetr, bjóst Þórólfr at fara í víking, sem hann var vanr; en áðr hann fór heiman, kom hann at máli við Rögnvald ok segir sva: vinnu ætla ek at láta hèr flytja fram í sumar meiri enn vandi er til, þvíat ek vil láta gera mèr mikinn drykkjuskála, ok vanda sem mest, skaltu vera forseámaðr þessa starfs með öðrum þrælum, ok fá smiði til, þvíat þú ert umsýslumaðr mikill ok hagr vel; þætti mèr þá vel sýslat, ef ek mætti þar í veita í haust vinum mínum, ok fagna svâ heimkvâmu minni. Rögnvaldr játar þessu; ferr Þórólfr í hernað, en Rögnvaldr býr til skála smíðarinnar, hann leigir til með sèr 2 ena hagaztu smiði, vindverska at ætt, gerir þeim kosti góða, þvíat hann sparir eigi penníngha Þórólfs, lagði Rögnvaldr við þá mikinn fèlagskap; gekk skálasmíðin fram bæði vel ok skjótt; Rögnvaldr lèt hirða vandliga bæði afhögg ok spónu; hafði Rögnvaldr forsögn alla á þessi smíð; en er skálinn var algjör ok skot umhverfis, þá lèt hann

þræla flytja heim eldivið mikinn, ok hlaða köstu jafn háfa veggjum öllum megin um skálann, var þetta alt unnit áðr Þórólfr kom heim um haustið; en er hann kom, leit hann á smíþit, ok lèt vel yfir; hann spurði Rögnvald, hví hann hefði látið heim færa svâ stóra viðkavstu; hann svarar: þvíat mèr leiðist at jafnan á vetrum, er hèr kveinat um eldiviðar fæð, þvíat mikils þarf við, en í annan stað vildi ek eigi, at sól rífi í sundr nýja timbrveggi skálâns ok lítt brædda. Þórólfr gaf sèr um þetta ekki meira, lèt hann síþan búa veizlu ríkuliga í skálanum, ok bauð til vinum sínum; drykkr var hinn styrkazti, ok veitt af kappi, hafði Rögnvaldr þar fur avnn hina mestu ok umhyggju, at [1]) ætla avl til ok inn at bera, þeir skenktu hinir vindversku smiðir. Rögnvaldr eggjaði þá til at bera sem ákafazt drykkinn, þvíat eigi skorti efni til; sagði hann þat mestu raða, hvert orð álegðist um stórveizlur, at í fyrstunni vyrði menn fulldrukknir; byrlararnir voro ok í ráðum með honum, ok vissu hverju hann ætlaði fram at fara. Þórólfr skjálgr hafði lagit mikla elsku við sveininn Gunnar, hafði hann þá látið gera honum rauðan skarlats kurtil, ok lèt hann sitja hjá sèr í öndvegi. Nú drukku menn svâ ákaft hinn fursta aptan, at hverr lá sofinn í sínu rúmi; en er svâ var komit, var Rögnvaldr enn eigi iðjulauss, þó at eigi þurfti avlit inn at bera, vissi þá hvat spænir þeir skyldo,

[1]) ok, *A.*

er hann hafði hirdt um sumarit; voro þeir en
vindversku menn þá enn í starfi með honum, c
báru mikinn við fyrir skála dyrnar, en al
spánu báru þeir heim at skálanum, slógu síþa
eldi í altsaman ok viðköstu þá hina stóru, c
þvínæst tók skálinn allr at loga; gekk Rögn
valdr þá inn ok greip son sinn Gunnar or önd
veginu frá Þórólfi, ok bar hann út sofanda t
móður sinnar, ok sagði betr at hann vakna
seint, þvíat nú eigum vèr heldr starfsamt, seg
hann; hún kvað ærit um þat. Þeir menn, er
skálanum voro, voro svâ dauða druknir, at þe
vaknaðu eigi furr enn logi lèk um þá, brar
þar skálinn ok allir menn, þeir er inni vor
Rögnvaldr sló ok eldi í þrælahúsit, ok bren
þat fólk, er þar var inni; síþan fóro þau
strandar, fengu sèr skip ok rèru út á fjörðin
þá vaknaði sveinninn ok sá loga ok reyk
land upp, hann *mælti*: nú bregðr undrum vi
ek er nú hèr kominn, en litlu áðr sofnaða
hjá fóstra minum, ok mântu enn illi Rögnval
valda þessum mikla eldi, er ek sè heim til bæjarin
vildi ek miklu heldr vera þar hjá Þórólfi fóst
mínum enn hèr hjá þèr, þvíat eigi muntu v
við mik gera, er þú hefir illa við hann ge
Rögnvaldr bað vitleysíng þann þegja. Ept
þat fóro þau norðr, þau höfðo með sèr fè mik
í borðbúnaði ok brendo silfri, er hinir vin
versku menn höfðo borit út, meðan Rögnval
bjó til brennunnar; þeim fór eigi at alt hit greið

azta, hvelfði þar skipinu undir þeim fyrir sunnan Stað, týndost þar hinir vindversku menn ok allir penninghar, er á voro skipinu, en Rögnvaldr gat borgit konu sinni ok syni, flutti hann þau til bæjar í Ærvík. Þórólfr skjálgr hafði sett fyrir eignir þær, er þar voro, lítilsháttar menn, rak Rögnvaldr þá í brott, en settist þar í bú; vurðo frændr hans því fegnir, er hann hafði tekit þar fè sitt ok föðurleifð. Rögnvaldr sagði svâ, er hann kom norðr í Ærvík, at Þórólfr skjálgr hefði gert hann frjálsan ok gefit honum aptr eignir sínar fyrir lánga ok trúliga þjónusto, þótti mönnum sú sögn trúanlig. Brenna Þórólfs spurðist víða, en engi maðr þóttist vita, hvat valda mundi, var ok eigi mjök eptirleitat, þvíat Erlíngr, son hans, var barn at aldri, en Þórólfr hafði verit maðr údæll ok ágjarn, ok af því ekki vinsæll af alþýðo, höfðo ok flestir hans kærir vinir brunnit inni með honum. Þá er Rögnvaldr hafði litla hríð heima verit í Ærvík, tók hann son sinn Gunnar ok fór til sjóvar með, fèkk sèr einn lítinn bát; síðan tók hann annat skip meira ok flutti bátinn á sjá út lángt, síþan tók hann sveininn ok batt hann við innviðu í hinu litla skipinu ok lèt reka hvert er vildi, en Rögnvaldr rèri til lands. Sigríðr spurði at ferð hans, eðr hvat hann hefði gjört af barninu; hann kvaðst ekki mundo til segja annat, en eigi mundi sveinninn segja, hverr Skjálg hefði inni brent. Sat Rögnvaldr síþan í búi síno í Ærvík ok þótti

mikilmenni; en frá sveininum er þat at segja, at bátinn undir honum reiddi vindr ok straumar norðr með landi, ok kom um síðir at eyju einni; Rögnvaldr hafði svâ um búit, þó at sveinninn væri bundinn við skipit, svâ at hann mátti eigi sjálfr leysa sik, at þó voro lausar hendr hans, ok mátti hann taka til fæðu þeirrar, er Rögnvaldr hafði ætlat honum at hann mætti lifa við. Fyrir eyju þeirri, er bátrinn var at kominn, réð einn blótmaðr, var þar mikit hof ok eignat Þór; þessi maðr fann rekann, ok þótti undarliga um búit, leysti hann sveininn ok leitaði orða við, en hann þagði; bóndi tók upp barnit ok bar heim til konu sinnar, þeim sýndist þessi sveinn eiguligr ok fríðr, en þau voro barnlaus; þau leitaðu eptir, ef hann kynni nökkut at mæla, ok fengu þau ekki orð af honum. Bóndi sagði til fundarins nágrönnum sínum, ok frètti eptir, ef nökkurir vissi um barn þetta, hvaþan þat væri at komit, ok kunni þat engi at segja; þá mælti bóndi: hvat mân annat, með því at engi kannast við svein þenna, enn ek fæða hann upp, ok kalla minn son, en nafn skal hann taka af lit kyrtils síns ok heita Rauðr; vóx hann þar upp ok varð bæði mikill maðr ok sköruligr, unni fóstri hans honum mikit, svâ at hann gaf honum alla sína eign eptir sinn dag. Blótmaðr þessi varð ekki gamall, en er hann var dauðr, þá tók Rauðr þar við fjár forráðum ok allri eign; gerðist Rauðr þá enn mesti blótmaðr, ok er

svâ sagt, at hann magnaði með miklum blótskap líkneski Þórs þar í hofinu, at fjandi mælti við hann or skurðgoðinu, ok hrærði þat svâ, at þat sýndist gánga úti með honum um dögum, ok leiddi Rauðr þat optliga með sèr um eyna.

*Skilnaðr Rögnvalds ok Sigríðar.*

146. Nú er at segja frá Sigríði konu Rögnvalds í Ærvík, hún kom einn tíma at máli við bónda sinn, ok segir svâ: við höfum lengi saman búit með ást ok yndi, en nú ætla ek at bregða okkari samvist, þvíat ek hygg, at okkr dugi eigi svâ búit; ek hefi verit í samþykki ok vitorði með þèr um þau stórvirki, er þú hefir unnit með svâ mikilli huldu, þvíat þat er reynt, at engi maðr heldr fullkomliga sínum þrifnaði til alsendis, þó at hann myrði einn mann, en þessir stórlutir, er vèr höfum í hratað, ero miklu meira háttar enn eins manns morð; nú hefi ek heyrt at víða um heiminn sè haldinn annarr siðr enn vèr höfum, ok þeir, er þann sið hafa, taka nafn af þeim guði, er þeir trúa á, ok kallaðr er Hvítakristr, ok því heita þeir kristnir; mèr er ok sagt, at Hvítakristr sè svâ miskunsamr, at engi maðr hafi svâ ílt gert áðr, at eigi gefist honum þat þá alt upp, ef hann vill kristinn gerast ok halda hans trú; ek hefi ok frètt, at sá maðr, er oss er samlendr, ferr víða um lönd at boða þenna átrúnat, hann heitir Ólafr ok er Tryggva son konúngs Ólafssonar. Nú ætla ek hans at leita, ok ef ek prófa þetta alt sannindi, sem mèr er

hèr af sagt, þá skal ek taka þá trú, sem hann boþar, ok má vera at þá hlýði, en eigi svâ búit, sem nú er komit okkru máli. Rögnvaldr svarar: þú munt því ráða, en eptir mun ek vera, ok óbreytt mundi okkrum hag, ef ek rèða. Því nærst fór Sigríðr or landi með kaupmönnum, er sigldo til Englands, fann Sigríðr Ólaf konúng fyrir vestan haf, en er hún náði at tala við konúng, segir hún svâ: því er ek hèr komin, at ek hefi frètt at þú býðr annann sið enn menn hafa í Noregi; nú vil ek láta skírast, hafa síðan ok halda þá trú, sem þú kennir. Konúngr svarar: þú ferr með góðo erendi, ok gánga fáir svâ í mót kristninni, ok vil ek gjarna láta þetta embætti veita þèr. Var Sigríðr þá skírð. Síþan mælti Sigríðr til konúngs: ef yðr þikkir mèr þetta hafa vel farit, þá mân hèr koma at því, sem mælt er, at æ sèrr gjöf til gjalda; þú munt koma til Noregs ok boða þar trú rètta, vænti ek at meira megi gæfa þín ok hamíngja með guðs miskun enn illska ok mótgángr landsmanna; en ek vil þèr kunnigt gera, at maðr heitir Rögnvaldr, ríkr ok auðigr, hann býr í Ærvík fyrir sunnan Stað í Noregi, Rögnvaldr er bóndi minn; nú er þat bæn mín, herra! er þèr komit til Noregs, at þenna mann lokkit þèr með linleik ok fögrum orðum til sannrar trúar, þvíat heldr mân hann gánga fyrir blíðskap enn harðindum; annarr maðr heitir Rauðr, er ræðr fyrir eyju einni norðr fyrir Hálogalandi; þat er mèr úkunnara, hverr

vandi mèr er á við hann, báðir ero þeir mikilmenni ok ekki úskaplíkir um margt, ok mætti þèr, konungr! verða munr at, at þeir væri þèr heldr sinnaðir enn í mót. Síþan segir hún konúngi inniliga um öll skipti þeirra Skjálgs ok Rögnvalds ok svâ um aðra ríkismanna skipan í Noregi, hver þá var. Sigríðr gaf Ólafi konúngi góðar gjafar áðr þau skildu, þvíat hún hafði haft með sèr mikit fè af Noregi; fór hún eptir þat út í heim, ok endi þar líf sitt með miklum góðleik. En Ólafr konúngr Tryggvason fór litlu síþarr austr til Noregs, sem furr er ritað.

*Erlingr Skjálgsson kvongast.*

147. Nú er þar til at taka, sem furr var frá horfit, at Ólafr konúngr stefndi liði síno til Gulaþíngs, þvíat bændr höfðo sent honum þau orð, at þeir vildi þar svara máli hans. En er hvârirtveggju komo til þíngs, þá átti konúngr furst tal við landshöfðíngja, bar konúngr fyrir þá sín erendi, ok bauð þeim sem öðrum mönnum at taka við kristni; þá svarar sá þeirra, er einna var ríkaztr: talat höfum vèr frændr ok samit þetta mál vor í millum, at með því, konúngr! ef þú vill pýnda oss til nökkurra luta ok brjóta lög vor, ok þrengja oss undir þat með nökkurri nauðúngu, þá munu vèr í móti standa með öllu afli, ok fáe þeir sigr sem auþit má verða; en ef þú, konúngr! vill leggja til vorr frænda nökkura farsæliga luti, þá mátt þú þat

svâ vel gera, at vèr munum allir veita þèr trúlynda þjónusto. Konúngr svarar: hvat vilit þèr af mèr þiggja, til þess at vor sætt ok samþykki verði sem bezt? Þá svarar þessi höfðínginn: þat er hit fursta, ef þú vill gipta Erlíngi Skjálgssyni frænda vorum Ástríði systur þína, dóttur Tryggva konúngs, hann köllum vèr nú mann vænztan allra úngra manna í Noregi. Konúngr svarar; líkligt þikkir mèr at þat gjaforð sè gott ok sæmiligt, þvíat Erlíngr er auðigr ok ættaðr vel ok enn fríðazti sýnum, en þó á Ástríðr svör þessa máls, nú mân ek leita við hana, hversu henni er um gefit, þvíat flest mân ek til vinna at guðs kristni fáe framgáng, þat er ek má auðveldliga veita af sjálfs míns valdi. Síðan ræddi konúngr þetta mál við systur sína, ef hún vildi giptast Erlíngi at hans ráði. Ástríðr svarar: lítt nýt ek þess þá, segir hún, at ek er konúngs dóttir ok konúngs systir samborin í báðar ættir, ef mik skal gipta útignum manni, mun ek enn heldr bíða nökkura vetr annars gjaforðs; skilðo þau svâ sitt tal, gekk hún á brottu. Konúngr lèt taka hauk, er Ástríðr átti, ok lèt plokka af allar fjaðrarnar ok sendi henni síþan. Þá mælti Ástríðr: reiðr er bróðir minn nú. Stóð hún upp þegar, ok gekk til fundar við konúng; hann fagnaði henni vel; hún segir þá, at konúngr skyldi sjá fyrir hennar ráði, slíkt er hann vill; þat hugði ek, segir hann, at ek mundi hafa vald til at gera þann tíginn mann hèr í landi, sem ek

vil; lèt konúngr þá til sín kalla Erlíng ok alla þá frændr, ok var talat um bónorð þetta, lauk svâ, at Ástríðr var föstnut Erlíngi. Síþan lèt konúngr setja þíng ok bauð bóndum kristni, var þá Erlíngr forgángsmaðr at flytja þetta konúngs erendi ok þar með allir frændr hans, játti því þá allr lýðr, þvíat engir vurðu til mótmæla höfþíngjar; var þá skírt þat fólk alt ok kristnat. Litlu síðarr gerði Erlíngr Skjálgsson brúðkaup sitt, var sú veizla allfjölmenn. Þar var Ólafr konúngr ok bauð at gefa Erlíngi jarls nafn ok ríki mikit; Erlíngr svarar: hersar hafa verit fúrri frændr mínir, vil ek ekki bera nafn hærra enn þeir; hitt vil ek þiggja, konúngr! at þèr látit mik vera mestan mann með því nafni hèr í landi; konúngr játaði honum því, ok at skilnaði veitti Ólafr konúngr Erlíngi mági sínum ríki norþan frá Sognsæ ok alt austr til Líðandisness, með þvílíkum hætti, sem Haraldr konúngr hinn hárfagri veitti sonum sínum. Fór konúngr þá enn norðr með landi at veizlum, ok boðaði guðs nafn, hvar sem hann kom.

*Ólafr konúngr finnr Rögnvald.*

148. Ólafr konúngr var á veizlu skamt frá Ærvík, hugsaði konúngr þá, hvat Sigríðr hafði sagt fyrir vestan haf af Rögnvaldi bónda sínum, sem furr er getit, sendi konúngr þá menn til Rögnvalds ok bað hann koma á sinn fund; sendimenn hittu Rögnvald ok báru honum orð konúngs. Rögnvaldr svarar: velkomnir skulut þèr

hèr; gángit inn til drykkju, ok sitit hèr meþan yðr þikkir gott, en eigi veit ek vânir míns erendis á konúngs fund, ef þèr kunnit eigi. Konúngsmenn fóro aptr, ok sögðu honum greiniliga svör hans. Konúngr mælti: þá skal ek eiga við hann erendi, ef hann á ekki við mik, skal ek þar koma við fjölmenni. Rögnvaldr spurði at þeir konúngr mundi þar koma, hann sendi alla sína menn í brott af bænum; en er konúngr var kominn nærr bænum, sá þeir einn mann úti; konúngr spur hverr sá mundi vera, honum var sagt, at þar var Rögnvaldr bóndi. Konúngr mælti: mikill maðr ok hamíngjusamligr. Rögnvaldr gekk einnsaman í móti konúngi ok fagnaði honum, konúngr tók því vel. Síþan mælti konúngr: þat er erendi mitt til þín, Rögnvaldr! sem til allra annarra hèr í landi, at ek vil, ath þú trúir á einn allsvaldanda guð föþur ok son ok helgan anda, skapara himins ok jarðar ok allra luta sýniligra ok úsýniligra; með þessarri trú skaltu neita djöfli ok allum hans verkum ok vælum, ok öllum skurðgoðum ok þeirra átrúnaði; síþan skaltu sem hverr annarr, sá er sálu sinni vill hjálpa ok eignast eilíft líf, taka skírn í nafni heilagrar þrenníngar með sannri iðran ok játníngu synda þinna; en sá guð, er þú skalt trúa á, er svâ máttugr, mildr ok miskunsamr, at hann þvær af manninum í skírninni allar syndir, aldri hefir hann áðr svâ ílt gört, ef hann gengr til skripta fyrir kenni-

manni, ok segir til glæpa sinna með sannri iðran. En er konúngr hætti sinni ræðu, þá svaraði Rögnvaldr: lengi hefir mèr nú lètt gengit með minni trú, en allvel líka mer þín boð, utan sá einn lutr, er þú segir, at til skripta skal gánga ok segja sínar athafnir, þvíat myklu hefir fleira yfir mik liðit enn ek muna segja, ok því vil ek ekki við þinni trú taka, en í engan stað skal ek letja, at aðrir menn taki við kristni; lèt konúngr þá taka Rögnvald höndum ok hafði hann í sinni gæzlu.

*Haldit 4ra fylkna þíng á Dragsheiði.*

149. Þetta sama sumar stefndi Ólafr konúngr 4ra fylkna þíng norðr á Staði á Dragsheiði, skyldo þar koma Sygnir ok Firþir, Sunnmærir ok Raumdælir. Ólafr konúngr sótti til þíngs með allmikit fjölmenni, er hann hafði haft austan or landi, ok svâ þat lið, er þar hafði komit til hans á Rogalandi ok Hörðalandi; bændr komu til þíngs, sem ákveþit var; en er konúngr kom þar með lið sitt, þá boðaði hann þar kristni, sem í avðrum stöðum, ok fyrir því at honum þótti bændr eigi skjótt játa síno erendi, þá bauð hann þeim at lyktum, at þeir skyldo halda orosto við hann, en at avðrum kosti láta skírast ok taka rètta trú; en þvíat konúngr hafði styrk mikinn fjölmennis, þá sá bændr, at þeir höfðo eigi afla til at berjast við konúng, var þat ráð upptekit um síðir, at alt þat fólk kristnaðist ok tók helga skírn. Eptir þat fór konúngr til eyjarinnar Selju,

ok fann þar líkama ennar helgu Sunnivo ok aðra helga dóma þeirrar sælu sveitar, er henni hafði fylgt, sem fyrr er ritat. Síþan fór konúngr á Norðmæri með liði síno, ok kristnaði þat fylki.

*Ólafr konúngr kom til Rauðs.*

150. Því næst sigldi Ólafr konúngr inn á Hlaðir, ok lèt brjóta ofan hofit, ok taka brottu fè alt þat, er þar var, ok alt skraut af goðonum, hann tók gullhríng mikinn or hofshurðinni, er Hákon jarl hafði gera látit, eptir þat lèt hann brenna alt saman hofit ok guðin; en er bændr verða þessa varir, þá láta þeir fara herör um öll hin næstu fylki, ok stefna liði út ok ætla at fara at konúngi með her. Ólafr konúngr hèlt liði síno út eptir firði, hann stefndi norðr með landi, ok ætlaði at fara norðr á Hálogaland ok kristna þar. En er konúngr kom norðr fyrir Naumudal, þá ætlaði hann út í Rauðseyjar; þann morgin gekk Rauðr til hofs síns, sem hann var vanr; Þórr var þá heldr hryggiligr, ok veitti Rauð engi andsvör, þó at hann leitaði orða við hann. Rauð þótti þat mjök undarligt, ok leitaði marga vega at fá mál af honum, ok spurði hví þat sætti. Þórr svarar um síðir ok þó heldr mæðiliga, sagði [at hann gerði [1]) þetta eigi fyrir sakleysi, þvíat mèr er, segir hann, mjök þröngt í kvâmu þeirra manna, er híngat ætla til eyjarinnar, ok mjök er mèr úþokkat til þeirra. Rauðr spurði, hverir þeir menn væri. Þórr segir, at þar var Ólafr konúngr Tryggvason ok lið hans. Rauðr mælti: þeyt

[1]) *bætir við F.*

þú í mót þeim skeggravdd [1]) þína, ok stöndum í mót þeim knáliga. Þórr kvað þat mundo fyrir lítit koma; en þó gengu þeir út, ok blès Þórr fast í kampana, ok þeytti skeggraustina; kom þá þegar andviðri móti konúngi svâ styrkt, at ekki mátti við halda, ok varð konúngr at láta síga aptr til sömu hafnar, sem hann hafði áðr verit, ok fór svâ nökkurum sinnum, en konúngr eggjaðist því meirr at fara til eyjarinnar, ok um síðir varð ríkari hans góðvili með guðs krapti, enn sá fjandi er í móti stóð. Rauðr kom enn til hofsins, ok var Þórr þa mjök úfrýnligr ok í hörðum hug. Rauðr spurði, hví þat sætti. Þórr segir, at þá var konúngr kominn í eyna. Rauðr mælti: við skulum þá standa í móti þeim með öllu afli, en gefast ekki upp þegar, en Þórr kvað þat lítit mundo gera. Sendi konúngr þá orð Rauð, at hann kvæmi á hans fund. Rauðr svarar seinliga: mân ek ekki, segir hann, hrapa [2]) á konúngs fund, þvíat mèr er lítil þökk á hans kvâmu, en þó miklu minni þökk enum máttuga Þór guþi mínum. Konúngr sótti þá til bæjar Rauðs, ok kallaði þar saman alt fólk sem í eyjunni var; síþan boðaði konúngr Rauð ok öllum þeim, er þar voro samankomnir, guðs orð með mjúklæti ok linleik en engum harðindum, ok kostgæfði at leiða Rauð á rètta götu sem annat fólk. Konúngr mælti: þat er erendi mitt híngat til eyjar þessar sem annarstaðar, at [3]) leiða þik Rauð ok allan þenna lýð af þeim villistigum, er þèr hafit áðr of lengi gengit eptir fjand-

[1]) brodda, *F.* [2]) koma, *F.* [3]) ok, *A.*

ans teygíngum, ok vísa yðr á þá greiðu götu, er alla leiðir til eilífs fagnaðar, þa er hana gánga með rèttri rás guþligra boðorða; en þat er at trúa á sannan guð föþur ok son ok helgan anda, ok láta skírast í hans nafni, gera síþan hans vilja með góðfýsi ok geyma hans blezaðra boðorða, taka þar í ömbun, ef rètt er til stundat, eilífa sælu með almáttkum guði. En sá er sannr guð ok allsvaldandi, sem hverr skynsamr maðr má skilja, er skapat hefir himininn, jörð ok sjá, sól ok túngl ok alla skepnu af engu efni í upphafi, ok síðan stýrir ok stjórnar allri sinni skepnu eptir sinni vild ok fagrligri skipan. Þat má eigi síðr skilja með, at þat ero eigi guðar, þó at svâ kallist, er líkneski ero gjör eptir illum mönnum, ok megu því síðr öðrum hjálpa, at þeir ero sjálfir blindir ok daufir, dumbir ok dauðir, ok megu hvergi or stað hrærast, nema þeir sè af mönnum bornir, eðr fjandinn hræri þá með sínu falsi ok sjónhverfíngum, til þess at hann megi því auðveldligarr svíkja mannfólkit, ef svâ sýnist sem skurðgoðin megi þeim nökkut liðsinni veita til sinna glæpa, þeirra er þeir vilja framfara, er á þau trúa; en þeir falsguðar hafa því síðr nökkurn sannan mátt, at sjálfir fjandrnir ero harðla veikir ok úmáttugir í móti krapti allsvaldanda guðs. Rauðr svaraði máli konúngs: áheyriligt getr þú gert, konúngr! þitt mál, en eigi er mèr mikit um at láta þann átrúnað, sem ek hefir haft, ok fóstri minn kendi mèr, ok eigi má þat mæla,

t guþ vârr Þórr, er hèr byggir í hofi, megi lítit,
þvíat hann segir fyrir úvorðna luti, ok raunör-
ggr verðr hann mèr í allri þraut, ok fyrir því
mân ek ekki bregða okkru vinfengi, meðan
ann heldr trúlyndi við mik, en ekki mân ek
neina öðrum mönnum at halda þá trú, sem
verjum sýnist. Konúngr svarar: þat er ok
kast, at þèr geri lítit einum í móti at standa,
f allir aðrir vilja rèttu ráði fylgja, ok spurt
nuntu hafa, at ek hefir menn opt skjótliga
vadda frá erfðum, þá er eigi vildo hlýða mín-
m boðum eptir sjálfra þeirra hjálp ok nauðsýn.
auðr mælti: heldr nú við hót, en ekki geng ek
rir slíku; en þó alls er þú ert, konúngr! svâ
ráhaldr á þínu máli hèr um, ok þú segir þinn
nð allsturkan, ok mega hvervitna þat, er hann
ll, þá mun hann vilja efla þik svâ, at þú
eghir miklu orka; en þú kallar Þór auðgæt-
gan ok vanmeginn, en ek vænti at þèr mân
öðru verða; nú mun ek gera bál mikit, en
t Þórr gángit þar at sínum megin hverr ok
kizt í hendr, þá mun sá ykkarr sýnast sigr
ıfa, er annann dregr um eldinn, ætla ek at
r skal Þórr verða heldr handstyrkr. Kon-
ngr mælti: hverr heyrði slíkt mælt, enginn
aðr dirfðist furr at vísa djöflum til þrautar við
k, sem ek boðaða helga trú, en þó mân ek
þessa ráða, treystandi á miskun almáttigs
ðs, at fjandinn mun ekki mega í móti krapt
sú krists, ok þó geng ek til þessa prófs með

þeim skildaga, at hvârgi okkarr Þórs skal öðrum hjálpa, ok hvers sem viðþarf, ok engi maðr skal tilfara með okkr, hvârr sem vanluta verðr. Var þá hlaðit mikit bál ok skotit í eldi. Þórr gekk at eldinum ok var þó tregr til, tókust þeir konúngr í hendr ok sviptust fast, Þórr lèt fyrir, drap hann fótum í eldstokkana, ok steyptist á eldinn fram, brann hann þar á lítilli stundu at avsku, en konúng skaðaði ekki. Ólafr konúngr mælti: nú er öllum mönnum auðsýnt, at þeir hafa illan átrúnat, er treystast Þór, þar er hann mátti eigi sjálfum sèr hjálpa við bruna. Rauðr svarar: reynt er nú þetta, konúngr! at þú berr sigr af ykkrum viðskiptum, ok aldri skal ek síþan á hann trúa, en þó ferr fjarri, at ek láta skírast at sinni. Konúngr lèt þá handtaka Rauð ok hafði hann með sèr í varðhaldi, en þó vissi hvârgi þeirra Rögnvalds til annars, en alt fólk annat í eyjunni var skírdt ok tók sanna trú. Ólafr konúngr spurði þat, at Háleygir höfðo her úti ok ætlaðu at verja konúngi land, ef hann kvæmi norðr þángat; voro þeir höfþíngjar fyrir liði því: Hárekr or Þjótto, Þórir hjörtr or Vâgum ok Eyvindr, er kalladr var kinnrifa. Snèri konúngr þá leið sinni suðr aptr til Þrándheims ok inn í fjörðinn, þvíat hann frètti at Þrændir höfðu dreift her þeim, er þeir höfðo saman dregit, þegar er konúngr fór út or firði, ok þeir vissu, at hann ætlaði norðr á Hálogaland.

## Prentvillur.

*ls.* 61 *lin.* 14 Tosta *les* Tosti
— 81 — 23 Ólafr — Ólaf
— 145 — 25 sagð — sagði